Passiu

# Hugvekjur

til

## Qvöld-lestra,

frá byrjun

Lángaföstu til Páska.

Fritt útlagdar eptir

Christópher Christjáni Stúrm,

af

Markúsi Magnússyni,

Fyrrum Stiptprófasti, Prófasti i Kjalarness Þingi og Sóknarpresti til Garda og Bessastada.

II. Bindi.

Selst óinnbundið á Prentpappír á 80 ß. Silfur Mynt.

Videyar Klaustri, 1838.

Prentad á Forlag Secretera O. M. Stephensens, af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

# Jesú Krists
# Píslar-Saga.

## Fyrsti Partur.

Þegar Jesús og hans Lærisveinar, eptir qvøldmáltidina, høfdu loffsaunginn sungid, geck hann út ásamt þeim, eins og hann var vanur, yfirum lækinn Kedron til Olíu-fjallsins. Hann sagdi þá til þeirra: á þessari nóttu munud þér allir hneixlast á mér; því skrifad er: hirdirinn mun eg slá, og saudir hjardarinnar munu í sundurtvístrast, en þegar eg rís upp aptur, mun eg birtast ydur í Galíleu. Pétur svaradi: þó allir hneixli sig á þér, skal eg þó aldrei hneixlast. Jesús sagdi: sannlega segi eg þér: ad í dag, ádur enn haninn galar tvisvar, munt þú afneita mér þrisvar. Pétur taladi þá enn frekar og sagdi: já, þó eg ætti ad deya med þér, skal eg ecki afneita þér; hid sama søgdu og allir Lærisveinarnir. Þá kom Jesús med

þeim í það akurgerði, sem hét Gethsemane, þar var grasgarður og þar gekk Jesús inn með Lærisveinunum; en Júdas, sem sveik hann, vissi og þenna stað, því Jesús safnaðist opt þangað með Lærisveinum sínum. Þá Jesús kom í þann stað, sagði hann við Lærisveinana: setjið yckur hér á meðan eg fer burt og biðst fyrir; biðjið! svo þér fallið ecki í freistni. Hann tók með sér Pétur, Jacob og Jóhannes, þá tvo sonu Zebedæusar, og tók til að hryggjast, titra af hræðslu og harmþrúnginn að verða og sagði til þeirra: sála mín er hrygg allt í dauðann, bíðið hér og vakið með mér; en hann sleit sig í burtu frá þeim og gékk litlu fram lengra, nær einu steinsnari, kraup á kné, féll fram á ásjónu sína til jarðar og bað: ef það mögulegt væri, að sú stund hjá sér liði og sagði: Faðir minn! ef mögulegt er, þá víki þessi kaleikur frá mér; Abba, Faðir minn! allt er þér mögulegt! tak burt þenna kaleik frá mér, þó ecki hvað eg vil, heldur sem þú vilt. Hann kom aptur til Lærisveinanna, en fann þá sofandi. Hann sagði við Pétur Símon! sefur þú? megnaðir þú ecki að vaka með

mér eina stund? vakid og biðjið, svo þér freistist ecki! andinn er reiðubúinn, en holdið er veikt. Í annað sinn gécк hann burt aptur, baðst fyrir, talaði sømu orðum og sagði: Fadir minn! ef það er ecki mögulegt, að þessi kalík-ur víki frá mér utan eg drecki hann, þá verði þinn vilji. Hann snéri aptur, kom og fann þá einn sofandi; augu þeirra vóru svo þrúngin af svefni, að ecki vissu hverju þeir svørudu honum. Jesús skildi við þá, gécк á burt aptur, bað í þriðja sinni með sømu orðum og sagði: Fadir! ef þú vilt svo, þá tak þenna kalcik frá mér, þó ecki minn, heldur verði þinn vilji! Honum birtist þá Engill af himni, sem styrkti hann; en þegar Jesús var staddur í dauðans stríði, tók hann ákaflega að biðja; en sveiti hans varð eins og blóðhniklar, sem féllu á jørdina. Hann stóð upp frá bæninni, kom til Lærisveinanna í þriðja sinni, og fann þá sofandi út af hrigð, og sagði til þeirra: sofið þér nú það eptir er og hvílist! hvað! sofið þér? það er nóg; standið upp og biðjið, svo þér fallið ecki í freistni. Sjáið! sú stund tekur að nálgast, og er komin, að Mannsins Sonur mun ofurseljast

í syndugra hendur. Standid upp og gaungum hédan! sjáid! sá er mig svíkur, hann er í nánd.

## Annar Partur.

Jafnsnart, sem Jesús var enn ad tala um þetta, sjá! einn af þeim tólf, sem Júdas hét, þá er hann hafdi nú til sín tekid flock manna, og þénara Kénnimanna høfdíngjanna og Pharísæanna, kom hann þángad og med honum flockur mikill, med blisum, lømpum, sverdum, staungum og vopnum, útsendir af Kénnimanna høfdíngjum, Skriftlærdum og Oldúngum, og hann géck fyrir þeim. Sem Jesús vissi nú allt hvad yfir hann átti ad koma, géck hann fram og sagdi til þeirra: ad hverjum leitid þér? þeir svørudu honum: ad Jesú af Nazareth. Jesús sagdi til þeirra: eg er hann. En Júdas sá ed sveik hann, stód einninn hjá þeim; en sem Jesús sagdi til þeirra: eg er hann! hørfudu þeir á bak aptur og duttu til jardar. Hann spurdi þá enn einusinni: ad hverjum leitid þér? en þeir søgdu: ad Jesú af Nazareth. Jesús svaradi: eg sagdi ydur þad, eg er hann;

þar fyrir, ef þér leitid ad mér, þá látid þessa á burt fara — svo ad uppfylltist þad ord, er hann hafdi sagt: ad engum glatadi eg af þeim, sem þú gafst mér, (Jóh. 17). — En svikarinn hafdi géfid þeim sameginlegt teikn og sagt: hvern helzt eg kyssi, sá er þad, grípid hann og leidid á burtu varhygdarlega. Og þá hann kom, nálgadist hann Jesúm ad hann kyssti hann, og jafnsnart géck hann til hans og sagdi: heill sértu, Rabbi! og kyssti hann. En Jesús sagdi til hans: vinur! hvar fyrir ertu kominn? Júdas! svíkur þú mannsins Son med kossi? Þá gengu þeir þángad, løgdu sínar hendur á Jesúm og gripu hann. En þá ed þeir, sem hjá honum vóru, sáu hvad verda vildi, søgdu þeir til hans: Herra! skulum vér slá med sverdi? og sjá! ad einn af þeim, sem med Jesú vóru og þar stódu, Símon Petur, hafdi sverd, rétti út høndina og ryckti því, og sló til Presta-høfdíngjans þénara, og hjó af honum hans hid hægra eyra, og sá þénari hét Malchus. En Jesús svaradi og sagdi: leyfid einúngis þetta! og hann áhrærdi hans eyra og lækn-

adi hann. Og hann sagdi til Péturs: sticktú þínu sverdi í slídrir, þvíad hverr ad sverdid tekur, sá mun fyrir sverdi farast; eda meinar þú ad eg kunni ecki nú ad bidja minn Fødur, þad hann sendi mér meir enn tólf legíónir Engla? skal eg ecki drecka þann kaleik, hvern ed minn Fadir hefir mér géfid? en hverninn skyldu þá Ritníngarnar uppfylltar verda? því þad hlýtur svo ad ské. Á þeim tíma svaradi Jesús og sagdi til fólksins og þeirra Presta-høfdíngja, og Høfudsmanna musterisins og Ødúnganna, sem til hans vóru komnir: þér erud eins og til annars ræníngja útgengnir med sverdum og staungum ad grípa mig. Daglega hefi eg hjá ydur verid, setid og kénnt í musterinu, og þér hafid engar hendur á mig lagt, og ecki gripid mig, heldur er þetta ydar tími og makt myrkranna, svo ad Ritníngarnar uppfylltust. En allt þetta er skéd, svo ad uppfylltist Ritníngar Spámannanna. Þá forlétu hann allir Lærisveinarnir og flýdu. Og þar var úngur madur, sá er honum eptirfylgdi, hann var med líni klæddur yfir bert hørund, og úngmenni gripu hann; en hann snar-

adi línklædinu og flýdi nakinn í burt frá þeim.

## Þridji Partur.

En flockurinn og hinn ypparsti Høfudsmadur og þénarar Gydínganna gripu Jesúm og bundu hann, og leiddu hann fyrst burt til Hannasar, sem var fadir konu Kaíphasar, hverr ed þá var þess árs ædsti Prestur, og þeir burtleiddu Jesúm fánginn til Kaíphasar Kénnimanna-høfdíngja; en Kaíphas var sá, sem Gydíngum gaf þad rád: ad betur færi þad einn madur dæi fyrir fólkid. Og þeir innleiddu hann í hús þess ypparsta Prests, þar ed med honum allir Kénnimanna-høfdíngjar, Skriftlærdir og Oldúngar vòru samankomnir. En Símon Pétur fylgdi Jesú eptir álengdar, allt til forstofu Kennimanna høfdíngjans, og einn annar Lærisveinn, sá sami Lærisveinn var kunnugur Kénnimanna høfdíngjanum, og géck inn med Jesú í forstofu Kennimanna-høfdíngjans, en Pétur stód þar úti fyrir dyrum. Þá géck út sá annar Lærisveinn, sem Kénnimanna-høfdíngjanum var kunnugur, og taladi vid dyravørslu kon-

una, og leiddi Pétur inn lengra í forstofu Kénnimanna-höfdíngjans, og hann géck inn; því ad þénararnir höfdu eld qveiktann í midri forstofunni og setst til samans, en Pétur setti sig á milli þeirra og vermdi sig vid logann, ad hann sæi hverr endir þar á yrdi. En Pétur sat utar í forstofunni, og þar hann var fram betur í forstofunni, kom ein af ambáttum Kénnimanna-höfdíngjans, og þá hún leit Pétur sitja vid logann og verma sig, leit hún til hans og stardi á hann, géck til hans og sagdi: hvert ert þú og einn af þess manns Lærisveinum? og þú varst med Jesú þeim galilæiska af Nazareth. En hann afneitadi honum fyrir öllum, segjandi: kona! ecki er eg, eg þecki hann ecki, og ecki veit eg hvad þú segir; og hann géck úti fordyrid og haninn gól. En þrælarnir og þénararnir stódu, sem gjört höfdu kola eld, og vermdu sig, þvíad kuldi var. Pétur stód þar hjá þeim og vermdi sig, En Kénnimanna-höfdínginn spurdi Jesúm þá ad um hans Lærisveina og hans kénníngu? og Jesús svaradi honum: eg hefi opinberlega talad í heiminum; eg hefi

og med jafnadi kénnt í samkunduhús-
um og í musterinu, þar ed Gydíngar
allstadar ad koma til samans, og eckért
hefi eg í leynum talad; hvad spyr þú
mig ad þessu? spyr þú þá þar ad,
sem heyrt hafa hvad eg hefi talad til
þeirra; sjá þú! þeir hinir sømu vita
hvad eg hefi sagt; en sem hann taladi
þettad, gaf einn þénaranna, sem þar
stód hjá, honum kinnhest, og sagdi:
skaltu svo svara Biskupinum? Jesús
svaradi; hafi eg ílla talad, þá bevísa
þad, ad þad sé órétt, en hafi eg satt
sagt, því slær þú mig þá? Hannas
sendi hann þá bundinn til Kaiphasar
Kénnimanna høfdíngja. En ambáttin,
er hún sá Pétur, tók aptur til ad
segja þeim, sem þar hjá stodu: þessi
er einn af þeim. En er hann géck út
um dyrnar, leit hann ønnur ambátt
og sagdi til þeirra, sem þar vóru:
þessi var og med Jesú af Nazareth;
litlu sídar sá hann enn annar og sagdi:
þú ert og einn af þeim; enn framar
tøludu þeir til hans: ertú af hans
Lærisveinum? og í annad sinn neitadi
Pétur aptur med eidi og sagdi: mad-
ur! ecki er eg þad, ecki þecki eg þann
mann. En þeir ædstu Prestar og

Öldúngar, og allt Rádid leitudu ljúgvitna ígégn Jesú, svo ad þeir gætu honum í helkomid, en fundu ecki; og þó margir ljúgvottar gengi þar fram ad, þá fundu þeir eckért, þvíad margir báru falsvitni móti honum, en þeirra vitnisburdir vóru ecki samhljóda. En ad sídustu stódu upp og gengu fram nockrir tveir falsvottar, og báru ljúg-vitni í móti honum, og sögdu: ver hofum heyrt hann segja: eg kann og vil nidurbrjóta þetta musteri Guds, sem med höndum er gjort, og á þrem-ur dögum uppbyggja annad, þad ecki er med höndum gjört, en þeirra vitnis-burdir urdu enn ecki samhljóda. Sá ædsti Prestur stód þá upp midt á milli þeirra, spurdi Jesúm ad, og sagdi til hans: svarar þú engu? hvad vitna þessir á móti þér? en Jesús þagdi og svaradi engu. Þá ansadi enn aptur sá ædsti Prestur, spurdi hann ad og sagdi til hans: ertú Kristur Sonur hins Blessada? eg særi þig vid lifanda Gud, ad þú segir oss ef þú ert Kristur Sonur Guds! Jesús sagdi til hans: þú sagdir þad, eg er; en þó segi eg ydur: hér eptir munud þér sjá Mannsins Son sitja

til hægri handar Kraptarins, og kom-
anda í skýum himins. Þá reif Kénni-
manna-höfdínginn sín klædi í sundur
og sagdi: hann gudlastar. Hvad
þurfum vér nú framar vitnanna vid?
sjá! þér heyrdud nú sjálfir hans gud-
lostun. Hvad vyrdist ydur? enn þeir
fordæmdu hann allir og søgdu, hann
er daudans sekur. Litlum tíma þar
éptir, nær einni stundu, styrkti ein-
hverr annar þad, (ad Pétur væri
einn af Jesú Lærisveinum) og sagdi:
ad sonnu var og þessi med Jesú,
því hann er Galílæari. Og aptur
gengu þeir ad, er hjá stódu, og søgdu
til Péturs: sannarlega ertu af þeim,
þvíad þitt túngumál er sámhljóda og
opinberar þig. Þá sagdi einn af
Kénnimanna-høfdíngjans þénurum,
frændi þess, sem Pétur hjó af eyrad:
sá eg þig ecki í grasgardinum med
Jesú? þá neitadi Pétur því enn
aptur og sagdi: madur! eigi veit eg
hvad þú segir. Þá tók hann til ad
formæla sér og sverja: eigi þecki eg
þann mann, um hvern þér talid.
Jafnsnart er hann nú taladi enn
framar, gól haninn í annad sinn, og
Drottinn snéri sér vid og leit til Pét-

urs, þá minntist Pétur Jesú orða, er hann hafði sagt til hans: áður enn haninn galar tvisvar, muntú afneita mér þrisvar; og hann gékk út og grét beisklega. Þá tóku nockrir að spýta á Jesúm, í hans ásjónu, og börðu hann með knefum, en þénararnir og þeir menn, sem héldu honum, dárudu hann og slóu, byrgðu hans ásjónu, slóu hann með knefum, spurdu hann og sögðu: spá þú oss, hverr er sá þig sló? og margt annað hádugslegt sögðu þeir við hann.

## Fjórði Partur.

Strax um morguninn, er dagur var, söfnuðust saman og héldu ráðstefnu allir æðstu Prestar með Öldúngum lýðsins og Skriftlærðum, og þaraðauki öllu Ráðinu, móti Jesú, svo að þeir gætu honum í hel komið, og leiddu hann upp fyrir sitt Ráð, og sögðu: ef þú ert Kristur, seig oss það? og hann sagði til þeirra: ef eg segi yður það, þá trúið þér því eigi, en ef eg spyr yður, þá svarið þér mér eigi, eða látið mig lausann. Nú héðan í frá mun Mannsins Sonur sitja til hægri handar Guðs kraptar. En þeir

søgdu allir: ertú þá Guds Sonur? Hann sagdi þá til þeirra: þér segid þad, eg em hann. Þá søgdu þeir: hvad þurfum vér nú vitnisburdinn lengur, vér sjálfir heyrdum þad af hans munni. Og allur sá skari þeirra stód upp og bundu Jesúm, og leiddu hann á burt frá Kaíphasi og í þínghúsid, og ofurseldu hann Landsdómaranum Pontíó Pílató; en þad var snemma morguns. Þá er Júdas, hverr ed hafdi svikid Jesúm, sá þad hann var til dauda dæmdur, ydradist hann þess, og færdi aptur þeim ædstu Prestum og Öldúngum þá þrjátíu silfur peninga og sagdi: syndgad hefi eg, ad eg sveik saklaust blód; en þeir søgdu: hvad kémur þad vid oss? sjá þú þar fyrir. Og hann snaradi þeim silfur-peníngum í musterid, skundadi hadan, géck á burt og hengdi sjálfann sig. En þeir ædstu Prestar tóku silfurpeníngana og søgdu: ecki hæfir ad vér látum þá í Guds kistuna, því ad þád er blóds-verd. En þeir héldu ráð, og keyptu med þeim Leirsmids akur, framandi mønnum til greftrúnar. Fyrir þad er sá akur kalladur blóds akur, allt til þessa dags.

Þá er uppfyllt hvad sagt er fyrir Jeremías Spámann, er svo hljódar: þeir tóku þá þrjátíu silfur-peninga, er hinn seldi var med betaladur, hvern þeir keyptu af Jsraels börnum, og hafa géfid þá fyrir Leirkéra-smids-akur, eptir því, sem Drottinn hafdi mér bodid. Höfud-prestarnir og Öldúngarnir gengu ecki sjálfir inn í þínghúsid, ad þeir saurgudust ecki, heldur svo þeir mættu neyta Páskanna. Pílatus géck þá út til þeirra og spyrdi: hverja ákjæru færid þér ígégn þessum manni? þeir svörudu: ef þessi væri ecki íllrædismadur, þá hefdum vér ecki fengid hann þér í hendur. Pílatus sagdi: takid þér hann þá og dæmid eptir ydar lögum. Gydíngar svörudu: oss leyfist eckl ad lífláta nockurn, svo það ord Jesú uppfylltist, er hann sagdi, teiknandi þar med, hverjum dauda hann skyldi deya. Jesús stód frammi fyrir Landsdómaranum, en þeir tóku ad áklaga hann og sögdu: þenna finnum vér frásnúa fólkinu, fyribjóda ad géfa Keisaranum skatt og segir sig vera Kongúnginn Krist. Þá géck í annad sinn inn Landsdómarinn Pílatus, kalladi Jesúm og

spurdi: ertú Konúngur Gydínga? Jesús svaradi: talar þú þad af sjálfum þér, eda hafa adrir sagt þér þad um mig? Pílatus spurdi þá: er eg nockud Gydíngur? þín þjód og Kennimanna-höfdíngjar ofurseldu þig mér; hvad hefir þú gjort? Jesús svaradi: mitt ríki er ecki af þessum heimi; ef mitt ríki væri af heiminum, mundu þénarar mínir strída þar fyrir, svo eg ofurseldist ecki Gydíngum, en nú er mitt ríki ecki þadan. Pílatus spurdi: ertú þó samt Konúngur? Jesús svaradi: þú segir þad, eg er og Konúngur; til þess er eg fæddur og í heiminn kominn, ad eg beri vitni sannleikanum, og hverr hann er af sannleikanum, sá heyrir mína rödd. Pílatus spurdi: hvad er sannleikurinn? og géck svo út aptur til Gydínga og sagdi til þeirra yppurstu Presta og lýdsins: enga sök finn eg med þessum manni; en Höfud-prestarnir áklögudu hann hardlega, og er hann áklagadist af þeim og Öldúngunum, svaradi hann engu. Pílatus spurdi hann þá: svarar þú engu? heyrir þú ecki hversu hardlega þeir áklaga þig? en Jesús svaradi honum engu framar til nock-

urs orðs, svo Landsdómarinn undradist það nærsta. En hinir vóru þess ákafari og søgðu: hann hefir uppæst fólkið með því hann hefir kénnt á øllu Gyðíngalandi, og hefir tiltekið í Galílæu allt híngað. En er Pílatus heyrði Galílæu nefnda, spurði hann að: hvert hann væri Galílæískur? en þá hann heyrði að Jesús var undir Heródesar veldi, sendi Pílatus hann til Heródesar er líka var á þeim sømu døgum í Jerúsalem. En er Heródes sá Jesúm, varð hann nærsta glaður, því hann hafði fyrir laungu girnst að sjá hann, af því hann hafði margt heyrt af honum, og vænti að hann mundi sjá teikn af honum, aðspurði hann því á marga vega, en hann svaraði honum engu. Kénnimanna-høfðíngjar og Skriftlærðir ásøkuðu hann harðlega; en Heródes og stríðsmenn hans forsmáðu Jesúm og spottuðu, færðu hann í hvítt fat, og sendu hann aptur til Pílatusar. Á þeim degi urðu þeir Pílatus og Heródes vinir aptur, því að áður vóru þeir óvinir sín á millí. En Pílatus saman-kallaði Presta-høfðíngja, Høfuðs-menn og lýðinn, og

sagdi til þeirra: þér hafid þennann mann til mín haft, sem hann, er frásnýr fólkinu, sjáid! eg hefi yfirheyrt hann hér fyrir ydur, og á þessum manni finn eg enga af þeim sökum, sem þér klágid hann fyrir, og ecki heldur Heródes, þvíad eg sendi ydur til hans, og sjáid! eckert er af honum gjört þad dauda sé verdugt, vil eg því refsa honum og láta lausann. En á hátídar deginum hlaut Landsdómarinn, eptir venju, fólkinu lausann ad láta einhvern bandíngja, hvern helzt þeir vildu, og eptir hverjum þeir beiddust. En þá hafdi hann nafnkénndann bandíngja framar ødrum, er Barabbas hét, med upphlaups-mønnum bundinn, hverjir í upphlaupinu høfdu víg unnid. Þá þeir vóru til samans komnir, sagdi Pílatus til þeirra: þad er ydar sidvenja, ad eg géfi ydur einn lausann á Páskum; en fólkid kalladi upp og tók til ad bidja: ad hann vildi gjöra sem hann væri vanur. Þá spurdi Pílatus: viljid þér ad eg géfi ydur nú Gydínga Kóngínginn lausann? hvern viljid þér ad eg géfi ydur lausann, Barabbam eda Jesúm, er kallast Kristur (því hann vissi vel ad

Høfud-prestarnir høfdu af øfund ofurselt hann) Þá hann sat á dómstólnum, sendi hans húsfrú til hans og lét segja honum: haf þú eckért ad gjøra med þann Réttláta, því margt hefi eg lidid í dag í draumum fyri hann. En þeir ædstu Prestar og Oldúngar rédu fólkinu og eggjudu, ad þad skyldi bidja: ad hann gæfi þeim miklu heldur Barabbam lausann, en Jesúm skyldu þeir deyda. Þá spurdi Pílatus: hvern af þessum tveimur viljid þér ad eg láti ydur lausann? þá kalladi upp allur hópurinn og sagdi: tak burt þennann, en géf oss Barabbam lausann. Þá spurdi Pílatus aptur og vildi Jesúm lausann láta: hvad viljid þér þá ad eg skuli gjøra vid Jesúm, af hverjum sagt er, ad hann sé Kristur, Konúngur Gydínga? en þeir kølludu þá allir upp: krossfestist hann! krossfestú hann! Pílatus spurdi þá í þridja sinn: hvad íllt hefir þá þessi gjort? engva daudasøk finn eg med honum, því vil eg hegna honum og láta lausann. Þeir kølludu þá því meir: krossfestist hann! krossfestú hann! og enn aptur hrópudu þeir: ecki þennann, heldur Barabbam! en Barabbas var ræníngi,

sem var settur í fángelsi fyrir úpphlaup og mannslag, er skéð var í borginni. Loksins hrópuðu Höfuð-prestarnir og lýðurinn allur í einu hljóði, að Jesús yrði krossfestur. Þá tók Pílatus Jesúm og húðstrýkti hann, en stríðsmenn Landsdómarans tóku Jesúm og leiddu hann með sér inní þínghúsið, köllaðu saman og söfnuðu að honum öllu liðinu, afklæddu hann og færðu hann í purpura kápu, fléttuðu kórónu af þyrnum, settu hana á hans höfuð og reyr í hans hægri hönd, beygðu kné fyrir honum, spjöðu hann og tóku að heilsa honum þannig: heill sértú, Konúngur Gyðínga! gáfu honum pústra og hræktu á hann, tóku reyrinn og börðu um hans höfuð, féllu á kné og tilbáðu hann. Þá géck Pílatus út aptur og sagði við þá: sjáið! eg leiði hann nú út híngað til yðar, svo að þér vitið, það eg finn engva sök með honum. Svo géck Jesús út, berandi þyrni-kórónu og purpura-klæðið; þá sagði Pílatus til þeirra: sjáið manninn! Þá er Kénnimanna-höfðíngjarnir og þénararnir sáu hann, kölluðu þeir: krossfestú! krossfestú! Pílatus sagði: takið þér hann og krossfestið, því eg

finn enga søk med honum. Þá svørudu honum Gydíngar: vér høfum løg, og eptir vorum løgum á hann ad deya, því hann gjordi sig sjálfann ad Guds Syni.

## Fimti Partur.

Þá Pilatus heyrdi þad ord, óttadist hann enn meir, géck aptur í þínghúsid, og sagdi til Jesú: hvadan ertú? en Jesús gaf honum eckért svar. Þá sagdi Pilatus til hans: talar þú ecki vid mig? veitst þú ecki ad eg hefi rád til ad krossfesta þig, og eg hefi rád til ad gefa þig lausann? Jesús svaradi: ecki hefdir þú nockurt vald yfir mér, nema þér væri géfid þad hér ad ofan, fyrir því hefir sá meiri synd, er mig ofurseldi þér. Eptir þad leitadist Pílatus vid, hvernig hann gæti látid Jésúm lausann. En Gydíngar hrópudu: ef þú lætur þennann lausann, þá ertú ecki Keisarans vinur; þvíad hverr, sem sig gjørir ad Konúngi, hann er á móti Keisaranum. Þá Pílatus heyrdi þad ord, leiddi hann Jesúm út, og setti sig á dómstólinn, í þeim stad, sem kallast hinn steinlagdi, en á hebresku Gabbatha, en þad var adfángadagur Páska, nærri sjøttu

stundu. Þá segir hann og til Gyd-
ínga: sjáid! þad er ydar Konúngur,
en þeir kölludu: burt, burt med hann,
krossfestú hann. Pílatus sagdi til
þeirra: skal eg krossfesta ydar Konúng?
Kénnimanna-höfdíngjarnir svörudu:
engann Konúng höfum vær, nema
Keisarann. Þá Pílatus sá, ad hann
kom engu til vegar, heldur þad, ad þar
yrdi enn meira upphlaup af, tók hann
vatn, og þvodi hendurnar fyrir fólkinu
og sagdi: saklaus er eg af blódi þess Rétt-
láta, sjáid þér til! þá svaradi allur lýd-
ur: hans blód komi yfir oss og yfir börn
vor! En Pílatus þenkti fólkinu full-
nægju ad giöra, og dæmdi ad ské skyldi
þeirra beidni, gaf þeim Barabbas
lausann, sem inn var settur fyrir upp-
hlaup og manndráp í myrkva stofu,
um hvern þeir bádu; en Jesúm húd-
strýktann framseldi hann þeim, eptir
þeirra vilja, ad hann krossfestur yrdi.
Þá tóku þeir Jesúm, eptir þad þeir
höfdu spottad hann, færdu hann úr pur-
pura kápunni, klæddu hann í sín eigin
klædi, og leiddu hann út, ad þeir kross-
festu hann, og hann bar sinn kross og
géck út. En í því þeir gengu og leiddu
hann út, fundu þeir mann, sem fram-

hjá gékk af Cyrene, Símon að nafni, hverr ed kominn var af akri, fødur þeirra Alexanders og Rúfi, hann høndludu þeir, þreyngdu honum að hann bæri Jesú kross, og løgdu krossinn uppá hann, að hann bæri hann eptir Jesú. En honum fylgdi mikill fjøldi fólks og qvenna, sem grétu og hørmudu hann; þá snéríst Jesús til þeirra og sagði: þið Jerúsalems dætur! grátið ekki yfir mér, heldur grátið yfir ydur sjálfum og yfir børnum ydar; því — sjáið! þeir dagar munu koma, á hverjum þeir segja: sælar eru óbyrjur og þeir qvidir, er ekki hafa fædt, og þau brjóst, hver ekki vóru mylkt. Þá munu þeir segja fjøllunum: hrynjið yfir oss, hálsunum: hyljið oss. Ef þeir gjøra þetta við hið blómgaða tréð, hvað mun þá ské við hið þurra? En tveir spillvirkjar leiddust og út, að þeir væru afteknir með honum. Þeir leiddu hann í þann stað, sem kallast á hebresku Golgatha, sem þýðir: Hausaskéljastadur; þeir gáfu honum að drecka í víni myrru og edik galli blandað, en hann tók það ecki til sín, því þá hann smackaði það, vildi hann ecki drecka. Sem þeir komu í

þann stað, er kallaðist Hausaskélja-staður, þar krossfestu þeir hann, og með honum tvo ræníngja á báðar síður, einn til hægri handar og annann til vinstri, en Jesúm í miðið. En það var nær um þriðju stund, er þeir krossfestu hann; þá varð sú Ritníng uppfyllt, sem segir; með íllvirkjum er han reiknaður. En Jesús sagði: Faðir! fyrirgéf þeim, þvíað þeir vita ecki hvað þeir gjöra. Pílatus skrifaði þá yfirskrift og setti hana upp yfir krossinn, uppyfir hans höfði festu þeir hans dauða sök. Yfirskriftin og hver sök honum var gefin, var rituð yfir honum með grískum, látínskum og hebreskum bókstöfum: Þessi er Jesús af Nazareth, Konúngur Gyðínga. Þessa yfirskrift lásu margir af Gyðíngum, því sá staður var nærri borginni, þar Jesús var krossfestur. Þá sögðu þeir æðstu Prestar Gyðínganna við Pílatum: skrifa þú ecki Konúngur Gyðínga, heldur það hann hafi sagt: eg er Konúngur Gyðínga. Pílatus svaraði: hvað eg skrifaði, það hefi eg skrifað.

## Sjötti Partur.

Þá stríðsmennirnir höfðu krossfest Jesúm, tóku þeir hans klæðnað, gjörðu á fjögra hluta skipti, sérhverjum stríðsmanni einn hlut, og vörpuðu þar um hlutkésti, hverr að hann skyldi hafa, og þar með kyrtilinn, en hann var ecki saumaður, heldu frá ofanverðu allur prjónaður. Þá töluðu þeir sín á milli: skiptum vær honum ecki í sundur, hlutumst heldur um hvers hann skal vera, svo að Ritníngin uppfyllist, er segir fyrir Spámanninn: þeir skiptu með sér klæðum mínum og á minn kirtil lögðu þeir hlutkésti. Þetta gjörðu stríðsmennirnir, en fólkið stóð og horfði á. En þeir, sem gengu þar framhjá, hæddu hann, skóku höfuð sín og sögðu, svei! hvernig niðurbrýtur þú musterið og uppbyggir það aptur á þremur dögum? hjálpa þú nú sjálfum þér, ef þú ert Guðs Sonur, og stíg niður af krossinum. Höfðíngjarnir spottuðu hann með þeim, líka hæddu hann þeir æðstu Prestar sín á milli með Skriftlærðum og Öldúngum og sögðu: öðrum hefir hann hjálpað, sjálfum sér gétur hann ecki hjálpað; sé

hann Kristur og Konúngur Ísraels, þá stígi hann nú nidur af krossinum, ad vér sjáum og megum svo trúa honum; hjálpi hann nú sjálfum sér, ef hann er Kristur hinn útvaldi Guds; hann treysti Gudi, hann frelsi hann nú, ef hann hefur lyst til hans, því hann sagdi: eg er Guds Son. Ad honum hæddu og strídsmennirnir, gengu til hans, færdu honum edik og søgdu: ef þú ert Konúngur Gydínga, þá hjálpa þér sjálfum; líka hæddu hann ræníngjarnir, þeir med honum vóru krossfestir. En annar spillvirkjanna, sem hengdir vóru, lastadi hann og sagdi: ef þú ert Kristur, frelsa sjálfann þig og ockur. Þá straffadi hinn hann og sagdi: þú hrædist ecki heldur Gud, sem ert þó í sømu fordæmíngu! ad sønnu skér ockur þetta réttilega, því vid medtøkum hvad gjørdir ockar verdskuldudu, en þessi hefir eckért óskickanlegt gjørt. Og hann sagdi til Jesú: Drottinn! minnstú mín, þegar þú kémur í ríki þitt! Jesús sagdi til hans: sannlega segi eg þér! í dag skaltú vera med mér í Paradís. En þar stódu vid krossinn Jesú, Módir hans og mód-

ur=systir hans, María húsfrú Kleo=
fasar og María Magdalena; þá
Jesús sá Módur sína og þann Læri=
svein þar nær standandi, er þann elsk=
adi, segir hann til hennar: Kona! sjá
þú! það er þinn sonur; eptir það seg=
ir hann til Lærisveinsins: sjá! það er
þín módir; og uppfrá þeirri stundu
tók Lærisveinninn hana ad sér. Það
var nær um sjöttu stundu, ad myrkur
gjördist yfir allt landid, nær til ní=
undu stundar og sólin misti sitt skin.
Um níundu stundu kalladi Jesús hárri
röddu og sagdi: Elí! Elí! lama Sa=
bachtani? sem útleggst: Gud minn!
Gud minn! því yfirgafstú mig?
Nockrir af þeim, er þar stódu hjá og
heyrdu þetta, sögdu: sjá! hann kallar
á Elías. Eptir ad Jesús vissi ad allt
var fullkomnad og ad skriftin yrdi upp=
fyllt, þá segir hann: mig þyrstir. Þar
stód kér fullt af ediki, jafnsnart hljóp
einn af þeim til, tók njardar=vött og
fyllti af ediki, setti hann ofaná reyr=
legg, gaf honum ad drecka og sagdi:
lát vera! sjáum hvert Elías kémur ad
taka hann ofan; en adrir sögdu: bídid!
látid sjá hvert Elías kémur ad hjálpa
honum. En þegar Jesús hafdi edikid

til sín tekid, sagdi hann: Þad er full-komnad. Jesús kalladi upp hárri røddu í annad sinn og sagdi: Fadir! í þínar hendur fel eg minn anda; og er hann hafdi þetta sagt, hneigdi hann høfudid og gaf upp andann. Og sjá! ad tjaldid musterisins rifnadi midt í sundur í tvo parta, frá ofanverdu allt nidur í gegnum, og jørdin skalf og bjørgin klofnudu, grafirnar lukust upp, margir líkhamir heilagra risu upp, þeir ed sváfu, og gengu eptir hans upprisu úr grøfunum, komu í hina heiløgu borg, og auglýstust þar mørgum. En er Hundrads-høfdinginn, hverr þar stód gégnt, sá þad hvad þar skédi, og ad Jesús kalladi svo, þá ed hann létst, prísadi hann Gud og sagdi: vissulega hefir þessi réttlátur madur verid og Guds Sonur. Eins þeir, sem med honum vóru ad vard-veita Jesúm, þá þeir sáu jardskjálft-ann, og hvad þar skédi, urdu mjøg óttasleguir, og søgdu: sannlega var þessi Guds Sonur. Og allt fólk, er þar var og horfdi á, sem þad sá hvad þar skédi, bardi þad sér á brjóst og snéri í burt aptur. En allir hans kunn-íngjar stódu lángt frá. Þar vóru og

margar konur, sem sáu þar uppá álengdar, medal hverra var María Magdalena og María ens Litla Jakobs, og Jósephs módir og Salóme, módir þeirra Zebedæí sona, þær honum høfdu eptirfylgt, þá hann var í Galílæu og þjónad honum, og margar adrar, hverjar med honum høfdu uppfarid til Jerúsalem úr Galílæu, og horfdu á þetta.

## Sjöundi Pártur.

En Gydíngar, med þvíþad var adfánga-dagurinn, svo ad líkamirnir væru ecki á krossinum um Sabbathsdaginn (því sá Sabbaths-dagur var mikill), bádu Pílatus, ad bein þeirra brituzt og ofan tækjust. Þá komu strídsmennirnir og brutu sundur bein hins fyrsta og svo hins annars, sem med Jesú vóru krossfestir. En þá þeir komu til hans og sáu, ad hann var þegar dáinn, brutu þeir ecki bein hans, heldur opnadi einn af strídsmønnunum hans sídu med spjóti, og strax rann út blód og vatn. Sá er þad hefir séd, ber þar vitni um, og hans vitnisburdur er sannur, hann sami veit þad, ad hann segir satt, svo ad þér líka trúid;

þvíad þetta er skéd, svo Ritníngin uppfylltist: ecki skulud þér brjóta nockurt hans bein; og enn aptur segir önnur Ritníng: þeir munu sjá hann, í hvern þeir stúngu. Þar eptir þegar qvöld var komid, af því þad var adfánga-dagur, hverr ad er fyrir Sabbaths-daginn, kom madur nockurr ríkur af borg Gydínga Aremathía, Jóseph ad nafni, heidurlegur Rádherra, gódur madur og réttvís, hverr ecki hafdi verid samþyckur þeirra rádagjörd og breytni, hverr og var einn af Lærisveinum Jesú, þó heimuglegur, fyrir ótta sakir vid Gydínga, sá er og vonadi eptir Guds ríki; hann dirfdist ad gánga inn til Pílatusar og bad um, ad hann mætti taka nidur líkhamann Jesú. En Pílatus undradist ad hann væri þegar látinn, kalladi Hundrads höfdíngjann og spurdi hann ad: hvert hann væri fyrir laungu andadur? og er hann var þess vís ordinn af Hundrads-höfdíngjanum, leyfdi Pílatus og skipadi, ad Jóseph skyldi afhendast líkhaminn og gaf honum hann. Þá kom hann og tók nidur líkhamann Jesú, keypti líndúk, tók vid líkhamanum, og sveypadi hann í

hreinu lérepti; þar kom og Nikódemus, sá er fyrri kom um nótt til Jesú, færandi samblandad myrru alóe, nær hundrad punda. Þá tóku þeir Jesú líkhama og sveypudu hann í líni med dýrmætu salve, eins og Gydínga sidur er til ad greftra. En þar í þeim stad, sem hann var krossfestur, var grasgardur, og í grasgardinum var ný grøf, í hverja enginn hafdi enn verid lagdur; Jósepf lagdi hann í þessa sína egin nýu grøf, hverja hann hafdi úthøggva látid í steini, og velti stórum steini ad grafar-dyrunum og géck á burt. En þad var adfánga-dagur og Sabbaths dagurinn tók til, þángad løgdu þeir Jesúm, fyrir sakir adfánga dagsins Gydínga, því sú grøf var nærri. En þar var María Magdalena og ønnur María Jósephs, og þær konur, sem komnar vóru med honum af Galilæu, fylgdu eptir, sitjandi gégnt yfir frá grøfinni og skodudu grøfina, sáu til hvar og hvernig hans líkhami var lagdur. En þær snéru aptur, reidandi til dýrmætar jurtir og salve; en um Sabbaths-daginn vóru þær kyrrar eptir løgmálinu. En annann dag þann, sem eptir adfánga-daginn

er, søfnudust saman þeir ypparstu Prestar og Pharísæar ásamt til Pilatusar og søgdu: Herra! vær minnumst á þad, ad þessi svikari sagdi þá er hann lifdi: eptir þrjá daga mun eg uppríſa; af því skipa þú ad vakta grøfina allt til ens þridja dags, svo ad ecki komi hans Lærisveinar á nóttu og steli honum í burt, en segi fólkinu, ad hann sé upprisinn frá daudum og verdi svo hin seinni villa argari þeirri fyrri. Pílatus sagdi til þeirra: þar hafid þér vardmennina; farid! vaktid, sem þér hafid vit á. En þeir geingu á burt, vøktudu grøfina med vardmønnunum og innsigludu steininn.

# 1. Föstu-Hugvekja.

Jesú gánga til Olíu-fjallsins. Jóh. 18.

Nú var það í síðarsta sinni, sem Jesús géck til Olíu-fjallsins, hvar hann svo marga nótt ádur vakad hafdi á bænum til síns himneska Födurs. Þann sama stadinn, sem hann í hinum gódu dögunum valid hafdi sér til samtals vid Gud, útvaldi hann sér nú, þá ángistar tíminn nálgadist, til undirbúníngs sinnar pínu. Jerúsalem, þessi samansöfnunar-stadur synda og hávarra heimsins lystisemda, fannst honum ecki sá stadurinn, hvar hann verid gæti sína efstu lífstunda nótt, med því hugarfari, sem písl hans útkrafdi; hann vissi þad fyrir, ad hann átti örðugt strid fyrir höndum, og þetta strídid vildi hann heja, án þess ad hafa þar marga votta ad. Hann géck því í afvikinn stad, hvert hans ástfólgnu vinir fylgdu honum á eptir; þeir, sem þángad til höfdu med honum hlutdeild tekid í allri hans armædu. Hann géck í þeim til-gángi til Olíu-fjallsins, ad hann yrdi

mi forlíkunar-offur fyrir heimsins synd-
ir, og sagdi sig því viljugur undir þær
písliŕ, sem hans Fadir á þeirri nóttu
hafdi honum áqvardadar. Hvílíkann
lærdóm fær oss ecki géfid þessi inngáng-
ur Jesú pínu; þegar vér gætum ad Jesú
hegdun vid útgaungu hans til Olíu-
fjallsins, þá fáum vér af honum lært,
hvörsu vér egum ad hegda oss, þegar
vér hofum mikilvæga hluti fyrir hond-
um, og þó hvad helzt þá, er vidvíkja
sáluhjálp vorri. Midt í heimsins hávada
og lystisemda solli, fær madur traudlega
ígrundad þad, sem nockru vardar, ad
minnsta kosti má því qvída, ad þvílíkt
glepji fyrir, og leidi þánkana frá því,
sem vér vildum umþenkt hafa. Þar
fyrir, þegar vér viljum tala vid Gud, ed-
ur renna þaunkunum til vorra umlidnu
synda, ellegar búa oss vid dauda vorum,
þá egum vér ad flýa þá stadi, sem leida
kunna vorn huga frá vóru umþenkíng-
arefni. Hverki má vanaleg skémtan,
né vina vorra umgengni vera oss svo
dýrmæt, ad vér ecki slítum oss í burtu
og tokum oss afvikinn stad, til ad tala
í leynum vid vorn Fodur. Allrasíst
kunna nockra hugar-rósemi ad géfa á
neydarinnar tíma þeir stadir, á hverjum

vér í gódu døgunum drýgt høfum fá-
fengilegar athafnir; miklu framar vek-
ur þeirra endurminníng hjá oss blygd-
un og sárt hugarángur; en sérhverr
sá stadur, á hverjum vér einmana
høfdum umgengni haft vid Gud, eda
gjørt vora bæn til hans, í sameiníngu
vina vorra, ellegar æft nockur gód-
verk, sá staduriun verdur oss víst í
nauda-edur daudans tíd ad miklum
hugfróa. Þá mun vor bænastadur, þeg-
ar vér deyum, verda vor uppstigníngar
stadur, eins og fjallid Olíveti var sá
stadur, hvadan vor Jesús uppsté sídan
til himna. O! ad vér mættum einnig
nema þá ment af vorum Lausnara,
ad lifa rólega og deya sáluhjálplega!
eins sæll og hann fengi hverr af oss
ordid í dauda sínum, ef vér kynnum
med sanni ad segja eins og hann:
Fadir! eg hefi auglýst þig á jørdu og
fullkomnad þann gjørníng, er þú hef-
ir gefid mér ad gjøra, Jóh. 17. Fyrr
géck ecki vor Frelsari út í dauda sinn,
enn hann hafdi gjørt allt þad, sem hans
medalgaungu-embætti krafdi af hon-
um, og umhyggja sú, er hann bar fyrir
sínum Lærisveinum; þá sídustu nótt
lífdaga sinna brúkadi hann enn þá

til að advara, undirvísa og hugga þá; einnig hér í viljum vér breyta eptir honum, því óvíssari oss er vor dauðadagur, því umhyggjusamari viljum vér brúka sérhvern vorra lífdaga til útréttingar øllu því góða, er vér orkað fáum. Vér viljum í tíma sorga fyrir voru húsi, fyrir þeim, sem oss eru áhángandi, og fyrir vorri sálu; þá fáum vér eins rólegir gengið á móti vorum dauða og Jesús, og munum þá ecki huglausir verða við neina þá þjáníngu, sem vér sjáum oss að høndum koma, miklu heldur munum vér þá hugbreysta hina, sem í enum góðu døgunum vóru vor gleði, vora náúnga, vor børn og vora bestu vini, og vera hughraustir á þeim vonda degi. Og hversu yfirmáta huggunar-ríkur er þá ecki þessi partur Jesú pínu! þessi vors Lausnara gángur hefir grundvøllinn lagt til allrar þeirrar sælu, sem vér þacka egum hans friðþægjandi pínu; án þessarar hans sjálfviljugu gaungu útí dauðann, hefðum vér orðið án bjargar; en þareð hann viljugur gécк útí sína pínu, megum vér nú vera fullvíssir um vora endurlausn. Trúfasti Lausnari! þackir sé þér fyrir þína frí-

vilfagu blódni, sem þú sýnt hefir í þinni vilsingu gaungu til þíns dauda! þackir séu þér fyrir þá huggun, sem þú þar vid hefir afrekad oss í vorum dauda! æ! vér egum einnig einn gáng fyrir höndum, já, bitrann, ørdugann gáng, í gégnum daudans myrkva dal, inn fyrir þinn dóm; vér hljótum einnig ad yfir géfa heiminn, vort jardneska fødurland, og alla vora kjærustu vini. Styrktu oss þá, þegar þar ad kémur, ó! Drottinn Jesú! og lát oss svo rólega, glada og hug-góda, sem þú varst, heiminn yfirgéfa og inngánga til þeirrar eilífu gledi og dýrdar, sem þú, med þinni himna-før hefir tilbúid oss hjá þínum Fødur.

## 2. Føstu-Hugvekja.

Jesú sálar-ángist á Olíu-fjallinu, Matth. 26.

Hvílík umbreytíng er hér á ordin! rétt fyrir skømmu var vor Jesús svo gladur og hughraustur, þá hann géck uppá Olíu-fjallid, nú verdur hann í einu svo hriggur, og tekur til ad skjálfa. Hans sála, sem aldrei fyrr kennt hafdi nockurs hugar víls né qvída, verdur nú í einu vetfangi yfirfallin af ángist og qvøl. Vist hefir þad

vera mátt eitthvad sérlegt, sem brugdid feingi hans rólega gédslagi. Skodum Lausnara vorn í hverjú helzt lífsins ásigkomulagi og umbreytíngum, sem hann var staddur, alltaf finnum vér hann med hinu sáma rólega sinnislagi, sem plagar samfara ad vera hjartans fullkomnasta sakleysi. Eckért saum vér fundid þá af útvortis orsøkum, sem honum svo mjøg mætti bregda vid, ad þad fengi nidurvarpad honum þannig til jardar; daudans ótti gat þad ecki verid; því mundi hann hrædast sinn dauda, sem hafdi syndlausa náttúru, og þaradauki hafdi þad framyfir alla daudlega, ad hans daudi vard blessan fyrir gjørvallt mannkyn? því mundi sá skélfast fyrir því smánarlegasta og qvalamesta lífláti, fyrir hvers krapt øll blódvitni og píslarvottar húgdirfd fengu, til ad deya med glødu stødugl lyndi? þegar vér sjáum einhverja manneskju, hverrar sérhvern lím tekur óttalegur hrædslu-skjálfti af qvída fyrir daudans adkomu, sem strídir þannig á móti daudanum í stærstu ánaúst, þar til kraptarnir þverra, og þessi qvídi margfaldast vid eilífdarinnar ógnanir og þeirra umþenkíngu, þá þarf oss ecki

ad undra það, því sá deyandi er syndari, hverjum dauðinn og þar á eptir komandi dómur má efalaust vera ógnarlegur, en Jésús var saklaus, óflekkaður og hreinn af allri synd, hafdi því einkis fordæmíngar dóms af réttlæti Guds ad qvída. Ecki ad sídur hverfur hans hreinu sál allur módur, ecki ad sídur titra øll hans lidamót, ecki ad sídur fossar útaf hans gjørvalla líkhama blódugur ángistar sveiti; ecki ad sídur finnur hann það, sem enginn daudlegur nockru sinni hefir jafn freklega fyrr fundid, þvílíka ángist, sem varpar honum til jardar, og færir hans líkhama nærstum því til grafarinnar; hverr fær skilid þennann leyndardóm? ad sønnu enginn daudlegur, en ecki ad sídur fær það ógrípanlega í pínu þessari leidt oss til ad skynja orsøkina til Jesú qvala, sannarlega, þessi er dómsins tími, sem koma átti yfir einn og sérhvern af mannlegu kyni; á þessu ángistar augnabliki, varpadi Drottinn øllum syndum vorum uppá hann, og lét hann einann sæta því straffi eptir strángasta dómi, sem allur heimur fullur syndara verdskuldad hafdi. Opnar láu nú fyrir hans alskygna auga allar

yfirtrodslur, sem drýgdár vóru og drýg-
ast mundu frá hinni fyrstu Adams
synd til þeirra, er af hinum sídustu
mønnum drýgjast munu. Á honum
lá sérhvers deyandi dauda ángist, þeirra
ótti fyrir daudanum, grøsinni og dóm-
inum, allar hinar óútmálanlegu qval-
ir, sem eins syndara uppvakin sam-
vitska fær fundid til, allt þetta lá á
honum, og nidurþrýckti honum til
jardar. Ó! hvílíka ángist hefir ecki
Jesús þolad í þessu ásigkomulagi. Sé
þad skélfilegt ad sjá uppá, þegar saka-
manninum er réttad fyrir drýgda
glæpi sína; sé sú qvøl óútmálanleg,
þegar þúngi vorra egin synda fellur
yfir oss, og Gud straffar oss í sinni
brædi, hversu óbærileg hlýtur þá ecki ad
hafa verid Jesú qvøl, þá gjørvalls
heimsins syndir láu á honum, eins og
bjarg, er ecki mátti yfirsjá? þarf þad
ad undra oss, þó Jesús titri hér í
sinni neyd? þó honum hverfi módur;
þó hann strídi vid daudann og falli
nidur í duptid fyri Dómarans reidi,
undir þvílíkri ógna byrdi? æ! mig
aumann! hversu hefdi mér farid í míns
Medalgángara stad á þessum ángistar-
tímum? þegar hinn allra Heilagasti

hlýtur ad hriggjast og huglaus verda undir Guds dómi, hvílíkann dauda, hvílíka örvýlnun, hvílíka helvítis ángist hefdi eg þá ecki mátt finna? ó! einúngis eitt augnatillit ens stygda Dómara hefdi mig sundurknosad! ecki nema eitt ord hans ströffunar-dóms hefdi þurft til ad varpa mér nidur til helvítis! ó! vertú oss blessadur, þú Lambid Guds, sem borid hefir þá stórkostlegu heimsins synda-byrdi! þú, sem einúng borid hefir vorar syndir! í þinni daudans ángist, í þínum skjálfta, í þínum blóduga sveita, blessum vér þig, þú, fyrir oss sundurknosada og pínda Guds lamb! en med ótta og skélfíngu þenkjum vér til þín, vér skodum óttafullir þá óútmálanlegu pínu, sem þú lidid hefir fyrir oss; svo stórar eru vorar misgjördir, svo spillt er vort hjarta. Hvílík vidurstygd eru vorar syndir fyrir Gudi, ad þú, eilífi Guds Son! varst svo aumkunarlega sleginn og píndur fyrir vorar yfirtrodslur! sáum vér enn þá fengid af oss ad trúa því, ad þad einúngis sé lítilsverd sök ad styggja hinn Almáttuga? Æ! oss þánkalausa syndara! hversu optsinnum vér ecki ad undanförnu brotid

Guds løgmál, án þess ad hugleida hversu óbærileg byrdi Guds reidi er, og hversu sérhver yfirtrodsla krefur hans skélfilega hegníngar dóms yfir oss? Nú viljum vér vakna af vorum synda svefni og leida til eptirþánka; ángist þín, ó Jesú! kénnir oss ad þeckja stærd vorra synda, hversu óbærileg sé reidi Guds og stráugur hans dómur. Vid sérhverja tilhneigíngu til syndar, vid sérhverja yfirtrodslu þíns løgmáls viljum vér renna þaunkum til þinnar pínu og skélfast, já! skélfast viljum vér, en ecki ørvýlnast; þegar vor uppvaknada samvitska, á freistíngar-tímanum, setur oss fyrir sjónir fjølda vorra drýgdu misgjørnínga; þegar vér strídum vid ángist og efasemdir; þegar engin huggan fær endurnært vort særda hjarta; þegar kaldur ángistar-sveiti flýtur yfir vorn gjørvalla líkhama, þá jafnvel viljum vér ecki módlausir verda; þín pína á fjállinu Oliveti skal sannfæra oss um þad, ad Gud vilji ecki í dóm vid oss gánga, og ecki hondla vid oss eptir vorum syndum. Jesús! vor Herra og vor Gud! lofadur vertú fyrir þessa huggun, sem þú med þinni sálar-pínu hefir oss afrekad! svo opt,

sem vér grátum vorar syndir, viljum vér prísa þig fyrir það, að vér ecki þurfum huggunarlausir að gráta. Svo opt, sem vorar misgjørðir skélfa oss, viljum vér prísa þig fyrir það, að vér finna megum rósemi vegna þinnar ángistar. Loksins, þegar oss að síðustu yfirfellur samvitskunnar angist, þegar vor sála í dauðans stríði berst við skélfíngu og qvíða fyrir þínum dómi; þegar vér að lokum standa egum fyrir þínum tróni til að heyra vorn dóm, þá viljum vér enn þá þacka þér, að þú með þinni dauðans ángist og með þeim dómi, sem yfir þig geck, hefir styrkt vora sálu og afrekað oss frelsi. Máské á þessu augnabliki sé á einum eður øðrum einmana stað einhverr deyandi, sem í mikilli sálar ángist leitar nú þíns andlitis; ó Jesú! miskuna þig yfir hans sálu, og láttu hana ecki fortapast! vegna þinnar pínu og þíns dauða vertú honum náðugur, og géf honum þinn frið, ó Jésú! Amen!

## 3. Føstu-Hugvekja.

Jesú bæn í grasgarðinum, Matth. 26.

Miðt í þeirri óútmálanlegu qvøl, sem Jesús útstóð í grasgarðinum,

skín þó klárlega í vorum augum Guð-dómur hans. Hversu, sem þúngi Guðs reiði, er á honum lá, niður-þrykti honum, styrkti hans sála sig þó með óbifanlegu trúnaðartrausti á sín-um himneska Föður; hversu bitur, sem hans pína var, leggur hann sig þó með viljugri hlýðni undir það, sem á-qvarðað var að yfir hann skyldi koma, og heldur alltaf stöðugum þeim sama fúsa vilja, að taka uppá sig pínu og dauða til mannkynsins endurlausnar. Hans sála, sem þrigg var til dauða, leitaði nú og fann í bæninni léttir á sinni qvöl; hann biður: að sínar þúngu píslir, sem trúlegt var hann mundi ecki útstaðið fá, mættu styttast; en svo hjartanlega, sem hann æskti sér nú endurnæríngar, afhendti hann sig þó undir síns Föðurs vilja, hvern hann sífeldt hafði sér fyrir augum, og sýnd-ist einúngis þess vegna lánga eptir lètt-ir nockrum, að hann ödlast mætti enn þá nýa krapta til að fá afborið píslirn-ar, sem hann átti fyrir höndum. Æ! nú sjáum vér hversu biturt þetta ógna stríð hefir orðið honum; alla sína æfi var hann fátækur, ásóktur af mörgum freistíngum, mörgum ofsóknum; allar

þessar-þjáníngar þoldi hann með stöd-uglyndi, án þess hann beiddi um, að þær af sér léttust eða styttust, en hér varð hans manndómlega náttúra of-veik til að útstanda áföllin af svo marg-slags píslum, því biður hann svo ákaf-lega og ítrekar bæn sína, að þessi ka-leikur mætti þó frá sér víkja, þessi út-hlutaða písl frá sér takast. Æ! hversu megum vér ecki blygðast við þetta hans dæmi, þegar einúngis ein lítilvæg þjáníng mætir oss, hversu óþolinmóðt og vantrúarfullt verður þá ecki vort hjarta? og ef að það þócknast Drottni, að leggja á oss þúnga hormúnga-byrði, hversu ólíkir mundum vér þá verða vorum Lausnara! og svo þá ment viljum vér leitast við að læra af þér, vor Lausnari! að líða rólegir og með-stöðuglyndi þjáníngarnar. Æ! með hversu styrkri og sonarlegri trú snýr þú þér ecki til þíns Föðurs! hann sýnist að hafa neitað þér öllum kjær-leika, þegar hann í sinni Dómara-reiði lagði á þig allra syndaranna straff, en þú leggur þig þó ljúfur und-ir hans vilja, með þeim viðqvæma kjærleika, sem uppfyllti þitt gjörvalla hjarta; einnig þá, ávarpar þú hann

med því sæta føður-nafni, þegar hann, sem Dómari, lét þig finna til þess, hversu strángur hann var. Komi nú yfir oss hver ángist, sem koma vill, vér viljum ecki örvýlnast, vér viljum ecki rángfæra gædsku þinna vega, ecki víkja frá vors Føðurs kjærleika, einnig þá, þegar þú höndlar við oss sem Dómari, og vér fáum að finna til þinnar þúngu typtandi handar, einnig þá, viljum vér segja: Abba, minn Faðir! og vér megum voga að segja svo, þared þú hefir afrekad oss rétt til að kalla Dómarann Føður; en þessi sonarlega trú vors biðjanda Medalgángara er sameinuð djúpustu auðmýkt og auðsveipnustu hlýðni; flatur liggjandi á knjám, á sínu andliti, í jarðarinnar dupti andvarpar hann harmþrúnginn til Guðs. En vér þá, sem erum dupt og aska, hversu fáum vér nógu djúpt lítillæckað oss fyrir vors Guðs hátign? hvernig fær vórt syndugа hjarta nægjanlega sundurknosað og auðmýkt sig, fyrst hann, sem er allra Drottinn, sá saklausasti allra manna, niðursøckur svo djúpt í niðurlægíngunni? æ! gétum vér sjeð vorn Jesúm andvarpa svo opt í hvílíkri auð-

mýkt, án þess að þenkja til vors dofna, kalda og drambsama hjarta? þrisvar snýr hann sér í kløgunar bæn til síns Foðurs; ecki hættir hann að biðja fyrr enn hans Faðir sýndi sig fúsann til bænheyrslu, og viljum vér þá ørvænta strax, þó vér verðum að hrópa til hans optar enn einusinni fyrr enn vér fáum bænheyrslu? nei, vér viljum vona á hann, vér viljum ecki víkja frá honum; hann mun þó lokssins endurnæra vort hjarta með sinni náð, sem vér svo lengi høfðum andvarpað eptir; þvíað þegar vér høfum með þolinmæði í neyðinni hrópað til hans um stund, mun vor Faðir lokssins heyra vora grátbeiðni; hann mun uppvekja oss vin, sem taki oss að sér, ellegar að minnsta kosti senda oss Engil á vorri dauðastundu, sem flytja mun sálu vora í himneska sælu; máské vér verðum svo luckusælir, eckért að finna til þeirrar samvitsku ángistar, þeirrar sorgar, þeirrar qvalar, sem niðurþrycktir á stundum jafnvel styrkvastann kristinn. En hverr veit nema tíminn sé nálægari enn vér hyggjum, sá skélfilegi tími, þá vér nockuð skulum smacka af þeim bitra kaleik, sem vor Jesús

hefir fyrir oss oldúngis í botn útdruck-
id, og kann þad ecki ad bera til á vorri
sóttar-sæng, ad vor lengi svæfda sam-
vitska vakni, og vorar drýgdu syndir
leggist á oss eins og bjarg? géta þá
ecki þúsund atvik adborid, í hverjum
vér huggunar, ráds og hjálpar-lausir
vanmegnast hljótum undir vorum
þjáníngum? þá munum vér fá ad
þeckja, hversu þarflegt þad sé í gódu
dögunum, ad búa sig undir ángistar-
innar tíma, og í luckunni ad leita þess
Herra, frá hverjum madur í óluckunni
óskar sér huggunar. Þá munum vér
vidurkénna, ad þad hjarta, sem snéri
sér til Guds, og féck fullvissu um hans
kjærleika, hefir besta endurnæríngu
undir þjáníngunum. Vér viljum þá
læra þá ment af vorum Endurlausn-
ara, ad vera hughraustir, þó jafnvel
adkomi þau óþægilegustu tilfelli; bæn-
in og sú rósama umgengni med Gudi,
skal vera vor daglega æfíng, og þó oss
verdi þá borinn einn þjáníngа kaleik-
ur, fyrir hvers beyskju vor náttúra
titrar, viljum vér taka á móti honum
af vors Födurs höndum, med rólegri
audsveipni, og ségja med vorum Frels-
ara: skyldi eg ecki drecka þann kaleik,

sem minn Faðir hefir mér gefið; já Faðir! eg vil drecka hann; ecki minn, heldur verði þinn vilji!

## 4. Föstu-Hugvekja.

Jesú aðferð við Lærisveinana í hans sálar-ángist.
Marc. 14. 37—42.

Á alla vegu er Jesús þjáður af ángist og pínu; hjartað skélfur í brjósti hans; Dómarinn reiður er uppyfir honum; í kríngum hann eru fáir veikir og huglausir vinir; serhvert af þessu mátti þegar svipt hafa hvern einn, jafnvel þann hugdjarfasta, öllum móð, en vor Meðalgángari sýndi sig hvervetna sem hetju; hjartans ángist og ótta sigraði hann með þolinmæði og óbifanlegu trúnaðar-trausti á sínum Föður. Á móti Dómarans stránga áfelli setti hann sakleysi sitt, sína viljugu hlýðni og innilegu bæn, en sínum veiku Lærisveinum sýnir hann umburðarlyndi og kjærleika. Látum oss þá í rósemi hugleiða þá síðustu røksemd, sem vér finnum í Grasgarðinum uppá hans viðqvæmu hjarta-gæðsku. Hvílíkann andans og hjartans mikilleik sýnir Jesús ecki miðt undir tilfinn-

íngu þinna bitrustu sálar-þjáninga? Undir þvílíkum harmqvæla þúnga hefdi þad ecki undur verid, þó ad hann einúngis þenkt hefdi til sjálfs síns, en látid um vini sína verda hvad vildi, en hann elskadi sína til enda; líka á þeim tíma, þegar allir hans þánkar vóru snúnir til Guds, þenkti hann til sinna Lærisveina, hann þenkti med svo vidqvæmri elsku til þeirra, ad vér megum falla yfir því í forundrun. Svo veika, sem þeir hofdu sýnt sig undir freistíngunum, svo hætti hann þó ecki kjærlega ad minna þá á skyldu sína, ad bera fyrir þeim umhyggju, og hafa þolinmædi yfir þeirra veikleika. Jesús hafdi nú útstadid þad fyrsta orduga stríd, ørþreyttur ordinn af svo margslags qvol géck hann til sinna Lærisveina, sem hann svo ástúdlega bedid hafdi ad vaka hjá sér, og bidja med sér, en hann fann þá sofandi. Í annad sinn var hann genginn nockur fótmál burt frá þeim, til þess á ný ad gánga útí strídid. Hann skélfur, hann strídir vid daudann, hann hrópar til síns Fødurs med sárustu qvørtun og brennandi tárum. Hálfdaudur snýr hann til baka til vina sinna, og sjá! þeir sofa,

þeir vóru svo syfjáðir, að þeir vissu ecki hverju þeir svoruðu honum. Í þriðja sinni gengur Jesús fram á stríðsplátzið til að drecka það eptir var þess bitra qvalanna kaleiks; og þá hann aptur fann sína Lærisveina í djúpum svefni, vekur hann þá og segir: ó! viljið þér nú sofa og hvílast? gat nú Jesús með meiru umburðarlyndi, með meiri ástúð farið með sína Lærisveina? þeirra ítrekuðu yfirsjónir þreyttu hann ecki, þeirra ýfrið stóra leti gjörði hann ecki reiðann. Í staðinn þess að tilkynna þeim þeirra at gjætslu- og umhyggju-leysi með þeim vitrustu bríxl-yrðum, gefur hann þeim þær ástúðlegustu aðvaranir, og sýnir við þá undrunar-verða þolinmæði. Hvað ólíkir erum vér þér, vor Lausnari! hér í? tíðum höfum vér þess varir orðið, að þjáninganna þúngi vakti oss til óþolinmæði, og hvað bráðlega gleymdum vér ecki í þreyngíngunum góðsemi og kjærleiks-skyldum við vora meðbræður? því lengur, sem vorar þjáníngar viðvara, því møglunarsamari og styrdgéðjaðri pløgum vér að verða, því strángar dæmum vér vina vorra minnstu yfirsjónir, því óánægðari

verdum vér med allt þad í kríngum oss er; ad minnsta kosti meinum vér ad ega sjálfskilid af þeim umburdarlyndi, þó vér í eymdum staddir hugsum ecki um adra enn sjálfa oss. Og skyldum vér þó ecki miklu framar syna þessar kjærleikans skyldur brædrum vorum, þá þú, vor Lausnari! ber svo mikla þolinmædi med oss í øllum vorum breiskleika, og ecki burtkastar oss frá þínu augliti, þó oss hvad eptir annad yfirsjáist? æ! hvad opt blandar sér ecki leti og hálfvelgja í vora Gudsdyrkun? hversu tídum erum vér ecki tilfinníngarlausir og kald-gédja vid íhugun þinnar vínu? hversu opt syfjar oss ecki, þegar holdid freistar vor? og hvad vildi þá af oss verda, ef ad þú yfirgjæfir oss í eymdunum? æ! vér vidurkénnum þad, vor Frelsari! þad er þín nád, sem enn þá vidheldur oss, sem endurnærir og svo krøptuglega styrkir oss, sem med styrkri hønd kippti oss svo opt til baka frá fordjørfunarinnar afgrunni, í hvert vér, í vorum synda-svefni, nær því vórum fallnir. Æ! hættú ecki, vor blessadi Frelsari! ad vaka yfir oss veikum, ad líta med miskunsømu lángLundar-gédi til vor aumra, og upp-

vekja oss af vorum dofinleika svefni! Aldrei, aldrei nockurntíma rádi vort egid hjarta svo fyrir oss, ad vér gésum voru holdi tauminn. Sífeldt erum vér í mestu hættu staddir ad forgánga undir freistíngunum, ef þú snýr þínu auga og þinni miskun frá oss. Vér felum oss á hendur þinni styrkjandi nád á freistínganna tíma. Hversu audveldlega kunnum vér í umgengni med heiminum freistadir ad verda til synda, en vér vitum þó ecki hverjar freistíngar oss á sérhverjum degi búnar eru. Í ѳruggu trúnadar-trausti til þín, vor Gud og Frelsari! viljum vér útgánga í heiminn, og aldrei sleppa þér frá augum vorum, hvad sem adkémur. Og ef vér sjáum nockra af brædrum vorum og vinum ega ad strída vid þúngar freistíngar, þá viljum vér, þad framast oss er mѳgulegt, leitast vid ad létta undir þetta stríd; en séum vér ecki þess megnugir, viljum vér þó bidja fyrir þeim, hughreysta og hugga þá. Styrktú oss þar til, vor Frelsari! med þinni almegnandi nád!

5. Hug-

# 5. Føstu-Hugvekja.

Svikarans Júdasar koma í Grasgardinn, Matth. 26

Varla var sá blódugi sveiti þornadur af Jesú andliti; varla hafdi hann fundid minnstu svíun qvala þeirra, sem á honum láu, fyrr enn nýtt afall neyddi hann til ad sýna nýjann hetju-mód. A medan hann enn þá var ad hughreysta sína veiku vini, adkom þad augnablik, á hverju sjálfur hann þurfti vid nýrrar hugstyrkíngar. Þad sárasta, sem Jesú svo mæddum gat nú mætt, var þad, ad sjá Júdas sinn eginn lærisvein koma, sem oddvita í óvina flocki, til ad forráda hann, sinn Herra og Meistara, í þeirra blódþyrstu Gydínga hendur. Hvílíkir sorgarþánkar er ecki náttúrlegt ad í Jesú sálu nú vaknad hafi, þegar hann sá sinn vin og Lærisvein gjørast sinn svikara? hvørsu munu ecki fjør-rád þessi af sínum eginn Lærisveini hafa svidid hjarta hans, þessu vidqvæma, mannelskandi hjarta, hvørju svo nærri géck sérhver vina sinna, jafnvel minnsta yfirsjón? med hversu medlídandi auga mun nú ecki Jesús

hafa litid til Júdasar! Ó! gatstú þá, Júdas! sjed daudans ángistina afmálada á Jesú ná-bleika andliti, sem enn þá var sveitt þeim blóduga sveita, án þess ad skélfast? féckstú lítid augum til þíns saklausa Meistara, án þess ad láta þig binda í hans stad? gatstú sjed hans andlits útlit, í hverju stód afmálad hans guddómlega sakleysi og rólegasta hugprýdi, án þess ad verda var hjá þér pínandi samvitsku-nøgunar? gatstú þanninn nálægst þinn Herra, án þess ad falla vid sérhvert fótmálid til jardar? gatstú — ó! þú gatst drýgt allt, eptir ad þú eitt sinn hafdir afhendt herradœmid yfir sálu þinni þeim skammarlegustu lastanna tilhnegíngum. Samvitska þín var sofnud, hjarta þitt forherdt og øll rádvendnis tilfinníng af ásettu undirþryckt. Med mesta vidbjód vyrdum vér fyrir oss þennann svikara; svona hefdum vér aldrei breytt, hugsum vér; aldrei hefdum vér svo skammarlega høndlad vid vorn Velgjørara, vorn Frœdara og vorn vin; aldrei skyldum vér hafa svikid Jesúm; en — þeckjum vér þá líka rétt vórt egid hjarta? þorum vér ad trúa voru egin vitni og tilfinníngu um rádvendni

vora? Þó vér ecki hefdum drýgt þvílíkann glæp, kunnum vér samt ad gjøra oss hluttakandi í vidlíku vondsku verki, svo minna á beri. Er ecki voru hjarta þannig varid, ad þad elskar tídum skíngædi í stad þess sanna góda, og hversu skammt egum vér þá til ad drýgja Júdasar synd? Trúa viljum vér ad sønnu samvitsku vitnisburdi vorum til þess, ad vér hefdum traudlega framid slíkann glæp, sem Júdas framdi; en vér gétum uppá margann máta ordid Júdasar líkar. Mjøg tídum látum vér oss locka til þess, ad verda ótrúir vorum Lausnara, og hvad skédur, þegar vér fyrir gódra daga, edur heimsins vináttu sakir, fleckum oss med viljandi syndum, nidurþøggum samvitskunnar advaranir, og afneitum rádvendni? for-rádum vér ecki Jesúm, þegar vér syndgum undir gudhrædslu skíni? for-rádum vér ecki Jesúm þegar vér leitumst vid ad skada vini hans, undir vinsemdar og kjærleiks-verka útliti? forrádum vér ecki Jesúm, þegar vér øktum hans lærdóma og pínu lítils, edur fylgjum spotturum þeim, er vanvyrda hans kénníngu? for-rádum vér ecki Jesúm, þegar vér leidum adra til

ad verda ótrúa og meinsæra við Gud og hann. Framar viljum vér nú ecki áklaga Júdas, neï! sjálfa oss viljum vér áklaga. O! vér berum einnig svik-ult for-rádandi hjarta í voru brjósti. Ecki nema nockur fá fótmál høfum vér ófarin fram á lastanna vegi, til ad fá nád Jesú svikara gudleysi. Látum því Júdasar dæmi þéna oss til vid-vørunar, og umflýum med varhygd sérhvert tækifæri, sem vyrdist hættu-legt vorum sálum. Aldrei skal elska til ens jardneska festa svo djúpar rætur í sálum vorum, ad vér þess vegna gleymum vorri trú, samvitsku og sálu-hjálp. En — vernda þú oss sjálfur best, vorrar trúar uppbyrjari og full-komnari! frá því ad yfirgefa þig nock-urn tíma, en adhyllast þína kross-óvini! Fyrirgef oss bad, ef vér høfum híng-ad til gleymt þér, og misbrúkad þína nád! þú hefir einnig forlíkad fyrir vort óstøduga og ótrúa hjarta; vertú oss þess vegna nádugur, og burtkasta oss ecki frá þínu augliti!

## 6. Føstu-Hugvekja.

Jesús sýnir almætti sitt, Joh. 18.

Híngad til høfum vér Jesúm fyrir

augum haft í sínum mesta vanmætti, undirþrycktann af øllum þeim píslum, er hann þola hlaut, sem mannkynsins borgunar-madur. En — nú fáum vér sjed nockurn geisla hans guddómlegu hátignar, vér sjáum hann, sem hinn sterka Gud, er ecki þarf ad tala nema eitt ord, þegar hans óvinir skulu til grunna gánga; stór flockur hans óvina kémur med grimdarfullum stríds útbúníngi í Aldingardinn, hvar Jesus var, til ad leita hans. Jesús gengur fram og ad spyr þá: ad hverjum leitid þér? og þá þeir svara: ad Jesú af Nazareth, svarar hann þeim med hugprúdum djarfleika: eg er þad; en vid þettad ord horfar þessi óbljúgi, þessi alvopnadi skari til baka og fellur til jardar. Hér fáum vér ad þeckja þig á ný, vor Lausnari! í þinni guddómlegu hátign. Skømmu ádur, þegar þú á fjallinu Olíveti varst til jardad nidurþrycktur undir Guds reidi byrdi, þegar þú skalfst þar og titradir, þá spurdum vér sjálfa oss í huganum: er þessi sá sterki Gud? er þad sá Herra, sem géfur øllum sképnum anda, líf og styrkleika? er þad hann, vid hvers reidi tillit allar skapadar sképn-

ur mega forgánga, og sérhverr syndari huglaus verda? já, þú ert það! þetta kraptaverk sýnir almætti það, sem í þér bjó. Hvílíkann sigur vannstú nú ecki á þínum fjandmönnum! þeir nálægjast þig og þinn litla verjulausa hóp, stólandi með oflæti uppá sína makt, uppá sinn lidsfjølda, uppá sín vopn; vissir um sigurinn gledjast þeir þegar í vondsku sinni yfir því, ad hafa með svikum yfirfallid þig, og dreifst víds vegar vinum þínum. En — hversu gjørdir þú ecki þeirra áform til skammar! eitt ord af þínum munni fellir þá, og þar liggja þessir stoltu sjálfbyrgíngar, eins og þeir væru af reidarslagi til jardar varpadir, en máttu þó vænta sér lífs á ný af þinni nád. Já, það var vors Jesú nád, að þeir, vid hans ord urdu einúngis skélfdir, en ecki skadadir, ad eins felldir til jardar, en ecki eydilagdir. Hann sýndi þeim hvad hann gæti gjørt, ef hann vildi brúka makt sína og almætti, en þeir blygdudust hverki vid hans makt, né hrærdust vid hans gædskú; ódar enn þeim var géfid megn til ad standa á fætur aptur, héldu þeir áfram sínu svika-fulla fyrirtæki. Svikar-

inn, sem ecki lét sér aptra við það, sem hann sjálfur væntanlega mátti var verða við, ásamt hinum, er hluttakarar vóru með honum í sama vondsku verki, nálægði sig Jesú til að kyssa hann, og géfa þar með fylgjurum sínum til kynna, að nú væri tími til að grípa hann, og í því sama þustu þeir að, og lögðu hendur á Jesúm. Þessir Jesú óvinir, eru lifandi afmálan allra Jesú og hans náðar foraktara; hvað opt leggur ecki Guð óvini sína í sóttar-sængina, eða niðurvarpar þeim og lægir móð þeirra við önnur tilfelli? hversu tíðt leiðir hann þá ecki rétt fram á grafar-backann, til að fá þá vakta af sínum svefnværðum við Dómsins og Eilífðarinnar skélfíngar? en hversu sjaldan ávinnur hann það, sem hann ætlar til? varla eru þeir komnir til heilsunnar, varla hafa þeir stigið heilum fæti á jörð aptur, fyrr enn þeir halda áfram í sinni fyrri vondsku. Þjófurinn brúkar þá krapta, sem honum á ný vóru géfnir, til svika og prettvísi; hinn lausláti heldur áfram í hans villudýrs gyrndum; morðinginn og mannhatarinn endurnýa þeirra fjandskapar áreitni; sá andvara-

lausi útteys sínum gømlu cidum og blóti á móti Gudi og monnum; en hvílíka orsök hafid þér ecki, sem þanvig farid ad rádi ydar, til ad skélfast yfir sjálfum ydur, ef þér haldid áfram ad gánga eptir ydar óumvendta hjarta? hvilík qvol og ángist mun þá ecki sitt sinn yfirfalla ydur, þegar Drottinn kémur med miklum krapti og dýrd? ef hans óvinir máttu líða nidur vid þad, ad einúngis eitt ord útgéck af hans munni, þá í hans djúpustu nidurlægíngu, hvad meinid þér þá af ydur verda muni, þegar hann birtist, sem Dómari? ó! hversu ógnarlegt mun ydar fall verda, þá hans óttalega rodd talar til ydar: eg er sá, sem þér ílla hafi medhondlad og mysþyrmt mínum trúudu; eg er sá, sem þér hafid krossfest med ydar syndum; farid frá mér allir þér, sem ílla hafid breytt! en fyrir oss, sem trúum á Jesúm, er nærsta gledilegt ad hugleida hans adferd vid sína Lærisveina, og hans umhyggju fyrir þeirra velferd. Þeir vóru nú í mestu lífshættu staddir; því ecki var annars von, enn óvinir þeirra mundu ætla sér ad taka þá einnig til fánga, svo þeir í einu fengju

útrudt bædi hofundi þess lærdóms, sem þeir svo mjög hötudu, og öllum hinum, er til hans höfðu hnígið. En — Jesús tók sína hjálparlausu vini í sína vernd, hann sá, ad þessir sér áfstfólgnu, væru ecki hugadir nóg ad gánga í daudann med sér; hann vissi hvad á því reid, ad þeir lifðu þegar hann væri á burt, af því þeir vera skyldu vitni hans upprisu; þess vegna frelsadi hann þá úr þeim lífsháska, sem þeim var búinn, en sjálfur frambýdur hann, hugprúdur og med hetjumóð, hendur sínar til ad bindast, líkhama sinn til þeirra grimmilegu medferdar og líf sitt í daudann. O! hversu mikill, hversu óumrædilegur kjærleiki! hversu finnum vér hjarta voru léttir, þegar vér hugleidum þetta, og tileinkum oss þær hugganir, sem vér í sérhverju lífsins tilfelli megum draga hér af? nú kunnum vér vera óqvídnir, hversu margir óvinir, sem setja sig med allri sinni makt á móti oss; þó oss séu búnar óttalegustu háskasemdir, í hverjum vér mættum forgánga, því Drottinn er vor styrkur og vor hjálp í sérhverri neyd, sem oss mæta kann. Vér hofum á umlidinni æfi vorri

reynt það tíðum, hversu máttugur vor Frelsari er til að hjálpa, jafnvel þá, þegar oss sýndist øll hjálpræðis von þrotin, ætíð viljum vér því á hann vona; alla tíma mun hann vel við oss gjøra; en kannské einhverjar aðrar sorgir megi olla oss órósemi, máské vér gvíðum barna vorra ófør- um; máské vinir vorir séu í eymdum staddir; máské Jesú kirkju þreyngíng- ar og árásir olli oss ángursamra þánka; ecki viljum vér við neitt því- líkt láta vorn hugmóð hverfa; vórra vandamanna sakleysi og luckukjør mun Drottinn taka í sína varatekt; sitt orð, sína limi og sína gjørvalla kirkju munhann varðveita á móti øllu óvina yfirfalli. Ef hann var máttugur til í sinni niðurlægíngu að láta sína Lærisveina vera óhrærða af fjand- manna hendi, hversu miklu framar mun hann nú, upphafinn í hæðirn- ar, fá gjørt óvina ráð til skammar. Guðs staður mun støðugur standa með borgurum sínum, því Drottinn er innan múranna, og því mun hann standa. Herrans óvinir hljóta að verða huglausir, og allir sterkir mega falla þá hann lætur sig heyra.

Drottinn Zebaoth er med oss, Hallelúja!

## 7. Føstu-Hugvekja.

Jesú fríviljuglega afhendíng í óvina hendur Jóh. 18.

Einhverr hinn huggunar-ríkasti og mikilvægasti sannleiki, sem Jesú Krists Píslar-saga kénnir oss, er sá: ad vér megum vera þess fulltrúa, ad Jesús fríviljuglega geck út í sína pínu. Hefdi hans pína ad eins uppákomid af náttúrlegum orsøkum, máttum vid sífeldt vera í efa um þad, hvert vor friðþægíng vid Gud, hefdi med hans pínu ordid afrekud; en gjørvøll Jesú Píslar-saga gefur oss óræk røk fyrir því, ad allt hvad hann leid, hafi hann lidid fríviljugur, og eptir fyrirfram áqvørdudu rádi; til ad sannfærast um þennann fríann og fúsann vilja hans, þarf einúngis ad skoda, hversu fúslega hann flýtir sér til daudans; hann gat varnad því ad óvinir hans, sem vid hans eina ord féllu til jardar, á ný uppstædu, og legdu hendur á hann; hann gat útbúid þennann litla hóp vina sinna med guddómlegum krapti og látid þá eydileggja óvini sína. Ecki nema eitt ord hefdi þad kostad hann,

ad láta Engla fylkíngar framkoma, sem med ósýnilegri makt haldid hefdu hans óvinum til baka; hverju audveldlega gat ecki Náttúrunnar Herra brúkad allar hofudskepnurnar til sinna hefndar verkfæra? en — hvad þurfti hann annara hjálpar vid? hans egid í honum búanda almætti, med hverju hann sigradi fjøldá óhreinna anda, med hverju hann leiddi þá daudu til lífsins, med hverju hann svo opt gjørdi ad engu sinna mótstandara flærdarhrecki og rádslaganir, þetta sitt guddómlega almætti gat hann einnig nú brúkad til ad gjøra sinna mordíngja vondsku til skammar. Ad hans bodi hefdi jørdin opnad sig, og uppsvelgt þennann vondskufulla samsvarna flock; ad hans bodi hefdi eldur af himnum fallid, og fortært þeim; já, hans einsamalt augna tillit hefdi gétad gjørt þessa vogunar-djorfu ad engu; en hann brúkar nú ecki þessi medøl til frelsis sér, þad fór svo fjærri, ad þegar lærisveinarnir vildu taka til varnar med vopnum, þegar Pétur jafnvel sært hafdi einn í óvina flockinum, þá bannadi hann honum þessa vorn, og læknadi hann særda þénara. Øll

adferd hans, þegar hann var til fánga tekinn, sýnir fúsann vilja hans, til ad offra sér sjálfum til frelsis heiminum. Skal eg ecki drecka þann kaleik, seigir hann, sem Fadir minn hefir gefid mér? og hversu bitur og fullt mældur var ecki kaleikur sá, er fadirinn hafdi honum útmældann, enn þó var hann viljugur til ad drecka hann? já, hans ómælanlegi kjærleiki til þeirra ólucklegu Adams nidja, var svo sterkur, ad hann beiddi um þenna bitra kaleik; hann vildi ecki láta þyrma sér, hann vildi ecki hafa gledi, heldur lída, hann vildi verda daudans fórn fyrir mannkynid; hvílík hugprýdi! hvílík elska! Gudi sé lof! nú þurfum vér ecki ad skélfast fyrir Dómarans reidi vegna vorra synda; nei! fríviljuglega hefir Jesús tekid á sig þad straff, sem vér áttum ad lída; viljugur hefir hann, eptir Guds alvísa rádi, bætt fyrir vorar syndir. Med fríum og fúsum vilja géck hann á móti dauda sínum, og undirgéckst þad allt, sem útkrafdist til mannkynsins endurlausnar. Þótt vér hefdum engin onnur rok fyrir vorri réttlætíngu, mættu þó þessar roksemdir fá oss styrkt í trúnni á

þann krossfesta: vér erum sáttir við Guð, því vor Jesús leið viljugur í vorn stað; með fúsum vilja tók Jesús uppá sig þær bitru þjáníngar. En — því erum vér ekki eins sinnaðir og Jesús, þegar smávegis mótlætíngar hitta oss? því tökum vér ekki uppá oss eins fríviljugir Jesú kross? því berum vér ekki eins staðuglyndir þjáníngarnar? hvað vantar ekki á það, þegar vér, möglandi og nauðugir, tökum á móti þeim mótlætíngum, sem vér fáum ekki hjá komist? Jafnvel lítilsverð ógeðfeld tilfelli fylla vort hjarta ángist og óánægju. Ef vér líktumst Jesú, mundum vér þegða oss aðdrusvísi; undir byrði hinna þýngstu mótlætínga, sem oss legðust á herðar, mundum vér seigja: skal eg ekki drecka þann kaleik, sem Faðir minn hefir gefið mér? Þegar Guð straffar oss hardt, mundum vér þá ekki íhuga það, að Guðs föðurhönd leggur þá hýrtíngu á oss, sem þó, hversu þúng er hún vera kynni, er eins og ekkért að reikna á móti því, sem Jesús leið? Hver ein þjáníng, sem oss er útmæld, er í raun réttri ekki þúngbær, því hún varir ekki leingi, og má ekki kallast verð þeirrar

dýrdar, sem vid oss skal opinberast. O Jesú! gef oss svo fúsann vilja, sem þú hafdir, til ad leggja oss undir hverskyns eymdir, sem ad koma kunna, og styrk þú oss til ad bera þær; þad hlýtur ad gánga oss, eins og þinn vilji hefir ákvardad. Vér eigum kannské fyrir höndum enn þá, og megum vænta þess svo leingi vér lifum hér, ad reynast í mótlætínganna skóla. Mætti oss eitthvad mótdrægt á vorri pílagríms ferd, viljum vér med trúudu og audmjúku hjarta seigja: veri þad svo, vér viljum lída þad! Drottins hægri hönd kann öllu um ad breyta. Loksins meigum vér þess fulltrúa vænta, ad vér munum, eins og Jesús, frelsast frá öllu vondu, og inngánga í þad hvíldar og eilífrar rósemdar ríki, hvar Gud mun oss endurnæra, eptir allar útstadnar mótlætíngar þessa lífs.

## 8 Föstu-Hugvekja.

Jesús yfirgéfinn af Lærisveinunum, Marc. 14.

Hvad heyrum vér! Lærisveinarnir yfirgéfa sinn Meistara og flýa nú frá honum! þeir, sem fyrir stuttu sídan höfdu svarid, ad þeir væru reidu-

Súnir ad gánga í daudann med honum; hver var orsök þess, ad Lærisveinarnir svo allt í einu gleymdu sínum dýru heityrdum? hversu feingu þeir svo brádlega sinnaskipti, og létu hugdyrfd fyrir hugleysi, styrkleika fyrir veikleika, kjærleika fyrir kaldsinni? Líklegt mátti þad þykja, ad þessir einustu vinir, sem Jesús átti á jördunni, mundu gæta í því skyldu sinnar og þacklætis vid hann, ad létta hvad þeir gátu undir hans margföldu þjáníngar, ad minnsta kosti verid nálægir sjónarvottar ad píslum hans, því eckért meira krafdi Jesús af þeim; þeir áttu ecki ad lída sjálfir, heldur einúngis fyrir hans krossins dauda, gjörast hæfilegir til ad verda hans kross predikarar. Ef ad vér hefdum verid í þeirra stad, hvad mundum vér ecki hafa gjört fyrir vorn Meistara? vér vildum hafa þurkad hvert tárid af kinnum hans, og huggad hans sorgmædda hjarta; nei! aldrei skyldum vér hafa forlátid hann; vér skyldum hafa fylgt honum frá Grasgardinum til þínghúsins, frá þínghúsinu til Golgatha, já! keppst eptir þeirri æru, ad bera hans kross eptir honum í Símons

ſtad, og máſké, ad vér hefdum geng-
id í daudann med honum. Þannig
þenkjum vér nú, þá vér álengdar ſkod-
um í huga vorum Jeſú pínu, en —
mundum vér hafa verid hugdjarfari
enn Jeſú Læriſveinar, hefdum vér ſjed
uppá pínu hans, eins nálægir og þeir
vóru; mundum vér hafa verid hugadri
enn þeir vóru, þá allt þad þeir ſáu
afmáladi þeim opinn daudann fyrir
augunum. Vér ímindum oſs tídum
daudann, ſem yfrid léttann þegar vér
erum heilbrygdir, og meinum oſs enn
þá ega lángt til grafarinnar. En
munum vér verda vid ſama hugar-
far, þegar vér erum ad henni komnir,
edur hættulegur ſjúkdónur géfur oſs
ad ſkilja, ad vér egum ſkammt ad henni
ófarid? Þannig ſjáum vér, ad Jeſú
Læriſveinar møttu þad fyrirfram lítils-
verdt, og ſig fullſtyrkva til ad gánga
í daudann med honum; þeir ígrundudu
hverki, þegar þeir fám tímum ádur
hétu honum því, hverſu bitrar hans
qvalir verda mundu, né hvad veikir
þeir ſjálfir vóru, til ad ſtandaſt þær
píſlir ſem honum vóru búnar. Þad
ofdirfſku trauſt, er þeir høfdu á eginn
kroptum ſínum, blindadi ſvo þeirra

hjörtu, ad þeir gjættu ecki síns vanmáttar, síns hugleysis né andvaraleysis; og þetta er sama ástandid, í hverju vér erum staddir. Nú erum vér nógu djarfir til ad heita øllu, en hversu lítid verdur ecki úr oss til ad halda þad, þegar á skal reyna? O! allt of margir af vorum med-kristnum hafa sannarlega sama ásetníng, sem vér meinum oss nú ad hafa; stólandi uppá sína eginn krapta, voga þeir sér útí þann freistíngafulla heim. Þeir hugleida ecki hversu audveldlega tillockanir og afvegaleidslur fá munu enn þá sigur unnid yfir þeirra hjörtum, en þegar þeir eru fallnir fá þeir þad fyrst þeckt, hversu veikir, fordjarfadir og laus-gédja þeir eru. O! vor Frelsari! vér vidurkénnum þad, ad vort hjarta er bædi dárlegt og duglaust. Audveldlega fær þad skéd, ad vér yfirgésum þig og gleymum þeirri trygd sem vér høfum svarid þér; hvad mundi af oss verda, ef þú krefdir af oss ad taka hlutdeild í þinni pínu? mundum ver þá verda nógu viljugir og sterkir til ad fylgja þér á eptir, þegar gylda ætti ad bera á eptir þér krossins þúngu byrdi? hvad mundi ské, ef þín-

ir kross óvinir hæddu þig ad oss nærveranda í gledi=samqvæmum? mundum vér þá hafa nóga hugdirfd til ad vidurkénna þig opinberlega, og verda þér stadfastlega trúir? hvad mundi ské ef ad ríkdómur, metord og lystisemdir á eina sídu lockudu oss, en fátækt og vanvyrda og píslir á hina sídunu ógnudu oss? ættum vér nu til hinnar lucku ad vinna ef vér yfirgæfum Jesúm, én hljóta þessa ólucku, ef vér værum honum trúir? hvad mundum vér gjøra, værum vér þannig staddir? mundum vér verda eins edalhenkjandi og Móses, ad vitni Páls Postula, ad halda Krists vanvyrdu fyrir stærri ríkdóm enn heimsins audæfi? hvad mundi ské, ef ver mæta ættum lángvarandi harmqvælum, mundum vér þá aldrei efast um Guds vernd, edur leita annarstadar huggunar enn hjá honum? æ! hversu mikla orsok hofum vér ecki til ad hrædast vort egid hjarta! þad gétur ské med óteljanlegu móti, ad vér verdum Jesú eins ótrúir og hans lærisveinar, og ef vér røtum í þá ólucku, ad verda óstødugir í Jesú kjærleika, þá erum vér staddir í stærstu hættu; því ef vér eitt sinn høfum gleymt honum,

þá má þad audveldlega ad bera, ad vér þá, þó vér forrádum hann ecki af ásettu rádi, þó samt af hugleysi og hálfvelgju, afneitum honum og ad minnsta kosti gleymum honum vegna lausl yndis. Hvar viljum vér þá finna frelsi vorum sálum, endurnæríngu undir þjáníngunum, rósemi fyrir samvitskunnar nøgun, djørfúng í bæninni, huggun í daudanum og frí un í dóminum? Dýrmæti Lausnari! vernda þú oss med þinni nád frá þessari miklu ólucku! vidhald þú oss í elskunni til þín, og lát oss aldrei af ásetníngi missa hana, hverki í hinum vondu né gódu døgum! Vilji vort óstøduga hjarta snúast frá þér, þá vyrdstu, almáttugi Jesú! ad halda oss vid þig stødugum og styrkja oss med þínum volduga armlegg! Láttú hverki lucku né vanlucku, hverki manna-ótta né mannagunst, hverki drambsemi né dugleysi, hverki dauda né líf, nockurn tíma skilja oss vid þig! Skyldi vort hjarta verda máttfarid, og vort hold vanmegnast í strídinu, æ! svo styrktu oss og upplífgadu med voninni um þá kórónu, sem þú hefir heitid þínum trúu eptirfylgéndum! Herra Jesú! vér lofum

því, ad yfirgéfa þig aldrei! vér endurnýum þann eid, sem vér unnum í vorri skírn, og lofum þér. því, vegna þess óútmálanlega kjærleika, sem þú hefir audsýnt oss, vegna þinna bitru qvala, vegna þíns dauda á krossinum, af einlægu hjarta lofum vér því, ad vera þér óbrygdanlega trúir hédan af til æfiloka.

# 9. Föstu-Hugvekja.

Guds áqvardada ráđ um Jesú dauda, Jóh. 18.

Amedal þeirra, sem vid Jesú fordæmíngu breyttu eptir spilltum heimsins vísdómi, var Kaíphas einn hinn helsti. Ecki gætti hann, sem Dómari, þess, hvad lögum og réttvísi væri samqvæmt, heldur hins einúngis, eins og annar slúnginn bragda-refur, er horfa mundi til eginn hagsmuna. Hann hafdi fest sér þad þánkamid: ad betur færi ad einn saklaus dæi, heldur enn ad heil þjód skyldi til grunna gánga, fyrir eins manns sakir. Eptir þessari þánka reglu, meinti hann þad gagnlegra fyrir landid ad Jesús dæi. Svo ógudlegur, sem þessi þánki var, svo brúkadi Gud hann þó til framqvæmdar sínu, frá eilífd áqvardada rádi, um Jesú

dauda, og þetta vísdómsfulla og heilaga ráð Guðs, viljum vér nú í rósemi hugleiða, oss til nytsemdar. Við Jesú pínu hafði eingin blind hendíng stað, það skéði ecki af neinu óforvarandis tilfelli, að hann mátti þola þá eður þá vanvyrðu, þá eða þá písl. Allt skéði hér, rétt eins og það eptir Guðs ráði var ályktað, og öll atvik sameinuðu sig til að opinbera Meðalgángarann á millum Guðs og manna, í Jesú píndu persónu. Strax, þegar hann afhendti sig í hendur óvina sinna, og hans Lærisveinar vildu með makt hafa forsvarað hann, gaf hann þeim að skilja: að þetta væri Guðs áqvarðaða ráð; hvernig skyldu — sagði hann — Ritníngarnar annars uppfyllast? svona hlytur að ské! Það sama er að segja um Jesú dauða; það mátti þannig ské, að Messías með þessum hætti en engum öðrum skyldi dauðann líða; og svo lítilsverðt, sem það sýnist: á hverjum stað, á hverri tíð, af hverjum orsökum einhver önnur manneskja deyr, svo mikilvæga má þó álíta alla þessa atburði við Jesú dauða. Eptir Guðs ráði var tíðin áqvörðuð nær Frelsarinn skyldi deya; hann mátti ecki deya fyrr enn sá

tími kom, á hverjum hánn deydi, af því þad var naudsynlegt ad hann syndi sig ádur, sem Messías, og fullkomnadi allt þad, sem honum var fyrisett. Þegar í barnæsku mátti hann verda lífi sviptur af fjörráðum Heródesar; en hefdi þad skéd, þá hefdi hann ecki feingid gjört heiminn farsælann med sínum lærdómi, sínu dæmi og kenníngum; ecki uppfyllt fyrisagnir Spámannanna; ecki lidid svo qvalafullann dauda, sem fortakslaust krafdist af heimsins Endurlausnara.—Sömuleidis opinberadi vísdómur Guds sig í því, ad Jesú daudi bar ad rétt undir Páskana. Fregnin um pínu hans og dauda, gat á engum tíma fljótar og almennilegar útbreidst, enn á þeirri tíd, þá er mörg þúsund Gydínga voru samankomnir til Jerúsalem frá mörgum fjarlægum landsálfum. Eda, var þad ecki samhljóda vísdómi Guds, ad sá, sem med Páskalambinu var fyrirmindadur, skyldi á sömu tíd og þessi offur-dyr framfærd vóru fyrir Gud, fullkomna sitt offur? eptir Guds rádi var stadurinn áqvardadur, hvar hann deya skyldi, ecki mátti þad ské, ad Messías væri líflátinn í svo litlum og audvyrdilegum stad, sem hans fæding-

ar ſtadur var, heldur átti ſá ad vera ſtadurinn, hvar hann endadi líf ſitt, þar, ſem hann ſvo optlega ádur kénnt hafdi, þar, ſem hann gjørt hafdi ſvo mørg kraptaverk; ſá ſtadur, hvar allar fórnir og opinber gudsþjónuſta átti ad framfara; ſá ſtadur, ſem í ſambandi ſtód, vid ſvo mørg ønnur lønd, ſá ſkyldi vera ſtadurinn, hvar vor Medalgángari lidi ſínar bitru píſlir; en hvørs vegna ſkyldi hann enda ſitt líf utan borgar á fjallinu Golgatha? Páll leysir úr þeſsari ſpurníngu: hverra dýra blód—ſegir hann—ſem innborid verdur af enum ædſta Kénnimanni, í hid heilaga fyrir ſyndirnar, þeirra ſømu hræ ſkyldu uppbrennaſt utan herbúdanna; fyrir því hefur einnig Jeſús, ſvo hann helgadi fólkid fyrir ſitt egid blód, utan borgarhlida látid ſitt líf. Eptir Guds rádſtofun var þad ályktad, hverjum dauda Jeſús ſkyldi deya; þad var kroſsins daudi, ſem vor Frelſari hlaut ad lída; þeſsi dauddagi var ad ſønnu einhverr hinn qvala meſti, ſem finnaſt mátti, en því undrunarverdari er ſú róſama þolinmædi, med hverri Jeſús þoldi hann án allrar møglunar, og því dýrmætara má oſs vera þad

þó gjædis dæmi, sem hann þar með hefir gefið ofs. Hvílíkur Jesú dauðdagi var einnig áður fyrirmindaður, því eins og Móses uppreisti eyrorminn í eydimörkinni, svo skyldi Mannsins Sonur upphefjast á krossinn, til þess, að allir þeir, sem á hann trydu ekki skyldu fortapast, heldur hafa eilífa sælu. Eptir Guds rádi, voru þeir ágvardadir, sem sviptu Jesúm lífi; hann skyldi líflátast af hverjutveggja því fólki, er á þeim tídum bygdu jördina; þetta átti að þéna til sönnunar því: að eins og Gydíngar og Heidíngjar vóru undir bölvaninni, svo skyldi Messías afreka hverju-tveggjum blessunina. Eptir Guds rádi var það ágvardad, hvad af Jesú dauda fljóta skyldi: hann átti—eins og Esajas Spámadur fyrisegir—að sjá sína lyst og hafa nægtir; með sinni vidurkénníngu skyldi hann, sá réttláti, gjöra marga réttláta; honum skyldi gefast mikið herfáng, og sjálfir þeir sterku skyldu gefast honum að herfángi; hann skyldi ödlast fjölda afqvæmis, sem honum þjónadi, og hans miklu gjörnínga skyldu menn tilkynna barna-börnum. Þessa spádóms uppfyllíng er skén í vors dýrmæta End-

urlausnara persónu, og sérhverr, sem med athygli adgjætir þetta, má þar vid upphvattur verda til ad tilbidja speki Guds og prísa hans elskufullu rádstöfun. Já, alvísi, nádugi Gud! í djúpustu audmýkt tilbidjum ver þitt vísa rád, sem ályktadi vors Frelsara dauda; sannarlega er þitt rád undarlegt, og þú framqvæmir alla hluti dýrdlega. Nú megum vér, fyrir Jesú dauda, fullvissir vera um vora fridþægíngu. Forgéfins hefir Gud víst ecki gjort þvílíka rádstöfun; forgéfins kunni vor Jesús ecki ad deya svo sérlegum og óvenjulegum dauda; forgéfins er þad ecki, ad spádómarnir um Jesú dauda eru svo ýtarlega uppfylltir. Nú erum vér fulltrúa, já, lifum og deyum vissir um þad, ad vér, fyrir vors Endurlausnara dauda, erum fríadir frá ollu straffi; en því dýrmætari og ómetanlegri á þess vegna hans daudi ad vera oss; æ! því skyldum vér nú syndga svo mótþróanlega á móti Gudi, ad vilja gjora ad engu med ydrunarleysi, Jesu dauda, er hann í vorn stad leid! einnig má vor daudi oss líka dýrmætur vera; sá sami vísdómur, sem áqvardadi allt hvad vidbar vid Jesú dauda, mun og

þannig haga øllum atvikum við vora burtfør frá heimi þessum, sem oss best hentar; hann hefir áqvarðað vorn dauða dag, og niðurraðað øllu fyrirfram þannig, að oss sem léttbærust verða mætti vor síðasta stund. Máské vér deyum á vorum blómstrandi aldri, máské og komnir á efri aldur; það skal engrar áhyggju auka oss. Tíminn, á hverjum þú, góði Guð! hefir áqvarðað oss að deya, er víst hinn hæfilegasti, staðurinn jafnvel, hvar vér deya skulum, er af þér fyrirsíeður, hvert heldur vér deyum á førnum vegi, í voru húsi, á meðal vorra vina eður óvina, í voru føðurlandi, eður á framandi støðum, það er oss allt hið sama; vér kunnum að deya rólegir og hólpnir á hverjum helst stað, sem áqvarðaður er oss að dauða-stað, þá vér einúngis deyum, sem rétt kristnir; en kannské það gjøri oss qvíða, að vér vitum ecki sjúkdóm þann eða dauð-daga, sem enda á vort líf; en því skyldum vér, fyrir þá skuld, bera áhyggju? vors lífs Herra hefir áqvarðað øll atvik vors dauða, eptir sinni alvísu gæðsku; það skéður að hans ráði, hvert heldur vér deyum bráðum dauða, elleg-

ar eptir lángvinnann sjúkdóm; hvert heldur med hægri tilfinníngu, edur mikilli pínu; einnig fyrir því, sem fljóta kynni af dauda vorum, hefir Gud borid þá vísustu umhyggju. Nú þegar hefir hann ætlad litinn hvíldarstad andvana líkhama vorum; nú þegar hefir hann huggun geymda vinum vorum, er harma munu vora burtför. Hversu ánægdir meigum vér þá ecki vera med þína rádstofun, alvísi Gud! hversu rólegir og gladir kunnum vér þá ecki úr heiminum útgánga! Þér, vor Lausnari! þöckum ver alla vora lífs lucku og vora sídustu rósemi! vertu oss nádugur á þessum vorum sídustu lífs-stundum, vegna þíns saklausa, fridþægjandi dauda! miskuna þig yfir oss, ó Jesú!

## 10. Föstu-Hugvekja.

Jesú hugprúda forsvar fyrir Kaiphasar Rétti. Matth. 26. Jóh. 18.

Í þessari Jesú adferd sjáum vér þann ávinníng, sem gód samvitska og hjartans sakleysi gefur, sérdeilis á neydarinnar tíd. Sú fyrsta hugleidíng sem hjá oss vakna má vid sjón þess-

ens áklagada, er óneitanlega þessi: hversu æruverdugt er hid lídanda saklevsi! Jesús stód hér frammi fyrir þeim yppurstu Prestum, Skriftlærdum og Oldíngum fólksins; þettad samqvæmi var ad ytra áliti mjøg æruverd samkunda, én eptir innvortis sinnislagi þeirra, samansafn skinhelgra hræsnara, svikara og mannhatara; hann vissi hvers hann hafdi ad vænta af þessara manna vondsku, þared Kaiphas, frumqvødull þessa blód-ráds, var þess forstjóri; hann, sem laungu ádur hafdi svarid Jesú dauda í hjarta sínu; þessi madur setti nú upp þad dómara yfirbragd, sem réttlæti elskar, og til ad sýna,ad hann fordast vildi allt hefndar-girnis skin, spurdi Jesúm um hans kenníngu,og þann fjølda lýds, er hann fengid hafdi, sem tilheyrendur. Jesús sem þeckti síns Dómara dula tilgáng, sá grant þessarar spurníngar undirferli, og svaradi henni því med þeirri einurd, sem enginn, nema sá saklausi, hafa kann, og med þvílíkri speki, sem einúngis mátti stad hafa hjá honum. Um sitt gjørvalla framferdi mátti hann skjóta til vitnis alþýdu róms,og þeirra manna, er hann

heyrt høfdu; á medal þeirra jafnvel, sem fella vildu nú yfir hann dauda dóm, vóru nockrir þeir, sem sjónarvitni verid høfdu ad framferdi hans. Hann hafdi kénnt opinberlega, og eckért í leyndum talad þad, sem ecki var samhljóda hans opinberu kénníngu, því hverr sá, sem íllt hefir adhafst, dregur sig helst í hlé, en hinn, sem gott gjørdi, lætur sig sjá fyrir almennings augum, og gjørir sín verk opinberlega. Vér viljum leida oss þad íhuga, ad vér værum þeir, sem mæta skyldu fyrir veraldlegum Dómara, eda réttara sagt, fyrir Guds Dómstóli, hvar vér ættum ad forsvara vort framferdi; mundum vér þá eins óskélfdir og Jesús fá oss afsakad fyrir þeim ákjærum, sem oss mættu þar? Æ! hversu lítil eru vor gódverk í samanburdi vid þad ílla, sem vér høfum adhafst! hversu margir mættu þá ecki ásaka oss, sem vér høfum hneixlad med vorri breytni, styggt í ordum og kjærleikslaust vidhøndlad? Þad mátti nú géfa Lausnara vorum yfrid stóra hugsvølun, ad hann gat med mestu hjartans rósemi skodad allar athafnir síns umlidna lífs, og engrar einustu var ord-

id, er ecki stofnadi til eblíngar heimsins velferdar. Hversu ítarlega sem hann prófadi sitt líferni, fann hann sig allt hafa rétt gjørt á móti Gudi og mønnum; hann var sér einkis brests eda breiskleika medvitandi; hann gat því óhræddur mætt fyrir Rétti óvina sinna. Audsært er nú hér af, hversu mikilsverd góð samvitska er, og hversu sá, hverjum samvitskan um eckért bríxlar, hafi litla orsøk til ad láta sér hugfallast vid þad íllgjarnasta baktal; enginn, nema sá rádvandi sannkristni, fær sýndann svo stórann hugmód vid áfelli rángra Dóma. Honum liggur þad í léttu rúmi, þó hann færdur verdi fyrir manna dóma; hvert honum er hrósad af einum, ellegar lastadur af hinum, því hvert heldur hann mætir æru eda vanæru, íllu eda gódu umtali, huggar hann sig vid þad, ad hann fái sinn rétt hjá Gudi, og ad heimsins almennilegur Dómsdagur muni sakleysi opinbera. Hér í heimi er ecki fullkomins réttlætis ad vænta, en þegar sá saklausasti á medal allra mannanna barna, hlaut ad mæta sem sakamadur fyrir ógudlegra rádi, ætti oss þá ad bregda vid, sem af engri

fullkomnni dygd høfum ad hrósa oss, þó vér líða mættum kjærleikslausa dóma og íllgjarnt baktal? nei, við hvílíku megum vér ætíð búast í þessum heimi, en án þess vér látum þesskonar dóma skélfa oss, skal sú vera vor sífeld ástundan, ad vardveita góða samvitsku fyrir Gudi, og þá mun sá þánki styrkja oss: Drottinn er sá, sem dæmir mig. Hvílík heppni er þad ecki, ad fá með sanni sagt: einkis erum vér oss þess medvitandi, er ollad fái oss fordæmíngar á Dóms-degi; vér erum oss ecki þess medvitandi, ad vér med ásetníngi høfum forsmád vorn Lausnara, misbrúkad hans fridþægíngu eda vanvyrðt hans kénníngu. Vér erum oss þess ecki medvitandi, ad vér viljandi høfum forsmád nockurn eda steypt í ólucku. Þad er vor hrósan — segir Páll Postuli — sem ervitni vorrar samvitsku, ad vér høfum í heiminum framgeingid í einfaldleika og Guds grandvarlegleika; en — med øllu þessu erum vér þó ecki réttlátir fyri Gudi. Þitt auga, alltsjáandi Gud! sem skodar grant vors hjartahulduštu fylsni, sjer þess óteljandi bresti og gétur auglýst þær syndir í

fari vorn, sem vér þeckjum ecki siálfir. Vér fengjum því ecki stadist fyrir þín-um Dómi, ef vor Jesús tæki ecki vorn málstad, og gjørdi sitt réttlæti vor vegna hjá þér gyldandi. Vertu oss, vor Gud! fyrir hans sakir nádugur í þínum Dómi! og þegar vort hjarta áklagar oss fyrir þér, þá láttu oss frikennda verda vegna þess blóds, sem hann einnig úthellt hefir fyrir vorar syndir.

## 11. Fostu-Hugvekja.

Péturs hugleysi, Jóh. 18.

Ef vér hefdum átt ad dæma eptir þeim hetju-hyga, sem Pétur sýndi, þegar Jesús var til fánga tekinn, og eptir þeim heityrdum, sem hann ádur géfid hafdi, mættum vér þenkt hafa, ad støduglyndi og trúmennska varid hefdi því meir, sem háskinn vóx, er Jesús var staddur í; en hversu snøgglega hefir hann nú fengid sinnaskipti! nú, þegar þess var ad vænta ad hann sýndi, hugprýdi, verdur hann hugláus; hann minntist ad sønnu heityrda sinna, snýr því til baka af flóttanum, og fylgir Jesú eptir, en ecki nema álengdar, af því hann óttadist sømu hættu, sem

hans Meistari var staddur í. Ótti fyrir mönnum sýnir sig í athöfnum hans og tali; hann samlagar sig hóp-inum, svo hann því sídur þecktur yrdi. Þad sýnist ad sönnu vera ofurhugi, sem dreif hann til ad fylgja Jesú bundnum eptir inn í Kénnimanna-höfdíngjans stofu, en þad var ofdirfska, því lastvar-ari, sem hún var meiru hugleysi blönd-ud. Þad var ofdyrfd, ad voga sér í þad hættu-strid, ad raunalausu, hvar hann mátti vita sér ósigur búinn; þad var oflæti, ad sýna á sér útvortis hug-dyrfsku, en búa í hjartanu yfir megnum ótta. Hversu mjög megum vér því ecki vaka yfir hjarta voru, og leitast vid ad sigra þann ángistarsama ótta, sem oss svo tídt yfirfellur, og ollir því, ad vér hindrumst frá ad fordast þad vonda, en ydka gott? ollir því á tídum ótti fyrir mönnum, ad vér gjörumst Jesú Evangelió ótrúir, og forsómum skyldu vora af qvída fyrir álasi edur áhlátri manna? er þad ecki ótti fyr-ir yfirfallandi eymdum, sem dregur hjarta vort frá því trausti, er vér ött-um á Gudi ad hafa? er þad ecki ótti fyrir daudanum, sem gjörir oss hann svo skélfilegann, ad oss þegar hverfur

hugur þegar vér hugsum til hans; er það ecki þræls-ótti fyrir Gudi, sem fær oss svo ákaflega skélfda vid sérhvern hans strøffunar-dóm, og nidurslær oss til jardar vid sérhverja hættu? er það ecki ótti fyrir Helvíti, sem aptrar oss ad sønnu ad fremja stór glæpi, en upphvetur oss þó ecki til ydni og gódverka; Opt høfum vér kannské leitast vid ad dempa þennann ótta, strída á móti honum, eda ad øllu fá hann nidurþrycktann; en hverfu ávaxtarláusir urdu ecki allir vorir vidburdir? þessi ótti yfirféll oss jafnódt aptur, þó vér meintum oss hafa hann sigrad. Æ! oss auma! hverr vill frelsa oss frá þessum ótta? þú, vor Jesús! fær það einn gjørt; tilgángur þinnar komu í heiminn og þín pína fullvissar oss um það, ad vér finna munum hjá þér rósemi fyrir sálu vora. Þegar samvitskan skélfir oss fyrir hegníngu Guds, hversu rólegir megum vér þá ecki verda, þegar vér trúum á Jesúm, fyrir hvers fridþægíngu vorar syndir eru afmádar? þá fær allt, sem ádur var oss óttalegt annad útlit; vort mædusama líf, verdur oss vegur til fullkomnunar; þær háskasemdir, sem umkríngja oss, medalid til

vorrar trúarstyrkíngar; vor dauðadagur verður vor lausnardagur, og rotnan líkhama vors, er tilreiðsla undir þá komandi forklárun. Þegar vér þannig vyrðum fyrir oss þetta, sem oss var svo óttalegt, hverfur hitt, sem áður ógnaði oss. Veki vor vanmáttur og eymdir ótta í voru hjarta, þá styrkjum vér oss í trúnni á Jesú náð. Vilji qvíði fyrir missir þessaheims forgeingilegu muna gjöra oss órólega, hressumst ver að von óssýnilegra gæða, sem oss eru ætluð á himnum, um hver Jesú pína gefur oss fullkomnustu vissu; engu að síður er oss það nauðsynlegt, til egin varhygðar, að bera sífeldt forsjálann ótta, og fyrirfram búast við mótlæti, sem oss máské mæta kunni. Hefði Pétur fyrirfram betur aðgætt hugleysi sitt og þá hættu, sem hann stofnaði sér í, mundi hann traudlega hafa látið sigrast við fyrsta freistínga áfall. Flestar mótlætíngar, sem oss mæta, verða því tilfinnanlegastar og skæðastar, að þær koma óvart. Oss er því mjög svo nauðsynlegt að venjast við, að setja oss fyri sjónir mitt í vorum lystisemdum og velgengni þau mæðu tilfelli, sem kynnu að mæta oss, og seg-

ja til sjálfra vor: nú lifi eg ánægdur og frí fyrir allri áhyggju; en hversu brádum getur ecki sá tími adborid, sem fylli sálu mína ángri og óróseml; nú er eg hughraustur og hefi nóga djørfúng til mótstødu hverju helzt freistínga áfalli; en hversu snarlega fær ecki þad hættu tilfelli adborid, sem gjøri mig duglausann? nú elska eg Jesúm og hans kross; en hversu fljótt má ecki heimsins umgengni leida mig afvega til ad verda hans kross óvinur? nú hefi eg vidqvæmt hjarta; en hversu audveldlega má þad ecki ské ad því lengur, sem eg þjóna ránglætinu, því hardgedjadri verdi eg og tilfinníngarlausari? nú er eg heilbrygdur; en hversu skyndilega kann ecki hættulegur sjúkdómur ad leggja mig í grøfina? Ad øllu leiti fáum vér aldrei vorn ótta sigradann, á medan vér búum á þessari jørdu. Vér erum ætíd umkríngdir óvinum og háskasemdum, sem mega halda oss síhræddum um sjálfa oss. Kom oss því, vor Gud og Frelsari! veikum mannskepnum til hjálpar med þínum almáttuga krapti! Vertú vort ljós, vor sáluhjálp og vors lífs kraptur, þá mun enginn ótti fá svo skelft oss, ad vort hjarta

dragist frá þér! Vardveittu oss fyrir øllum þeim frelstínga áføllum, sem oss kynnu ad skada, en láttu oss þjóna þér med dygdugu og lastvøru framferdi, án þrældóms ótta, alla vora lífdaga; þá er oss viss hin sæla dýrdarvist á himnum.

## 12. Føstu-Hugvekja.

Jesú þolinmædi vid hans óvina álygar. Matth. 26.

Svo opt, sem vor Lausnari gengur fram á stríds-vøllinn, sjáum vér hann koma þadan krýndann heidri og æru, jafnvel þá, vinnur hann dýrann sigur, þegar hann sýnist sigradur. Hans blód-þyrstu óvinir høfdu med snidugasta undirferli búid øll brøgd, er þeir meintu ad fá hann fángadann med. Utbúnir med bréflyrdum af hverjum þeir væntu sér hagnadar; fjølda falsvotta feingu þeir framleidt, hverra vitnisburdur verka mætti blód-dóminn, er gánga skyldi yfir Jesú. En hvar voru í þad sinn vitni hans sakleysis og gódgjørdasama kjærleika? hvar voru þeir, er reynt høfdu sjálfir hans undrunarverdu hjálp; því framkomu þeir nú ecki, né hrøktu med egin dæmum Jesú fjandmanna vitnisburd? nú var

þó tími til, ad fjøldi aumra, er reynt høfdu Jesú medaumkunarsømu hjálp, hefdu med þacklætis-tárum og sønnum vitnisburdi leidt Jesú sakleysi í ljós; því komu þeir ecki og søgdu med edla hugprýdi: þessi Jesús, sem svo ílla er medfarinn, hefir ecki verdskuldad hvad þér vid hann gjørid; mér hefir hann ad bæn minni gefid heilsuna aptur; mér hefir hann gefid mitt andvana barn aptur lifandi, mig hefir hann med einu almættis ordi frá líkþrá hreinsad; fyrir hans hjálp vard eg, sem var mállaus, talandi; daufur heyrandi; haltur rétt gángandi; mér hefir hann fyrirgéfid mín afbrot! mundi ecki samhljóda þacklætis vitnisburdur hafa mátt frelsa þann saklausa Jesú, eda þacklát kjærleikans rødd halltra, blindra, daufra, spitelskra og svo margra aumra, hærra kunna ad láta, enn mannvondskunnar ljúgandi áklagan? ó! enginn af þessum lætur sig nú sjá, enginn þeirra vogar ad forsvara sinn velgjørara, hann þarf ecki heldur þessa forsvars vid. Hans sakleysi sigradi án allrar annarar hjálpar, jafnvel hans óvinir sjálfir hlutu ad hjálpa til sigursins. Var þad ecki sigur fyrir þann saklausa Jesú, ad svo

mikid ómak sem óvinir hans gjørdu sér fyrir ad uppljóstra umhann allskyns lognu lasti, er þeir uppspuunid fengu, ad engum vitnum, sem þeir ad því framleiddu, samanbar? var þad ecki sigur, ad Jesús hagdi til allra loginna sakargifta? sakleysi hans þurfti enga affokun; þad var øllum audsært. Vid Jesú sakleysi gledjum vér oss; því ef vér skyldum álítast réttlátir fyri Guds Dómi, hlautstú saklaus ad finnast fyrir Gudi og mønnum. Pitt réttlæti er vor huggan, þegar vort hjarta fordæmir oss, og samvitskan áklagar oss. Æ! hversu óluckulegir mundum vér ordid hafa, þegar vér á sídan mæta ættum fyrir þínum Dómi, ef allar vorar syndir, øll saklausra tár, sem vér høfum áreitt, hrópadi hefnd yfir oss? hvers ættum vér þá, eptir verdskuldun, ad vænta, nema fordæmíngar? Lofadur sértú ad eilífu, ó Jesú! fyrir þitt sakleysi! þess vegna megum vér nú vona ad úrskurdast saklausir í Dóminum. Lofadur sértú einnig fyrir þessa þína pínu, sem þú þoldir med svo rólegum hetjuhuga undir þjáníngum þinna qvalara! ó! hvernig fáum vér þitt þolgjædi nógsamlega undrad! eckért

féck bifad þína rólegu sálu, sem styrktist af þínu sakleysi. Þín miskunarlausasta medferd féck þig ecki sviptann rósömu siödugllyndi; þú þegir, svarar engu; þetta er allt þitt forsvar, öll þín hefnd! þessa dygd viljum vér af þér læra, vor Frelsari! einkis viljum vér meta vanvyrdu þá, sem oss mætir ósorþént. Vér viljum læra ad þeigja, því máské vort tal leidi oss til nýrra synda. Vér viljum med hógværu umburdarlyndi hughreystast gégn vorra óvina áráfum. Fordæmi oss ecki vort hjarta, hösum vér djörfúng ad mæta öllum vorum baktölurum og ofsóknurum. Med adstod gudlegrar nádar viljum vér svo framgánga, ad heimsins gjörvöll falsvitni gégn oss verdi til skammar; og þó ad vort sakleysi ætti hér ofsókn ad lída, kémur þó sá dagur, þegar þad skal vinna sigur á öllum hatursfullum áklögunum.

## 13. Föstu-Hugvekja.

Medhöndlan Jesú fyrir andlegum Rétti. Matt. 14.

Þetta var nú sá tími, þá Jesús vard hinn fyrirlitnasti allra, þegar hann kola hlaut þvílíka vanvyrdu, ad sérhverr snéri sér frá honum, og eng-

inn vyrdti hann vidtals. Hann leit-
adi ad huggara, er sig aumka vildi í
pínu sinni, en þar var enginn, sem
bæri medaumkun med honum, eng-
inn, sem huggadi hann. O! þú van-
vyrdti og sár-píndi Jesús! hvilík undur,
ad til þín skyldi enginn líta medaumk-
unarsømu sorgar auga! ad minnsta
kosti vildum vér ecki horft hafa til-
finníngarlausir á þína pínu. Voru
hjarta blædir, ef vér vyrdum fyrir
oss þínar píslir. Eru þad ecki vorar
syndir er gjørdu þér hvílíka mædu og
erfidi? var þad ecki vor vanvyrda, sem
þú barst? æ! lát vor augu fest vera á
þessari sorgar-sjón, og þegar vér skod-
um þig í þinni vanvyrdu, láttu oss
þenkja til sjálfra vor, berja oss á
brjóst og gráta vorar syndir; hversu
grimdarfulla vondsku máttir þú ecki
útstanda, vor Jesú! allt sameinadi sig
til ad auka þínar qvalir. Sá villu-
flockur ógudlegra manna, dyrfist ad
høndla óheyrilega vid þig; því hvad
er grimdarfull misþyrmíng og med-
høndlan, sé þad ecki ad hrækja saklaus-
um í andlit, ad slá hann med knefum,
ad gjøra hann ad spotti og athlátri? og
þettad gjørdu þessir vondskufullu þræl-

ar við þig, þú saklausasti og besti meðal mannanna sona! þeir hrækja í þína ásjónu; þar hafa þá enn stadið máské storknaðir blóð-dropar, máské qvölin, þú leidst í Gras-garðinum hafi enn á þínu andliti verið auðsjen. Að minnsta kosti var afmáluð í andliti þínu hin vinsamlegasta hógværð, hinn hreinskilnasti mannkjærleiki og djúpasta sorg; allt þetta feck ecki minnstu verkun gjört á þeirra harðsvírudu hjörtum. Þeir slá þig með knefum, þeir slá þig, sem engri manneskju nockurntíma amaðir; þig, sem eckért hafðir aðhafst, er inni til straffs; þig, sem aldrei hegðaðir þér öðruvísi, enn sem manna velgjörari, og þó er enn ecki íllska þeirra þar með södd; þeir hæða þitt heilaga embætti; smánarlegustu háðúng gjörðu þeir þér með því að byrgja þitt andlit, og krofdu, að þú, sem Spámaður, opinbera skyldir, hver sá verið hefði, sem á þér æfði mannvondsku sína. En hvörnig hefði farið, ef að þú opnað hefðir þinn munn, og boðið: að þeßir guðlevsíngjar samstundis meðtaka skyldu forþént laun? en — þú leidst þeßa vondsku með sérlegri þolinmæði. Fríviljugur bauðstu þína á-

sjónu fram undir hrákana, og þinn líkhama undir höggin. Æ! hvad gjørdi þig þá svo fúsann til ad gángast undir þvílíkar qvalir? hvad annad enn kjærleiki til syndaranna? Sakleysi þíns hjarta hughreysti þig undir øllum þessum píslum. Þú hafdir fyrir augum þá blessun, sem spottyrdin, er þú þoldir, afreka áttu mannkyninu; þú vissir, ad engin vanvyrda, hversu stór, sem hún var, fékk hnyðrad sakleysi þínu. Þú þecktir dýrd þá, sem þér var geymd ad píslum þínum útstodnum, þess vegna þoldir þú krossinn og aktadir ecki vanvyrduna. Þessi hádúng var einnig af Guds ásettu rádi yfir þér áqvørdud; engin hendíng var þad, ad þessar enn ecki adrar píníngar mættu þér. Vér setjum oss fyrir sjónir, ad þú, vid þessa vondsku medferd, hafir mátt lída fyrir þær syndir, sem drýgjast á móti kristinni trú. Þú leidst spádómana ad hádi hafda! nú finnum vér þad ecki undrunarverdt, ad svo margir spottarar med frekum hádyrdum vanvyrda þitt ord; med þessari þinni pínu hefir þú fríad þá frá straffinu, sem yfir þá hefdi átt ad koma midt í því, ad þeir svo ílla vanbrúk-

udu þitt ord; burtryckist þeir ecki skyndilega í reidi þinni, fái þeir enn þá tómstund til ad snúa sér til þín, er þad þinni fridþægjandi pínu ad þacka, þessari, sem þú lída máttir undir évina þinna hädúngum. Framkomi hér blódþyrstir, hardgédja og grimdarfullir miskunarleysíngjar, og sjái vorn pínda Lausnara; alla þá hardýdgi, sem þeir vid þá aumu í frammi høfdu, þau høgg, sem þeir saklausu lída máttu af þeim, alla þá brædi, sem þeir, vid minnstu yfirsjón létu falla yfir hinn meinlausa, fyrir allt þetta hefir hér sjálft sakleysid hlotid ad lída. Þegar þér, hardgédja manneskjur! vægdarlaust medhøndlid hinn saklausa, vid hvert tárid, sem þér pressid út af hans augum, vid hvert mein, sem þér gjørid honum, vid hvert eitt spottyrdi, þér hædid hann med, rennid þaunkunum til Jesúm og hugleidid: ad þér í ydar sakleysu brædrum hafid fordum misþyrmt ydar Frelsara, og fáid þér vid þessa hugleidíngu enn þá áfram haldid í hardýdgi og miskunarleysi? Lát oss aldrei gleyma, ó Jesú! þeirri vanvyrdu, sem þú máttir lída! þánkinn um hana aptri oss frá því ad syndga,

og gefi oss hugarmóð til að líða þær háðúngar þolgóðir, sem oss kunna að höndum bera. Ecki skal það undra oss, þó vér þola meigum háðyrði fyrir viðurkénníngu þíns lærdóms, þó vér mæta megum forakti af heiminum fyrir það, að vér eptirfylgjum þér; þó að vér í heimsins augum haldnir verðum fáráðlíngar, sem ecki þecki heiminn, og kunni ecki eptir aldar-móð að lifa, viljum vér uná því þolinmóðir, og hvorki með valdi né brögðum láta oss draga frá þér. Þá endirinn kémur mun það þó loksins sjást, hvert sá hæðandi eður hinn hæddi, hvert Krists krossælskari, eður hans óvinur, varð farsællri.

# 14. Føstu-Hugvekja.

Péturs fall, Mark. 14.

Nú kom það fram, sem Jesús hafði fyrirsagt Pétri um fall hans. Af hans dæmi má sjá, hvar sá lendir, sem stofnar sér viljandi í þær hættur og freistíngar, sem hann er ofveikur til að sigra. Ef dæma skyldi um Pétur eptir hans karlmennsku heityrðum fyrifram, var því varla trúandi að sýnileg dauðans hætta hefði hrædt hann;

en hér þarf miklu minna til að taka úr honum allann dug. Sjáum! þessi Lærisveinn, er áður var svo hugaður, hann, sem einn vildi berjast við heilann flock vopnaðra hermanna, fær nú ecki staðist tillit einnar ambáttar og nockurra þénara; fyri þessum auðvyrdilegu persónum verður hann svo skélkaður, eins og hann ætti að fángast af þeim og deyðast. Hefði nú hans afneitan ecki skéð nema einusinni, mátti honum hafa sýnst nockurt vorkunar-mál; en — hann afneitar Jesú hvað eptir annað, og hafði þó tíma til að hugsa um yfirsjón sína, frá því ambáttin kastaði orðum á hann í fyrsta sinni. Hann géck af ásettu úti nýa freistíngahættu, og þegar hann fyrst með lausum orðum afneitað hafði Meistara sínum, gjørði hann það skømmu seinna með eiði og formælíngum. Með meðlíðunarsømum kjærleika og viðurkénníngu vors eginn veikleika, íhugum vér þetta Jesú lærisveins-fall; í hvílíkt forðjørfunar afgrunn féll ecki Pétur hér, hann, sem aður hafði sýnt sig svo mørgum øðrum fremri að hugprýði og frómlyndi? það var ecki að undra þó Júdas gjørði

sig, sekann í þeirri synd, sem hann drýgdi; hann hafdi ætíd haft illann mann ad geyma, aldrei elskad sinn Meistara af einlægu hjarta, og aldrei þad adhafst, sem hann mátti æru hafa af; en, ad Pétur, sem elskadi sinn Meistara med svo einlægum og heitum kjærleika; hann, sem hafdi svo næg rok um Jesú guddóm og vid sérhvert tækifæri sýnt hafdi sig ofurhuga, ad þessi Pétur skyldi vid svo litla reynslu huglaus verda og falla, þad er undrunarverdt. Hvar er nú þessa lærisveins mikla hugprýdi? hvar hans laungun ad bera sannleikanum vitni? Á þeim stad, hvar hann afneitadi Jesú, átti hann ad afleggja órækann vitnisburd um Jesú sakleysi; hann átti ad leitast vid ad sannfæra Jesú óvini um ránglæti þeirra, straffa þeirra blódgyrni, ad minnsta kosti vekja nockra medlídun hjá þeim vid hinn saklausa Jesúm; enn á þessum háskasama stad, hvar hann var staddur, gætti hann engrar þessarar kjærleiksskyldu, hann ígrundadi hverki Jesú óvina hardýdgi, né hans sakleysi, því sídur skyldu sína ad vidurkénna hann opinberlega; hann hugsadi einúngis

til sjálfs síns, og hvernig hann fá mætti lífi sínu borgid, þad var honum dýrmætara enn Jesú líf, og hans nafns vidurkénníng. Sá píslar=daudi, sem hann qvída mátti ef hann játadi sig Jesú lærisvein, ógnodi honum svo mjøg, ad hann héldt þad besta rádid strax ad afneita Jesu. Þessa Péturs afneitun fêck nú Jesús ad heyra þá, er honum mátti falla sem þýngst, midt í því hann var dæmdur til dauda af ránglátum Dómurum, midt í því hann þolá hlaut grimdarfyllstu medferd í þrælahøndum, midt í øllu þessu bar Péturs afneitan til, og hvad mátti nú ecki auka á qvalir þær hann leid, ad þessi hans traustí Lærisveinn skyldi afneita honum, og ecki vilja kannast vid hann. O Jesú! hversu mikil hefir í þad sinn verid þín sálarqvøl! ecki vóru þad litlar píslir, sem þú leidst af miskunarlausri medferd þrælanna, sem hæddu þig, hræktu þér í ásjónu og slóu þig, en hversu miklu stærri qvalar má þó ecki hafa ollad þér afneitan þíns eginn lærisveins, er í stad þess ad hughreysta þig í þinni miklu qvøl, særdi þitt hjarta svo tilfinnanlegu sári; en þetta útheimtist

og til ens fulla mœlirs þinna pýsla, sem þér var af Fødurnum áqvardadur; þú áttir ad pínast bædi fyrir þinna óvina misgjørdir, og þinna vina yfirsjónir; sá veiki eins og sá sterki, spottarinn eins og meinsœris-madurinn, sá stødugłyndi eins og hinn ótrúi, áttu allir ad finna fridþægíngu í þinni pínu. Hversu hyggunar-rikt er þetta ecki fyrir oss, sem engu stødugłyndari erum enn Pétur; hans Afneitunarsaga, er ord-rétt afmálan vors eigin hjarta; hans fall má vera oss til þeirrar varúdar, aldrei ad stóla á vora eginn krapta, og aldrei af ótta fyrir mønnum, ad verda Frelsara vorum ótrúir. Þessarar varúdar þurfum vér því heldur vid, sem sá heimur er hœttulegri, í hverjum vér lifum, þar áfvegaleidslur og tálsnørur á allar sídur umkríngja oss þær, sem jafnvel gjora mœttu hid stødugasta hjarta óstødugt. Hvernig megum vér nockurntíma treysta eginn vitsmunum vorum, rádvendni eda setníngi? lítilvægt tilfelli, sem vér ecki fengum fyrisjed, ellegar, sem oss vyrdist einkisverdt, fær tídum í einu gjørt vorn einlœgasta ásetníng ávaxtarlausann.

Hversu opt hafa ecki leidast látid til óstødugleika, ákøfustu Evangelii vidurkénnarar, og gudhrædslunnar einlæguslu elskarar hneigst til ad víkja frá réttum vegi, jafnvel fyrir léttvægustu tilefni, svo sem fyrir lítilfjørlegt smjadur, gladlegt spaug, máské fyrir ótta sakir ad misþóknast þeim, hverra vinfengi var árídandi; máské fyrir luckn og metorða skuld ákomandi tímum; máské af eintómri gédlempni þeirri, ad haga sér eptir annara þenkíngar-hætti, eda þúsund ødrum tilefnum, sem í sjálfu sér adgætt, eru nær því einkisverd, og þegar vér skeikum í fyrstunni, megum vér þegar qvída brádu falli. Þad fyrsta afvik á lastanna veg ollir því, ad vér fáum ecki umflúid ad villast lengra; ad minnsta kosti vill torveldara veita, ad snúa aptur, þegar madur einusinni hefir vogad sér á lastanna afveg. Til ad ná þeckjanlegum framførum í gudhrædslu, útheimtist margra ára æfíng, en til ad falla í stóra misgjørninga og syndir, nægja fáir dagar, jafnvel nockrir tímar, hversu sem hjartad er vandad. Hversu lítid megnum vér vesælar manneskjur, ef vér einir skulum fyrir

oss ráda? hversu snøgglega verdum vér ecki sigradir, ef vér í trausti á eginn kroptum vorum, vogum oss út í strídid? mundi þurfa til vid oss bál edur aftøkustadi, eda pínu-becki, eda grimdar medhøndlun, ad vér svørudum: ecki þecki eg Jesúm? minna þarf tilefnid: ecki nema ad oss sé smjadrad, svo afneitum vér Jesú. Hversu margar tillockanir til þvílíkra synda, gefur ecki tímanna vantrú? má ecki af mørgum heyra hádyrdi á móti trúnni? kannské vér þola megum med forakti til vor sagt: þessi er einnig einn af þeim, sem trúa á Jesúm af Nazareth; vér kunnum kannské ad haldast þvílíkir, sem ecki þeckja réttann lifnadarmáta, sem miltis-sjúkir eda manndvinir, ef vér ecki tøkum hlutdeild í almanna lystisemdum, þá er þad og vid øll þvílík tilefni og tækifæri ad vér vaka megum yfir hjarta voru, ad þad láti ecki sigrast af þvílíkum freistíngum. O! Jesú! þegar vér staddir erum í þeirri hættu frá þér ad lockast, vyrdstú þá ad miskuna þig yfir oss! réttú oss þína hægri hønd, þegar vér ætlum ad søckva nidur í eymdanna afgrunn; láttú þad aldrei ské, ad vér

lockumst frá þér; géfdu oss nád til ad leita hælis hjá þér í ólukkunni, ad gleyma þér aldrei í luckunni; æ! ad vér mættum reynast þér trúir til daudans! þad mun verda vor hrósan á þínum tilkomu-degi.

## 15. Föstu-Hugvekja.

Jesú Gædska vid Pétur fallinn, Lúk. 22.

Varla hafdi Jesús sjed sinn elskada lærisvein af freistíngunni sigradann og fallinn, fyrr enn hann med flýtir jéck honum á fætur hjálpad og útryckt úr vodanum, sem hann var staddur í; ódar enn hann féll, vard hann aptur á fætur reistur; svo ótrúann, sem Pétur sýndi sig nú Meistara sínum, svo ástúdlegann sýndi Jesús sig þó honum. Hverr fær nóglega í-grundad mikilleik þessa Jesú kjærleika? hverr gétur ánægjanlega skilid, hversu mikid ad innibindi þessi ord: Jesús leit til Péturs? þessi qvaldi madur átti nú ad strída vid svo margskonar eymdir, ad ecki máttu undur þykja, þótt hann einúngis þenkt hefdi um sjálfann sig, og um þær píslir hann leid. Sínu andliti, vanvyrdtu med hrákum og höggum, augunum þrútnum af tár-

um, snéri hann nú frá öllu og til þess, sem nú jók honum mesta qvöl. Máské Jesús hafi nú stadid bundinn vid stólpa, og lidid, án þess ad géta hrært sig, alla þá vanvyrdu, sem honum var gjörd; engin medhöndlan, hversu grimmileg, sem hún var, fékk honum vikid frá rósemi sinnar sálar, en þegar hann heyrdi, ad hans eginn lærisveinn formældi sér med mörgum eidum, þá snéri hann sér vid til þessa manns, sem gaf honum lángtum tilfinnanlegri slög, enn hin vóru, sem hann þola mátti af grimmum þrælum; hann leit til hans, til þessa ótrúa, hrædda vinar, sem ecki einúngis hafdi gleymt honum og vanvyrdt hann, heldur það, sem enn þá var þýngra, afneitad honum; hann leit til hans, þó ecki med því reidi tilliti, sem grimmhjartadur hegnari lítur til fángans, ecki med þeim grimdar augum, sem hinn er órétt leid, lítur til síns mótparts, ecki med því stollta tilliti, sem hinn voldugi lítur til hins vesæla, sem hann þykist styggdur af; ecki þeim hefndar-augum, sem drepa vildu þann óvin, er sekann hafdi gjört sig í nockrum misgjörníngi, þvílíkt tillit gat ecki

stað haft hjá honum, hvers heilögustu augu sýndu einúngis hreinasta mannkjærleika. Það tillit hann gjörði til síns fallna Lærisveins, var það augnatillit, sem sýndi sárustu sorg og viðqvæmasta kjærleika; hefði Jesús gétað talað, en máské hann hafi nú verið svo medfarinn, máské svo örmagna, að hann hafi ecki, vegna pínunnar, féngið orðum uppkomið, en hefði hann gétað talað, með hvílíkum harmi og viðqvæmri ástúð, mundi hann ecki ávarpað hafa sinn Lærisvein, minnt hann á sín heityrði, gefið honum til kynna sína hjartasorg? Þó var augnanna mál enn þá eptirtakanlegra fyrir Pétur; Jesús þurfti ecki nema að líta til Péturs, til að segja honum þarmeð allt, hvað jafnvel ecki hin kröptugasta orðsnild mundi hafa sagt gétað; hvað sá Pétur, þegar hans augu mættu Jesú augna tilliti? al-blóðugt náblcikt andlit, augu af hverjum tárin útfossuðu; og hvað sagði þessi sjón honum? Pétur! svo grimmilega er mér misþyrmt, og þú, þú vilt líka auka mína pínu; sjáðu! hversu mínir óvinir hafa útleikið mig; eg þoli högg og háðúngar, og þú vilt einnig auka þær, hversu

djúpt, ó! Pétur! hversu djúpt ertu fallinn! Jesús leit til Péturs; þannig lítur máské trúfastur faðir til sonar síns, sem fyrrum var hans yndi, og væntanleg elli-stoð, en er nú afvega leiddur orðinn að guðleysíngi, nú, þegar dauðinn nálægir sig hinum aldraða föður, lætur hann sinn fortapaða son kalla að banasæng sinni; dauðans ángist hefir svipt hann málinu, svo hann getur aungu orði uppkomið; en hann lítur til sonar síns, og þetta síðasta tillit af þess deyanda föðurs hálf brostnu augum, á að sýna syninum hans sárheita kjærleika og brennandi áhyggju um hans velferð; en þessi afmálan er allt of sljó til að ímynda sér þá viðqvæmni, er sýndi sig í Jesú augnatilliti til Péturs. Með ómótstandanlegri manngæðsku horfði hann á hann, og svo aumkunarlega, sem ásjána hans var útleikin, svo var þó auðþeckjanleg í hans gjörvöllu andlitsfalli hin stærsta högværð, vinsemd og mannúðlegleiki; og, ó Pétur! í hvílíkann eymda afgrunn hefði ecki sála þín niðursockið, hefði ecki Jesú viðqvæma tillit nú hjálpað þér? hversu nálægur varstu ecki þeim háska, sífeldt lengra að fram-

gánga á lastanna vegi, ætíd ad verda kaldsinnadri vid Meistara þinn, og forherdtari í hjartanu á móti sannleikans verkun? máské þú, blindadur á lastanna vegi, hefdir svo lengi áfram haldid, þar til þín samvitska lokfins uppvaknad hefdi med pínandi örvýlnun; hvílíkur óútmálanlegur kjærleiki! Jesús lítur til þín, nú þegar svo stórt vidliggur; hans augna tillit átti ad minna þig á heitordi þín; hans augna tillit átti ad uppfylla hjarta þitt blygdun og hugar ángri, vekia þig af þínum svefni, varna þér framhalds í syndinni, vera þín huggan í þinni einsemi, og sannfæra þig um þíns Meistara vidvarandi kjærleika; allt þetta vildi Jesús med sínu tilliti til Péturs hafa áunnid, og lofud veri hans nád, ad hann ecki bar forgéfins umhyggju fyrir þessa fortapada syndara frelsi; en þín nád hefir einnig, eilífi Miskunari! gjört sig dyrdlega á oss; ertu ecki sá, sem leiddir oss til baka frá fordjörfunarinnar afvegum á dygdanna veg? O, vor Gud! fyrir laungu værum vér í vorum syndum til grunna gengnir, eda vort hjarta forherdt ordid móti öllum gódum hræríngum, hefdir þú ecki

vyrdt oss þinnar umhyggju. Med hvilikri trúfesti fylgdir þú oss ecki eptir? med hvilíkri gædsku leitadir þú ecki ad oss? med hvílíkri makt útryektir þú oss ecki úr hættunni, þegar vér fórum skadlega afvega? hvad ástúdlega leitadir þú ecki ad oss þegar vér med hræsni afneitudum þér, ad vor sála ecki skyldi tapast? ó vor Herra og vor Gud! taktú aldrei þína nád frá oss! líttu medlídandi auga til vor, þegar vér med ordum, gjørdum eda hugrenníngum afneitum þér, svo vér ecki deyum sem þíns kross óvinir! líttu til vor med vidqvæmri miskun og medaumkun, þegar freistíngarnar vilja fella oss, ad vér fá megum hugar-mód og styrkleika; líttu til vor, þegar vér huggunarlausir ætlum ad falla í örvýlnun vid endurminníngu vorra synda, svo vér finna megum rósemi vorum sálum; æ! líttu til vor, þá loksins ad því kémur, ad vér liggja hljótum hjálparlausir, veikir og gledi fyrrtir á vorri bana sæng, svo ad vér þá finna mættum endurnæríngu í vorri daudans ángist.

# 16. Føstu-Hugvekja.

Péturs ydran, Lúk. 22.

Hvílíkann krapt hafdi þess sár-qvalda Jesú augna tillit. Hér sýndi Jesús sig í fjøtrunum sem Herra þann, er allra manna hjørtu hefdi í sínu valdi. Hversu máttfarin og ávaxtarlaus eru ecki tídum vor ástúdleguſtu og medlídunarſømuſtu augna-tillit? hversu ſjaldan luckaſt gódum fødur, ad fá ſitt tapada barn leidt frá villuvegi, med því hrærandi augnamáli eda ødrum þeim medølum, sem ástſemi hans óſkadi ad fá honum umvendt. Ødruvíſi var Jesú tillit til síns fallna vinar; þettad augna tillit þreyngdi sér inn í Péturs sálu, og sýndi hónum í einu bædi ſtærd hans ſyndar og háſkann, sem hann hafdi varpad sér í. Þetta augna tillit vakti hann af ſveſninum, sem hann var fallinn í, og leiddi í einu til hugleidíngar misgjørníngs síns. Pétur féck ecki ſtadiſt Jesú tillit; med flýtir géck hann út af Biſkupsſtofunni, sem honum var ordinn ſvo hættulegur ſtadur, yfirgaf þann ſyndara ſoll, sem leidt hafdi hans hjarta frá sínum Meiſtara; einvera var nú

ad vísu sorgleg fyrir Pétur, en þar hjá nytsamleg. Í einrúmi fékk hann best íhugad stærd síns misgjörníngs, og mikilleik Jesú nádar, þar gat hann ransakad med athygli, hversu hans hjarta var ásigkomid, er nú var afvegaleidt af þeim ótta, sem yfirféll hann; þar gat hann íhugad hversu smámsaman hann leiddist afvega, þar til hann loksins féll. Enginn efi er á því, ad vér mundum lángtum lengra komnir á gudrækninnar vegi, ef vér þannig fylgt hefdum Péturs dæmi. Svo lengi, sem vér fáum ecki slitid oss frá gjálífis solli og gledskap, í hverju hjarta vort mist hefir sakleysid; svo lengi, sem vér leitum oss ánægju í ydulegum vellystíngum, lystisemdum og óhæversku samtali, sem nidur drepid hafdi híngad til hjá oss sérhvern gudræknis þánka; svo lengi, sem vér ecki umflýjum þá stadi, sem bjóda oss tækifæri til þeirra synda, sem vér erum hneigdir til, eda kunnum leidast til ad drýgja, svo lengi verdur ad eingu sérhverr gódur ásetníngur, sem vér tökum oss fyri hendur. Byrjadu því, kristinn madur! med þeirrar ædstu nádar adstod, ad yfirgéfa sem fyrst þessa

vegi. Settú þér fyrir sjónir, með hverju meðlíðunarsömu auga Jesús muni til þín líta, er þú svo tíðum afneitar honum, með ósiðsamri keskni og margskonar fáfengilegum lysti-semdum. Hugleiðtú, hvert þú mundir vilja hafa þann að sjónar-vitni þíns ósiðsama framferðis, hverjum þú ert skuldbundinn að veita mikinn heiður; nú er Guð þinn Jesús og englarnir ætíð ósýnilegir vottar að þínum syndsamlegum athøfnum, og vildir þú þá drýgja syndir þær, í svo heiðvyrðra vitna nærveru, sem gjøra þig að viðbjóð í þeirra augum? æ! umflýðu þær lystisemdir, sem of-mjøg inntaka þitt hjarta; flýðu þá staði, hvar Guð og Jesús kann ekki nálægur að vera með sinni náð. Gjørðu þér ómak, fyrir Guðs anda krapt, að slíta þau fjøtur og hlekki, sem halda þér faungudum í lastanna valdi. Leitaðu einveru þeirrar, sem þér var hingað til svo gleðisnauð, því lengur, sem þú venur þig til einveru, þess ábatasamara er það hjarta þínu, þú lærir þar með þá kunst, að vera ánægður fyrir utan háreystis gleði-soll, og ánægður einmana, án afvegaleið-

andi vina félags; þá muntu fyrst fá þeckt þíns egin hjarta sanna ásigkomulag, sem þér var hulid á medan lifdir í heimsins gjálífa solli. Pétur huldi høfud sitt af blygdun og ángri yfir drýgdri synd, þegar hann géck út frá þeim vonda solli; nú var honum horfid sjálfbyrgíngs oftraustid á sínum egin kroptum, sem hann stóladi uppá ádur, þegar hann vogadi ad segja vid Jesúm: Herra! eg er reidubúinn ad gánga í fángelsi, já, í daudann sjálfann med þér; nú hélt hann ad sérhvør, sem fengi sig augum litid, mundi brixla sér, hverr rádvandur madur mundi nú kasta forakti á sig. Æ! hversu mikid brestur oss á ad vera þannig sinnadir; máské vér séum svo lángt komnir á lastanna vegi, ad vér drýgt gétum stórsyndir blygdunarlaust fyrir utan allt ángur og trega. Máské vér jafnvel ecki rodnum framar vid, þá vér tølum hádyrdi, klám, baktal edur heyrum hvílíkt skammarlegt tal af ødrum. Maské vér leitum vorrar æru í því, ad vera hér í sinnadir, sem fordjarfadur almenníngur, og þó vér séum enn ecki ordnir svo bligdunarlausir í lastanna æfíngu, megum vér

þó medkénna oss stór-syndara á móti Gudi. Ad sönnu leidumst vér til blygdunar yfir brestum vorum, þegar samvitskan, edur trúr vinur, minnir oss á þau, en því eru þau oss þá svo kjær og ástfólgin? ó! Gud! þú þeckir vora vangrt, audmýktu vor hjörtu, og haldtu oss vid þig stödugum! Pétri, sem híngad til syndist hugsunarlaus um þann sálar voda, hann steypti sér í, og tilfinníngarlaus vid qvalir þær, sem Jesús leid, brá svo vid Jesú tillit, ad hann ecki einúngis géck út úr þessum þræla hópi, heldur grét beisklega; þettad var sú fyrsta hægd, sem hans særda hjarta gat fengid; en þad var og hin fyrsta verkan þess guddóms kraptar, er samfara var Jesú augna tilliti. Hjarta Péturs var enn ecki forherdt ordid á móti samvitskunnar brixlyrdum, hann fann stærd syndar sinnar, sem olli honum óþolandi sálar órósemi, en fann léttir í ad úthella bitru táraflódi; ecki sídur höfum vér orsök til ad gráta biturlega vor afbrot. Gud verndi oss frá því ástandi ad verda tilfinníngarlausir, þá vér yfirvegum fjölda og stærd vorra synda! hann verndi oss frá ad kjætast nockurn-

tíma af því ad oss luckast ad syndga! hverr, sem ecki finnur efni til ad ángrast yfir syndum sínum, hann fær heldur ecki gladst af því, ad vita sig til nádar tekinn. Gledja má þad oss, ad vér erum enn þá ecki svo forherdtir. Hugleidíng vorra synda og þeirra písla, sem Jesús fyrir þær leid, vekur nú, þegar vér vyrdum þettad fyrir oss, trega í hjarta voru, og pressar oss tár af augum, en — hversu skjótt eru ecki þessi tár þornud og med þeim horfin sú einlægasta ydran og besti ásetníngur? Varanlegri var sú verkan, sem Péturs ydrunar tár høfdu, varla munu þau þornad hafa ad fullu, hans líf var þadan af sífeld ydran. Hafi hans elska verid veik þegar hann afneitadi Jesú, hversu sterk, hversu ákøf og brennandi var hún þá ecki sídarmeir, þegar Jesús spurdi hann: Símon! elskar þú mig? já, Herra! sagdi hann, þú veitst alla hluti, þú veitst ad eg elska þig. Í þetta sinn afneitadi hann Jesú fyrir hans óvina augsýn, en hversu hugdjarfur medkénndi hann þá ecki Jesúm sídan, ecki fyrir litlum hópi, heldur fyrir mørgum þúsundum hans mótstandara? þó ad hann flýdi nú frá

dómstóli hinna ránglátu, med hvílíkri gledi lét hann sig ecki sídan færa frá einum dómstóli til annars, frá einu landi til annars, og til skiptis leida fyrir Gydínga og Rómverja rétt? þó ad hann hafi nú verid of hugdeigur til ad útgéfa lífid fyrir Jesúm, med hvílíkri gledi gaf hann sig ecki sídan í daudann fyrir hans nafn, og mundi þúsundsinnum hafa gengid med honum í daudann? ó! ad vor ydran, vort ángur og tár, hefdu eins varanlega verkun! ó! ad vér, sem híngad til høfum Jesúm svo lítils aktad, mættum hér eptir elska hann því heitara, og verda honum því fastara áhángandi! en hvad megna þessar vorar óskir? Jesú! þinn almáttugi kraptur beygi oss til ad framqvæma hann! Þú, sem ecki útskúfadir þínum Pétri, þegar hann grátandi leitadi nádar; medaumkunarsami, nádarríki Lausnari! láttu oss og finna þitt andlit, þegar vort hjarta úthellir tárum og kløgunum fyrir þér! styrk oss í þeim ásetníngi, ad offra þér oss, og eins og vér híngad til verid høfum heimsins eign, syndarinnar þjónar og offur vorra fýsna, svo láttu oss hér eptir vera

þína eign, þína þjóna og þitt offur, og það um alla eilífð!

# 17. Föstu-Hugvekja.

Guðdómur þess líðanda Jesú, Lúk. 22.

Því framar, sem vér sannfærumst þar um, að sá píndi Jesús sé hinn sanni, eilífi Guð, því betur styrkist vor trú um Jesú mátt og náð til að fá oss hólpna gjört. Jesús sætti því hentuga tækifæri við hvert hann fengi géfið sínum óvinum vitni hverr hann væri. Híngað til hafði hann þagað til allra spurnínga, sem honum vóru gjørðar, hann þoldi án møglunar alla misþyrmíngu, sem við hann var í frammi høfð, en þegar til þess kom, að hann vitna skyldi um sitt meðalgángara embætti, og sinn guðdóm, þá talaði hann með allri djørfúng og alvørugéfni; hann gaf sínum óvinum klárlega til kynna, að almættis hans og hátignar opinberan, skyldi innan skamms byrja, þá nefnilega, er heilagur Andi yrði sýnilega úthelltur, og hans reiði-dómur yfir Jerúsalem framkjæmi. Og hvað mátti sanna Jesú guðdóm framar enn uppfylling þessa spádóms, sem skeði að fáum vikum liðn-

um, og þegar sá fyrirsagði hegníngar tími kom yfir Jerúsalem, vóru enn þá margir þeirra lifandi og nálægir, sem nú heyrðu hans orð. Vér finnum ecki einúngis þessa, heldur miklu fleiri órækar røksemdir Jesú Guðdóms, jafnvel í hans djúpustu niðurlægíngu. Fyrirfram vissi hann hverr sig mundi svíkja; hann fyrirsagði tímann, nær Pétur mundi afneita sér; með einu orði varpaði hann óvinum sínum til jarðar; hann gjørði kraptaverk í sama bili, er hann var til fánga tekinn; hann feck, með augna tilliti einu, fallinn Pétur vakinn til umvendunar; hann sannaði af krossinum, að það stóð í hans valdi, að taka syndara til náðar, og þegar hann var niðurstíginn á lægstu niðurlægíngar trøppu, og leið dauðann, hversu dýrðlega varð hann þá ecki, eins og Guðs Sonur auglýstur? sólin sortnar, jørðin skélfur, grafirnar opnast, allt verður samfara til að opinbera þessa deyandi Hátign. Hversu kroptugar hugganir finnum vér ecki í øllu þessu? vér sjáum að Guðdómurinn styrkt hefir þá líðandi manndómlegu náttúru vors Frelsara, svo hún fengi stadist og bor-

id þær píslir, sem hann hlaut að líða til að frelsa mannkynið. Vér sjáum nú, að vors Lausnara píslir hafa ómælilega mikið gyldi, og nú fær fyrst Jesu pína og dauði í vorum augum sitt fulla verð; nú er það auðsjeð, hversu það, sem Jesús leið, lángt yfirgengur það, sem allir hans Píslarvottar síðan líða máttu; mundi vor Jesús, einúngis fyrir þá skuld, hafa útstaðið svo margfaldar píslir og svo smánarlegann dauða, að vér í honum hafa mættum dæmi oss til eptirbreytíngar í vorum þjáníngum og í vorum dauða? skyldi hann einúngis hafa þessvegna liðið, þá fáum vér ecki skilið hvers vegna Sonur Guðs var eginlega þar til valinn? og til hvers mátti þetta dygdanna ypparsta munstur nota oss, ef vér ecki ásamt þeðum fengið krapta til að líkjast því? Nei, vér erum vissir þar um, að Jesú pína er af óendanlega æðra verði; vér sjáum í vors líðanda Jesú persónu, ecki einúngis trúarinnar Píslarvott, heldur og hennar høfund og hetju, og í hverju fótmáli, sem hann framgengur á sínum píslarvegi, ecki einúngis munstur, heldur og offur

fyrir syndugt mannkyn. Þad má í einu ordi segja: ad vér finnum sameinad í Jesú Píslarsögu vorrar trúar og sida-lærdóm, í Jesú persónu vorn Frelsara, og í vorum Frelsara vorn Gud. Jesú daudi, hvílíkur daudi, og þad fyrir oss! ad vera Gud en verda madur til þess, ad géta lidid óendanlega mikid, verda hinn vanvyrdtasti og lítilmótlegasti á medal manna; sveitast blódugum sveita í Gethsemani í strídi vid daudann; hrópa á krossinum: Gud minn! Gud minn! því hefir þú yfirgéfid mig? og loksins deya fyrir þverbrotnar manneskjur, fyrir upphlaups menn, fyrir oss, hvílíkur daudi er þetta? þannig dó enginn Stephán, enginn Jakob, enginn Páll. Ef vér yfirvegum Jesú Píslarsögu med réttu hugarfari, er þad ómögulegt ad vér fáum hana lesid edur um hana þenkt án þess, ad vekjast til undrunar, medlídunar, trúar, kjærleika, þakklætis og eptirbreytíngar. Med hversu brennandi kjærleika ættum vér ecki ad elska vorn Lausnara, sem svipti sig þeirri hátign og fögnudi, er hann hafdi hjá Födur sínum, til ad fá oss fríada frá þeim eymdum, sem syndin

steypti oss í! hvernig kann þacklæti vort ad verda nógu brennandi, þegar vér yfirvegum þá eilífu sælu, sem vér egum vorum Medalgángara ad þacka. Æ! vort óþackláta hjarta, sem enn þá elskar oflítid þann, sem oss hefir elskad allt til daudans! hrær þú, ó Jesú! med þíns Anda krapti, vort kalda hjarta, ad í því upptendrast mætti brennandi elska til þín, af þínum guddómlega kjærleiks eldi! lát oss æfinlega standa stöduga í trúnni á þig, þar ed þú hefir med þínum frívilјuga dauda afrekad oss óendanlega sælu!

## 18. Føstu-Hugvekja.

Tilgángur Guds ad afhenda Jesúm í Heidíngjanna hendur, Jóh. 18.

Jesú Krists Píslarsaga er partur af søgu um Guddómsins huldu stjórnun, og mætti hún þó heldur heita: samansøfnun undrunarverdustu adburda, sem nockurntíma hafa á jørdunni vidborid. Jafnvel þó Guds heilagleiki leyfdi ecki, ad hann med nockru móti styrkti mannanna vondsku til síns Sonar lífláts, er hitt þó óneitanlegt, ad vér í sérhverjum parti Jesú

þínu, fáum ad sjá augljósust røk um guddómlega forsjón. Það var Guds forsjónar verk ad framqvæma það, sem hann hafdi álýktad yfir Jesú, einúngis med því ad líða og leyfa athøfnum manna frjálsann gáng, og sameina undrunarlega adskiljanleg tilfelli; sem sýnduft ské af eintómri hendíngu. Það var verkan Guds forsjónar, ad leida flárædi Gydínganna, sem afhendti Jesúm í Heidíngjanna hendur, ad þeim tilgángi, sem útkrafdist til framqvæmdar þessu mikla forlíkunarverki. Í þessu efni høndludu Gydíngar eptir rádi síns spillta hjarta. Þeir vildu med Jesú afhendíngu til Heidíngja, velta fólksins fjandskap uppá Rómverja og olla honum þvílíks dauda-straffs, sem gjøra mátti hann ad viðbjód í alls Gydíngalýds augum. Þessi vondi ásetníngur luckadist þeim, en það, sem hér af flaut, var komid undir stjórnun ædra vísdóms, þeir hugsudu íllt, en Gud hugsadi það til ens góda. Án þess ad skérda í nockru hans heilagleika, var Guds fyrifram ákvardada rád, ad Jesús afhendast skyldi í Heidíngja hendur. Hefdi Jesús dáid undir Gyd-

ínga-lýds höndum, þá hefdi fregnin um dauda hans, ecki svo audveldlega út borist til enna heidnu landa, heldur hvílst einúngis innann takmarka Gydíngalands. Rómverjar og Grickjar hefdu þá traudlega fengid fregnir þar um; en af því Jesús var af dögum rádinn af Gydíngum og Rómverjum sameginlega, hlaut fregnin um hans dauda því kunnari og útbreiddari ad verda, jafnvel á medal þeirra þjóda, sem í engu sambandi stódu vid Gydínga. Fregnin um krossfestann Kraptaverka-gjørara, opnadi þegar veginn fyrir kristnibodinu ádur enn Postularnir gátu komist til enna heidnu landa. Margir, sem heyrdu þennann atburd, urdu þar vid leiddir til gódra þánka um Jesúm, ad minnsta kosti hrærdir til medaumkunar vid hann, og nú kunnu Jesú vitni, þegar þeir bodudu vorn krossfesta Frelsara, ad skírskota hér til, svo sem þess efnis, er bædi Gydíngum og Heidíngjum mætti alkunnugt vera. Þeir gátu nú bodad Jesúm hinn krossfesta hverjutveggju þjódinni, sem þeirra Frelsara, þar hverjirtveggja þessara lýda höfdu hjálp-

ast ad Jesú líflàti. Hefdi hann dáid undir Gydínganna höndum, þá hefdi hann ecki lidid krossins dauda, sem einúngis var dauda straff á medal Rómverja. En — Jesus átti eginlega, eptir Guds áqvardada rádi, ad lída þetta líflát, í hverju sameinud var yfrid stór þáding hinum allrabitrustu qvölum. Ad sönnu hefdi hans daudi mátt forlíka, þó hann hefdi verid háls-höggvinn, sem Jóhannes Skírari, ell-egar grýttur eins og Stephán, en hversu gátu þá fyrirmindanirnar uppfyllst, sem Jesús sjálfur þýddi uppá sinn dauddaga? hversu gat Davids spádómur þá rætst, þar hann svo mörgum hundrud árum ádur spád hafdi: ad Heidíngjarnir mundu setja sig upp á móti Messíasi, og saman-safnast í hópatali, ad menn mundu í gégnumstínga hans hendur og fætur, og kasta hlutkesti um klædi hans. Einúngis af þeirri orsök var þad naudsynlegt, ad Jesús lidi krossins dauda, og dæi því undir Heidíngja höndum; en vid nágvæmari eptirþánka lærum vér ad þeckja enn þá annann tilgáng Guds, því hann lét Jesúm þenna dauddaga líða. Frelsarans

dáudi átti ad vera þvílíkur, ad hann deyandi, væri sem hádúng og adhlát-
ur fyrir allra augum; þad átti ad vera þvílíkur daud-dagi, hvar vid hann úthellti sínu blódi, hvar vid hann yrdi bølvan fyrir oss, hvar vid enginn hans lima mætti sundurbrjót-
ast, og hvar vid hann í tali sínu og gjørvallri medferd, gæti meddellt dýr-
mætustu lærdóma og øbluguftu hugg-
anir. Allt þetta gat audveldast sked vid krossins dauda. Í djúpustu aud-
mýkt tilbidjum vér, ó alvísi Gud! þitt rád, sem í sérhverju atviki vors Jesú pínu, sannfærir oss kroptuglega þar um, ad þinn vísdómur hefir sig-
ur unnid yfir øllum þeirra ógudlegu rádsløgunum, og framqvæmt hid mikla verk, fyrir hvert heimurinn skyldi frelsast. Hversu dýrmæt má ecki sála vor vera í þínum augum, þar þú svo mikid gjört hefir henni til frelsis? en þú hefir med því einnig sýnt mikil-
leik þinnar speki og gædsku; þessa gædsku þína vill ecki heimurinn þeck-
ja, þitt alvísa rád er honum heimska, og Jesú kross hneixli. Í vorum aug-
um eru þínar rádagjørdir, tilbeidslu-
verdasti vísdómur; Jesú kross er oss

verduguſt viðurkénníng, vor æra og vor trú; þó að heimurinn ráðſlagi á móti þér og þínum ſmurða, mun hann þó, án ſinnar vitundar, já, jafnvel á móti vilja ſínum, neyðaſt til að framgvæma þitt ráð; mikli Guð! hverſu huggunar-ríkur er ecki þeſsi ſannleiki fyrir oſs, í þeſsa lífs umbreytíngum? eckért gétur oſs í heiminum mætt, nema hvað hinn alvíſi hefir frá eilífð fyrirſjeð; þegar vér trúum á Jeſúm og elſkum hann, þá mun allt, jafnvel hið íllgjarnaſta vélræði, ſem menn höfðu á móti oſs uppſpunnið, hljóta að þéna oſs til beſta, hann mun og reynaſt nógu máttugur til framgvæmdar ſínu ályktaða ráði með oſs; hverjar hindranir, ſem mæta kynnu, það baktal, ſem óvinir vorir vilja fella oſs með, mun upphefja oſs; háð-yrði þau, með hverjum þeir ſpotta oſs, munu falla til baka á ſjálfa þá; óróſemin, hverrar þeir vilja oſs olla, mun efla vora lucku, og þó að þeir ſvipti oſs lífinu, mun þó dauðinn opna oſs inngaungu í betra líf. Þeſs höfum vér einúngis að gæta, að hjarta vort ſé ſinnað, ſem Jeſús var ſinnaður, í öllum þeim þjáníngum ſem oſs mæta.

Sífeldt hljótum vér ad vardveita sama trúnadar-traust, vera svo undirgéfnir og hlýdnir Gudi, sem vor Jesús var, og varast ad olla oss samvitsku áklogúnar, þá gétum vér óskelfdir mætt ollu, hverju helst, sem ad høndum ber, þá megum vér vera þess fulltrúa, ad allar ráds álvktanir vors Guds, munu loksins endast med nád og vegsemd, því séum vér honum trúir, heldur hann í vora hægri hønd, leidir oss eptir sínu rádi, og medtekur oss sídan til æru.

## 19. Fostu-Hugvekja.

Jesú sakleysi sannad af hans óvina sakargiftum. Lúk. 23.

Híngad til hofdu Jesú óvinir framfært þær sakargiftir honum á móti, sem í einfaldra augum máttu bera nockurt sannleiks skin, en þegar þeir féingu þad nú reynt, hversu gagnlaus þeim vard þvílík vidleitni, blygdudust þeir ecki vid ad uppdikta opinbera lýgi, Jesú til áfellis. Þeir dyrfdust ad ljúga uppá Jesúm þvílíkum sakargiftum, sem ollum var audsætt ad ósannar vóru, því hver lýgi var ótrúlegri enn sú, ad hann

skyldi hafa fráſnúid fólkinu, og vil-
jad æſa upphlaup, hann, ſem einkis
leitadi framar, enn ſtilla til fridar og
róſemi, og flúdi úr höndum alþýdunn-
ar, þá fólkid vildi hafa gjørt hann ad
Kóngi? á medal þeirra mørgu á hver-
jum hann ſýnt hafdi ſín dáſemdar verk,
hafa efalauſt nockrir verid ſvo þacklát-
lega ſinnadir, ad þeir viljugir hefdu
umbunad honum þegna velgjørnínga,
med hverju helſt í þeirra valdi ſtód,
en vér finnum þeſs hvergi rok, ad
hann þád hafi edur þyggja viljad
minnſtu umbun edur ávinning fyrir
ſín mildiríku kjærleiks verk. Aldrei
leitadi hann med þeim egin fórdildar
edur ábata, hann vildi heldur lifa í
forakti og fátækt enn ſýna minnſta egin-
girnis ſkin, í gódgjørdum ſínum. Á
hvada røkum byggdud þér þá, íll-
gjørnu Gydíngar! ad Jeſús hefdi
uppæſt lýdinn? hvar hafdi hann
nockurntíma þá kénníngu framfært,
ſem gjæfi hid allra minnſta ſkin til
þeſsarar ſakargiftar? af hverjum hans
lífs athøfnum fæſt þad í gátu leidt,
ad hans fyrirtæki væri þvílíkt; optar
enn eitt ſinn hafnadi hann þeim vøld-
um, ſem alþýdan vildi heſja hann til;

hefdi honum verid annt um, ad fá sér flock alþýdu til fylgis, var þad audunnid, því fólkid, sem eins undradi hans kénníngu og kraptaverk, var honum yfrid fylgisamt, og hversu fúslega mundu ecki þeir sjúku, fátæku og fyrirlitnu hafa tekid hans málstad, og styrkt hans fyrirtæki, hefdu þeir þess varir ordid, ad hann vildi gjøra uppreist nockra í landinu? eda því var nú lýdur þessi, annars svo nýúnga- og upphlaups-gjarn, svo afskiptalaus, þá foríngi þeirra var til fánga tekinn? audsætt er því sérhverjum hversu átyllulaus þessi uppljóstur var. Ecki ad sídur svo blygdunarlaus og íllgjarn, sem þessi sakargift var, bættu þeir annari lýgilegri vid: Jesús hefir —segja þeir— bannad ad borga Keisaranum skatt. Sá er eginlegleiki hins forherdta og blindada, ad hann loks nær þeim framførum í løstunum, ad eckért fær framar minnstu verkun hjá honum gjørt; þar til útkrafdist þvílík mannvondska, sem hjá Jesú fjandmønnum var nóg fyrir, ad kunna án blygdunar, án hugarhrellíngar, já, án tilfinníngar hlada einni ódygd ofan á adra. Í fyrstu þá menn villast á

lastanna vegi, gjörir samvitskunnar áklagan þá stundum órólega, en þegar þeir taka ad æfast í løstunum, þagnar samvitskan, þeir drýgja þá hvørn glæpinn ødrum stærri, án minnstu hjartans blygdunar. Þannig var nú Jesú óvinum varid; þeir upplugu þessari sakargift honnm á móti, sem ecki hafdi minnsta sanuleiks skin, því ecki nema fyrir tveimur døgum hafdi Jesús gefid Pharísæanna og Heródesar þénurum gagnstædann úrskurd því, sem þeir nú frambáru. Uppá spurnínguna: hvert rétt væri ad géfa Keisaranum skatt? hafdi hann svarad þeim: géfid Keisaranum þad Keisarans er, og þad Gudi, sem Guds er, en svífdust þó ecki nú ad frambera þad, sem gagnstædt var Jesú ordum, og gjøra þenna lýgi-áburd ad dauda søk. En í hvílíkri birtu skín hér ecki vors Freisara guddómlega sakleysi! svo vanvyrdandi og vondskufull sem hans óvina lastmæli vóru, er þó eckért þeirra, sem nidri hans heilaga líferni; þeir hefdu víst ecki þagnad um hinn minnsta brest, sem fleckad hefdi hans líf, nú þá þeir leitudu alls þess, er honum mætti ad áfelli-verda, heldur fagn=

andi valid til sérhverja jafnvel ógætnis yfirsjón, sem í Jesú fari hefdi verid finnanleg, og fært honum til áfellis; en Jesú hreina og flecklausa líferni neyddi þá til ad grípa til lýginnar, og grunda á lognum lastmælum hans dauda dóm. Hvílíkann ypparsta Prest skyldum vér hafa, sem væri heilagur, saklaus, ófleckadur og fráskilinn syndurunum, ef ad vér fríast ættum frá vorri skuld. Sá Medalgángari, sem géck í borgun fyrir oss, mátti ecki fleckadur vera af nockurri synd, ef vér skyldum standast fyrir Guds dómi. O! hversu gledjum vér oss vid þitt sakleysi, vor lídandi Lausnari! í eilífa örvýlnun hefdum vér ordid ad falla, ef vér hefdum ecki þá huggun, þegar samvitskan áklagar oss, ad þú ert saklaus fundinn fyrir Gudi og mönnum.

## 20. Föstu-Hugvekja.

Svikarans Júdasar óluckulegu æfilok, Matth. 27.

Þar stód sá óluckulegi Júdas, kominn fram ad þeim afgrunns hyl, sem táldragandi fýsna villa hafdi fært hann, án þess hann gætti sín; þar stód hann, sviptur allri hugar rósemi; hann sá afgrunnsins botnlausa djúp

undir fótum sér, gékk fáein fótmál til baka aptur, nálægdist hann á ný og nidurvarpadi sér í hann fullur ørvæntíngar. Já, ørvæntíngarfullur! ó! hverr fær skilid, hverr hugleidt fulla þýdíngu þessa óttalega ords? hverr fær útmálad allar þær ógnanir, sem í því ordi liggja fólgnar, án þess sjálfur ad hafa reynt ørvæntíngarinnar pínu? og hverr fær þá pínu reynt, án þess ad gánga til grunna undir hennar byrdi, eins og þessi blindadi syndari? í hvílíka ólucku steypir syndin! þad er fyrsti lærdómurinn, sem þessa ørvýlnada dæmi gefur oss. Þegar Júdasi kom fyrst í hug þad gudlausa verk, er hann sídan framdi, þá var hans hjarta svo blindad, ad hann fékk ecki sjed þá ólucku, sem fljóta mundi af hans synd, hann leit ecki lengra, enn til hinna vesælu nota, sem hann vænti sér af því ad eignast fáeina penínga; hann hugleiddi ecki þá samvitsku ángist, sem uppfylla mundi hjarta hans, þegar hann framqvæmt hefdi misgjørníng sinn, ecki heldur kom honum í hug stærd syndar sinnar, þá hann fyrir skammarlegs ávinníngs sakir, vildi gjørast svikari Meist-

ara síns og mordíngi síns Velgjörara, og mátti þannig útslétta alla þacklætis, trúskapar og ráðvendnis tilfinníngu úr hjarta sínu. Þannig gengur það drýckjumanninum, hann hugleidir ecki, í hvílíkann háska hann, í dryckjuskapar ædinu, muni steypa sér vid hvert fótmálid, sem hann framgengur; hann hrædist ecki þann afgrunn sem hann fetar ad; hann aktar ad engu varhygdar advaranir; en hvílík ángist má hann ecki yfirfalla, þegar hann aptur raknadur úr rotinu, verdur þess var, hversu mikil sú hætta var, sem hann hafdi steypt sér í, þegar hann sjer þá vanvyrdu, sem á hann er fallinn, og eymd þá, sem hann er kominn í, án þess neinn fái hjálpad honum. Í hvílíku ásigkomulagi var Júdas staddur, þegar samvitskan vaknadi og endadi ædi hans óstýrilátu girnda. Nú setur hann sér fyrir sjónir misgjörníng sinn svo vidbjódslegann, sem hann raunar var, hverr einn þánki, sem hann rennir til sjálfs síns, fyllir hann blygdunar, ángistar og nagandi órósemi. Nú vidurkennir hann, þá skammarlegu orsök, sem tálbróg hann til þessa svikrædis, þá

litilsverdu þrjátíu Silfurpeníngá, fyrir hverja hann seldi Meistara sinn, og nú þegar hann sjer Jesúm til dauda dæmdann, þenkir hann til sinnar fordæmíngar, er hann vænta má á þeim mikla Dómsdegi fyrir Engla og manna augsýn. Í hvílíkri þánkanna ángistarsamri óróseni vyrdist honum, sem hann þegar sjái þann af sér forrádna Jesúm í sinni dýrd, sem Dómara sinn, rétt eins og hann heyrdi nú þegar þá þrumu rødd, sem vísadi honum til ens eilífa elds; eins og hann þegar staddur væri á medal stallbrædra sinna á þeim stad, hvar allar píslir umkríngja hina fordæmdu. Til ad fríast frá þessum pínandi haunkum og stytta ángist sína, til hvers grípur þá þessi blindadi? hann tekur fyrir sig verk, sem snýr hans hugar ímindun til reynslu þess, er hann ímindadi sér, og gjørir qvøl hans óendanlega, hann gengur burt og hengir sjálfann sig. Svo ofbodslegur má þeirrar manneskju daudi verda, hverrar líf var svo vidbjódslegt! en til þess krefst ecki þvílík vondska og forherdíng, sem hjá Júdasi var, ad deyja í ørvylnun. Sérhver synd, svo lítils jafnvel, sem hún

er øktud, fær ofs leidda ad þeim ógnar=
lega afgrunni, í hvern svikarinn Jú=
das er fallinn. Sú synd, sem ofs
vyrdist eins og lítilfjørlegt sand=korn,
á medan samvitskan liggur í dái, kann,
þegar hún loksins vaknar, ad þryckja
ofs, sem bjarg, og tortýna ofs undir
sínum þúnga. Nú er þad máské í
vorum augum léttvæg sök, ad mis=
þyrma hinum saklausa, ad draga eck=
jur og føðurlausa med ránglæti á tál=
ar, ad setja til sídu þá skyldu, er vér
audsýna egum foreldrum og yfirbodur=
um, en munum vér og svo þannig
dæma, þegar daudinn er ad ofs kom=
inn? já! svørum vér, komi hann til
mín, þegar hann koma vill! setji mín
samvitska mér fyrir sjónir stærd og
fjølda minna synda, eg skal þó ecki,
sem Júdas, falla í ørvýlnun. Med
sannri ydrun og ángri vil eg sætta
mig vid Gud, og þar med gjøra mína
samvitsku rólega. En, syndari! þú,
sem leitast vid ad hughreysta þig med
þessari huggun, þú gætir þess máské
ecki, hversu ángurfullt og nidurbeygt
þins ørvýlnada Júdasar hjarta var,
hvernig hann leitadi allra þeirra med=
ala, sem hann vænti nockrar hægdar

cf, sínu ángistar-fulla hjarta, hann var víst ecki svo rólegur, sem margur hverr syndari er, eptir drygdann misgjørníng; hann fann til hins allra stærsta vidbjóds fyrir sjálfum sér, og sínu vondsku verki; blygdun, ángist og hatur til syndar sinnar, var hjá honum samfara þúngsinni og hjartans sárri hrygd. Hann þeckti misgjørníng sinn, og skammadist sín ecki ad vidurkénna hann fyrir þeim, er vidurkénníng þessi mátti vera hin ógédfeldasta. Hann géck til hinna yppurstu Presta, og snaradi blódpeníngunum fyrir fætur þeim, hann leitadi huggunar hjá þeim, og meinti ad finna nockra hægd hjarta sínu, þá hann med þessu móti fríadi sig frá nockru af þeirri byrdi, er á honum lá; en allt þetta gat ecki læknad hans særdu samvitsku, eckért linad þá qvøl, sem endurminníng hans vondsku olli honum, eckért frelsad hann frá sinni ørvýlnun. Reyndu sjálfur, ó syndari! ad finna rósemi í bitru hugar ángri og trega, þá sál þín er særd og slegin. Úthelltu táraflódi! láttu blygdun og vanvyrdu beygja þig til jardar, hvad ávinnur þú med því? þad fer svo fjærri,

ad hjarta þitt fái við það minnstu rósemi, en má miklu framar bresta þar við undir sinni egin qvøl. Leitaðú þér þá hægðar hjá þeim, er verið höfðu lagsmenn þínir í þínum drýgða misgjørníngi; ó! þeir sem svo grimmir vóru sjálfum sér, kunna ecki við þig að vera meðlíðunarsamir; þeir, sem sjálfir enga rósemi hafa, geta heldur enga rósemi veitt; þó að þú fyrir þeim uthellir bitru tára flóði, mundu þeir einnig máské svara þér: sjáðú þar fyrir! ó! vei þér! þegar þú ert einúngis kominn uppá þitt egið ráð! vei þér! þegar þín egin vernd á að frelsa þig frá fordjørfuninni! hér er ecki nema einn vegur eptir, sem fái þér hjálpað frá þinni óluckú. Láttú þitt ángur-pínda hjarta leita rósemi hjá þeim, sem úthellt hefir sínu blóði fyrir allar þínar syndir. Hefði Júdas með ángist og trega yfir sinni synd, nálægt sig Jesú, hvert mundi hann með minni hjartagæðsku hafa á móti honum tekið, enn á mótri Pétri, sem afsór hann? ó! Júdas! því skundaðir þú ecki til hans, sem þú hafðir með þínum misgjørníngi á móti brotið, heldur enn að gánga til

þinna grimmu skálka! fyrir honum skyldirdu úthellt hafa tárum, en ecki þeim, er þig hofdu táldregid; hann hefdi víst afþurkad þín tár. Fyrir hann áttir þú ad nidurleggja þad ydrunar offur, sem þínir óvinir forsmádu, æ! hann hefdi tekid á móti því med gledi; honum áttir þú ad játa þinn misgjørníng, hann hefdi fyrirgéfid þér allar þínar syndir, og hughreyst þitt ángistarfulla hjarta med sinni endurlausnar huggun. O! ad þessi huggan væri æ lifandi í vorri sálu, þegar vér enga rósemi fundid gétum, en vér med hjartans ángri minnumst vorra íllgjørda! lát oss þá, ó Jesú! ecki ad eins sjá stærd vorra synda, heldur ásamt stærd þinnar miskunar, sem hylji þær; þegar umþenkíng Guds réttlætis og heilagleika uppfyllir vort hjarta skélfandi blygdun, láttú þá íhugun þinnar miskunar aptur hughreysta þad. Ogni óss tilhugsan þeirrar fordæmíngar, sem vér med vorum syndum høfum verdskuldad, láttú þá oss í hug koma þad fullgylda lausnargjald, med hverju vér erum fridkeyptir frá eilífri fordjorfun!

# 21. Föstu-Hugvekja.

Jesú játníng fyrir Pílatusi, Jóh. 18.

Til eblíngar trúar vorrar og rósemi, er harla naudsynlegt ad þeckja þig, vor píndi Frelsari! ad vera Konúng, af hverjum vér med rétti vænta megum alls þess, er útkrefst til vorrar lucku og frelsis. Pínir eginn lærisveinar hefdu kannské traudlega þeckt þig undir þeirri stóru vanvyrdu, sem þú lída hlautst, þegar á þér var engin mind eda fegurd, þú varst sá foraktanlegasti og fyrirlitnasti, fullur pínu og kránkleika, svo foraktadur, ad menn huldu sitt andlit fyrir þér, sem fyrir þræl. Því var øll þörf, ad þú gjørdir játníngu um þína kónglegu hátign; og þó ad þessi játníng væri hjá Pílatusi ávaxtarlaus, er hún þad þó ecki fyrir oss. Oss er þad nærsta mikilsverdt, ad vér vitum: ad Jesús er Konúngur, hinn fyrirheitni Messías og heimsins Frelsari. Nú hverfa allar sannsýnilegar mótsagnir, sem vér híngad til sýndumst fundid hafa, þegar vér leitudum hans kónglegu hátignar. Oskiljanlegt var oss þad, hvernig Jesús kynni Konúngur vera, og þó svo for-

aktadur, svo skammarlega misþyrmdur, og svo djúpt niðurlæckadur; það var oss ógripanlegt, að Jesús, sem Konúngur, kynni hafa svo fáa þegna, og svo fáa af hinum ríku og mektugu, sem heita mættu þegnar hans; að Jesú skyldi gefin öll makt á himni og á jørðu, en að jarðarinnar Furstar deildu þó heimsins løndum og ríkjum á milli sín. Að vera Konúngur og vera þó svo foraktadur, sýnist vera sjálfu sér mótsegjandi; en nú upplýstist þetta myrkur; hann er Konúngur, en hans ríki er ecki af þessum heimi, hans ríki er sannleikans-ríki; vel sé oss, að Jesú ríki er ecki jarðneskt; nú høfum vér hugfróa, þó vér finnum hvørki vini, lucku né metorð í heiminum, heldur eymd, forakt og fátækt; nú skal það ecki villa oss, þó vér fáum ecki allt það, sem vér óskum oss, og vænum hér í lífi. Jesú ríki er ecki af þessum heimi; þessu ríki er øðruvísi háttað enn jarðarinnar Konúngs ríkjum; vér þurfum ecki við stórrar penínga summu, vér þurfum ecki að offra blóði voru né auðlegð, til að fá oss stað keyptann í þessu Konúngsríki; vér þurfum ecki að eydileggja oss sjálfa, til að auka veldi vors.

Kongungs; ecki þurfum vér ad óttast fyrir missir audæfa þeirra, sem vor Kóngur hefir oss í hendur fengid. Jesú ríki er ecki af þessum heimi; jardnesk ríki eru undirkostud vidvarandi biltingum, þeirra makt og prýdi varir skamma stund, en þetta ríki mun útbreida sín takmörk lángtum vídar, heldur enn tídin áqvardar jardneskra ríkja varanlegleika; þegar allir trónar og herradæmi uppbrennast, þegar Konúngar verda lítillæckadir og gjördir jafnir ølmusu-mønnum, þegar enginn á neitt þad, sem hann megi yfir drottna, þá byrjar fyrst vort ríki, þá munum vér upphefjast til ædstu tignar, og eiga alla hluti. Jesú ríki er ecki af þessum heimi. Þér dramblátu jardnesku Konúngar! stærid ydur ecki, þegar Jesú ríkis vinir standa fyrir ydrum dómstóli, þá vor Kóngur sjálfur má verda af ydur fordæmdur; hversu snøgglega munud þér ecki sviptir øllum ydar gérsemum, allri makt, øllum heims vyrdíngum? hversu brádum munud þér ecki standa frammi fyrir þeim fordæmda Jesú, og vér munum upphefjast vid hans hlid, þegar þér verdid fordæmdir til eilífrar

báðúngar. Jesú ríki er ecki af þessum heimi. Látum Kónga og kappa leita sér vegsemdar með inntöku landa og ríkja; látum þá auðmýkja hina hofmóðugu, og útbreiða ógnanir og fordjörfun í kríngum sig; vor Kóngur er allra manna velgjörari, hans hrósun er að gjöra vel, og að gjöra öll jarðarinnar lönd luckuleg; í hans ríki er óhult rósemi. Jesú ríki er ecki af þessum heimi. Þessi jörð með öllu hennar ríkidæmi og synilegu lucku, er of fátæk til að umbuna einum Jesú undirsáta; hvað er allt það, sem hún getur gefið oss, á móti því, sem vér væntum oss í hinum heimi. Um þetta gefur vor trú oss óræka fullvissu; en því högum vér oss þá ecki samsvarandi þessari trú? sé Jesú ríki, hvers undirsátar vér erum, ecki af þessum heimi, því er þá vort hjarta enn svo fast bundið við þessa jörð? því gjöra þá lítilvægar þjáníngar oss móðlausa? því hræðumst vér þá, sem deyða líkamann, en kunna ecki að lífláta sálina? því keppumst vér með svo störri laungun eptir ríkdómi heim, sem heimurinn máské býður oss? því skéifumst vér þá svo mjög fyrir dauðanum, dóm-

inum og eilífdinni? mundum vér þannig ad fara, værum vér þar um fulltrúa, ad Jesú ríki ecki væri af þessum heim? hverju egum vér, hverju getum vér til þessa svarad, án þess sjálfir ad blygdast? vér erum ecki áqvardadir fyrir þenna heim? vér vitum, ad hinn komandi heimur er sá, til hvers vér egum ad gjøra oss hæfa, hvern vér elska egum og meta øllu framar; en vort stundlega sinnada hjarta, svíptir trú vora krapti þeim, er hún sýna á; á þessu augnabliki fáum vér fundid, hversu yfrid veikt vort hjarta er; vér sjáum med hvílíkri djørfúng þú, ó! Jesú! vitnadir fyrir Pílatusar Dómstóli, þó ad þú víssir, ad sú játníng mundi olla þér nýrrar misþyrmíngar; þegar vér viljum heita þíns ríkis undirsátar, erum vér einnig skuldbundnir ad vidurkénna þig fyrir mønnum. Vér egum ætíd og allstadar ad vidurkénna þig, til hvers nafns vér skírdir erum, þig, sem géfid hefir oss sjálfann þig til egindóms, og í hvers ríki vér lifum. En hvad veika finnum vér oss ecki til æfíngar þessarar skyldu, ef vér yrdum krafdir til, ad strída fyrir Jesú ríki, ef einn dóm=

ari edur vantrúadur vildi spyrja oss, hvern í sinn stad: ertú einn af þess krossfesta Jesú undirsátum? mundum vér þá djørfúng hafa til ad svara: já! eg er hans þegn; eg er til þess fæddur og endurleystur, ad eg skuli bera vitni sannleikanum. Qvída megum vér því, ef svo ástædi, ad vér mundum fyrr øllu afneita, enn missa fyrir þá skuld lucku vora, metord edur líf; vér mundum álíta Kóngsins nád, hinna vísu sambycki, ellegar ábata-von nægilega umbun fyrir missir sálu vorrar. En þó ad vér fengum nú þetta skadlausa endurgjald um stundar-sakir, hvad mun þó þá af oss verda, þegar øll heimsins ríki og þeirra dýrd sýnast á dauda stundunni eins og eintómt dupt fyrir vorum augum? hvad fær þad notad oss, þó allar heimsins lystisemdir, fyrir hverra sakir vér afneitudum Jesú, uppfylltu vorn huga, vér yrdum þó brádlega leidir á þeim, og findum hversu léttvægar þær eru. O Jesú! svo dárlega megum vér aldrei breyta, ad meta heiminn meir enn himininn, veri þad oss øllum hlutum dýrmætara, ad vera undirsátar í þínu ríki, og hafa

þess vegna þá glødu von, ad inngánga í þitt dýrdar ríki, sem þú hefir oss afrekad.

## 22. Føstu-Hugvekja.

Jesú lídanir vid Heródesar Hof. Lúk. 23.

Med sama stoduglyndi og hjartans rósemi finnum vér Jesúm allstadar; samur er hann, hvert sem hann spottast af Heródesi og hoffólki hans í Kongshøllinni, ellegar á allann hátt þjakadur af gudlausum þrælum í Bískups-stofunni og Pílatusar Pínghúsi; vid øllu þessu tekur hann med þøgn og þolinmædi. Pad var ecki smá vanvyrda fyrir hann, ad þola hádyrdi og grimma medferd af jardneskum Kóngi, hvers skylda þad var, ad taka sakleysi í forsvar; en þessi medhøndlan skérdti ad engu Kongs tign hans, þvi hans ríki var ecki af þessum heimi. Jardarinnar Kóngar mega samankoma á móti Drottins smurda, sá alvaldi gjørir þeirra ráð ad engu. Þessara jardar guda hátign og veldi stendur tídum á svo voltum fæti, ad þess grundvelli er kollvelt fyrr enn menn vænta þess; en Jesú ríki hefir engann enda, og þess

takmørk skulu grundvallast vid hinar ytstu heims álfur. Enga skérdíngu gat því Jesú guddómlega Kóngs tign lídid af háduglegri vidhøndlun Heródesar, sem vøld sín hafdi þegid af Rómverja nád; ad engu gat hann mínkad veldi hans yfir endimørkum jardarinnar, sem hann frá eilífd hafdi ad arfleifd fengid. Engu ad sídur mátti þad þó vera Lausnara vorum nærsta sárt, ad vera hafdur til háduglegs atbláturs af þeim gudlausa Heródesi og hans vildarmønnum. Þessi sælliſi Konúngur hafdi fyri laungu gyrnst ad sjá Jesúm, og forvitni hans vard enn þá laungunarsamari eptir ad komast í nágvæmari kunníngsskap vid hann. Hann vard nærsta gladur vid tækifærid, ad sjá þennann svo nafnfræga og undrada Spámann, og þegar hann sá hann og fann þad ecki hjá honum, sem mettadi forvitni hans, þá blygdadist hann ecki, ad afhenda þann saklausa bundinn, sem hann engann rétt hafdi yfir, til síns hoffólks hædni og adhláturs. Heródesar adferd minnir oss á margra manna adferd, sem vidurkénna Jesúm af hégómlegum tilgángi, ellegar láta hjá sér sjá vantrú-

ar=blandna forvitni undir lofsverdrar fródleiks laungunar skini, ellegar, sem ofdjarflega vilja dæma um Guds almættis gjörnínga. Heródes og hans líkar, verdi oss til vidvørunar, hversu audveldlega vér af forvitni edur léttúd, leidast kunnum til ad forakta Jesúm, og falla þar vid í skadvæna vantrú; en munum vér þá halda þessari varúd sífeldt støđugri í hjarta voru? því er midur! vor egin sorgleg reynsla sannar þad, sem er þvert á móti. Eckért finnum vér óstødugra enn vort egid hjarta. Á einum tímanum unntum vér af øllu hjarta gudhrædslunnar sannleika, en hversu lengi varadi þad? skommu sídar var þetta góda hugar=far horfid, og vér vórum tilfinníngarlausir og kaldgédja ordnir vid gudhrædslu og allt þad gott er. Þad getur skéd, ad þeir, sem nú hæda Gud, og hans heiløgu trú med frekri léttúd og gudleysi, hafi í fyrstu efast um Evangelii sannleika, gefid sig til ad grufla hér í offrekt, framar af forvitni og drambsemi, enn af kjærleika til sannleikans, og smámsaman inntók léttúd og oflæti svo sálu þeirra, ad þeir mottu nú sinn eginn hugþótta

meir enn klárar røksemdir um sannleikann. Þessir skirrast ecki lengur vid, ad brúka Guds ord jafnvel til skammarlegrar skémtunar. Gud vardveiti oss frá hvílíkri léttúd og fásinnu, og varni oss heim vegum er þar til leida, hann styrki oss veika til ad vaka svo trúlega yfir oss, ad vér géfum oss aldrei sjálfir tilefni til svo háskasamlegrar villu. En hversu nágvæma varúd hljótum vér ecki hér til ad brúka, svo ad vér leidumst ecki af heimsins drottnandi lifnadar-máta til ad forakta vorn Lausnará og hans Evangelíum. Því midur! ecki einúngis í Kónganna høllum og í hinna voldugu slotum, heldur jafnvel og í hinna óædri hýbylum mundum vér finna, ef leitad væri, allt ofmarga, sem haga sér vid Jesú lærdóm, vidlíka og Heródes hér med sínu hoffólki vid Jesúm; og hversu varúdarsamlega megum vér þá ecki framgánga, ef vantrúin á ecki einnig ad festa rætur í hjarta voru. O! Drottinn! vardveit oss frá ad lockast til ens illa, en styrk oss til ad játa þig óttalaust fyrir heiminum þann þú ert, svo ecki þurfum á sídan blygdun ad mæta, þegar vér kalladir verdum fyrir þinn Dóm!

# 25. Föstu-Hugvekja.

Jesú umbýti vid Barabbam, Jóh. 18.

Sjálfum himninum má ógna þad, ad Ísrael drýgir nú tvöfalda synd; hann frelsar mordíngjann Barabbas frá daudanum, en selur hinn saklausa Jesúm í daudann. Hans líf, sem úthellt hafdi manna-blódi, fríast; en hinn, sem hafdi frelsad menn frá dauda, aflífast; þeir vilja íllvirkinn lifi, en hinn saklausi deyi. Þad er varla mögulegt ad íminda sér, hversu vidbjódsleg þessi gudlausa adferd var; því — ætíd er þad gudleysi ad leyfa og lída þad, ad hinn saklausi áreitist og mæti órétti; ætíd himinhrópandi synd, ad þeir, sem vera áttu sakleysisins vernd og forsvar, gjörist þess áklagendur. En — þegar mannvondskan er svo lángt komin, ad lög og réttur fóttrodast, einúngis til ad fá skadad hinn saklausa, og ad heldur skal unna löstunum enn forsvara dygdina, þad yfirgengur alla mannvondsku, en þannig höndludu þó Gydíngar vid hinn saklausa Jesúm. Þeir vóru jafnvel ecki ánægdir med þad, ad framselja hann undir allskonar misþyrmíngu,

og gjørast hans offsóknár-menn og á-klagendur, þeirra gudleysi géck enn þá lengra; þegar til þess kom, ad ann-adhvert skyldi gylda, ad ráda af døgum mordíngjann, edur þess mannlega kyns velgjørara, ad rydja af veginum Bar-abbas edur Jesú, hvad gjøra þeir þá? þeir gjøra þad, sem helvíti vildi hafa gjørt, til ad efla lastanna framgáng, en tálma dygdinni, þeir fríkenndu mordíngjann, en afhendtu hinn sak-lausa í daudann. Hverr fær nú út-málad edur í hug sér leidt, hvad Jesús hefir lída mátt undir þessari medferd? honum er samjafnad vid mordíngja, og endalokin sýndu þad, ad menn heldu hann hverjum mordíngja verri. Þad var ecki einúngis útvortis vanvyrda, sem mátti pína hann, hinn sárasti þánki hans mátti sá vera, ad hans fólk, hans egindóms fólk útskúfadi honum, og vildi hann ecki sem sáluhjálpara. Þrjú ár hafdi hann allri áhyggju og ómaki varid til ad leita tapadra sauda af húsi Israels; hann hafdi eydt kropt-um sínum í straungu erfidi fyrir þeirra velferd. Øll hans kraptaverk, lærdóm-ar og framferdi hans mátti sannfæra þá um hans ædri áqvørdun, ad minn-

fra kosti um sakleysi hans, en nú sýndi þad sig, ad hann hafdi forgéfins erfidad og forgéfins leitast vid ad frelsa þeirra sálir. Med hversu miklum óteljandi velgjørníngum hafdi hann ecki gjört sér sitt fólk skuldbundid? og þetta áttu nú ad vera launin fyrir hans velgjørdir og ómak, fyrir hans næturvøkur, hans mædusømu reisur og allt þad erfidi, sem hann hafdi uppátekid sér til hjálpar aumum; mátti þad ecki sárt særa sálu hans, ad sjá ad lýdur þessi, fyrir hvern hann hafdi útgéfid sig, var svo gleyminn alls þess góda, er hann hafdi gjørt honum, ad allir, svo ad segja, sem med einum munni óskudu dauda hans? engu ad sídur bar hann þó vanvyrdu þessa med ósigrandi þolinmædi; hann hugsadi ecki svo mjøg til óréttar þess, er óvinir hans gjørdu honum, sem til síns Fødurs vilja, eptir hverjum hann reiknast átti á medal íllgjørda manna. Hann hugsadi til gjørvalls mannkyns, hverjum þessi hans pína verda átti til forlíkunar, því þegar Jesús var útskúfadur af sínu egin fólki, bar hann þá skuld, sem á oss átti ad hvíla, svo ad vér þurfum nú ecki ad qvída útskúfun frá

Gudi. En vér fáum ecki skilist vid þennann sorglega part Jesú pínu, án þess ad taka af honum lærdóm fyrir vort egid hjarta. Af því, sem fram vid Jesúm kom, er oss audsætt almenníngs óstøduglyndi. Fólk þetta, sem fám døgum adur hrópadi: Hósíanna! til Jesú, og kepptist þá vid ad sýna honum vegsemd og heidur, hrópar nú fjøllunum hærra krossfestíngu yfir honum. Hversu skyldum vér þá treysta mega alþýdu lofi? hvernig megum vér þá vænta stødugrar hylli? í dag erum vér med lofi til himna hafdir, en á morgun med lastmælum eins nidurlæckadir. Og hversu rólegur má ecki hverr af oss vera, þegar vér erum oss sakleysis medvitandi? hversu ánægdir fáum vér ecki verid vid sérhverja mótsøgn, vid sérhver hádyrdi, allskyns vondsku og hreckja-brøgd, þegar vort egid hjarta gefur oss þad vitni, ad vér framgengid høfum med rádvendni fyri Gudi og mønnum? látum því svo vera, ad vér álitnir værum fyrir afhrak og hreinsun veraldar, og útskúfadir úr sambúdum manna, nægi þad oss þó, ad hafa gódrar samvitsku hrósun og vegsemd hjá Gudi, og vér

þeckjum fyrir utan þenna heim óhultann tilflugts stað, hvert vér flúið gétum, og þar í lifað eilífri rósemi. Þegar vér géfum gætur að heimsins dróttnandi áliti, finnum vér það ecki undrunar-verdt, að Gydíngar voldu svo dárlega á milli Jesú og Barabbasar. Heimsins börn hugsa enn vidlíkt, enn þá er synd og fýblíska meira metin enn Jesús; lífið og dauðinn, ljósið og myrkrið, frelsi og þrældómur, dygdir og lestir, eru mønnum af Guði til vals fyrilagdir, en hvernig velja menn þá almennt? burt með samvitsku, verður opt svarið, géf oss góts og peninga! burt með Guðs barna frelsi, géf oss syndarinnar hlecki! burt með Jesúm, géf oss vyrdíngar og vellyst! burt með himininn, géf oss heiminn! en hvernig høfum vér þá sjálfir valið? æ! svo lengi, sem vér elskudum heim þenna og holdlegar gyrndir, var oss það hægara að friða vorar tilhnegíngar, enn að taka uppá oss Kristí kross; skammvinn nautn vorra lystínga var oss lángtum kjærari, enn tilfinníng Jesú kjærleika; heimsins vísdómur var oss lángtum mikilvægari, enn Jesú krossvísdómur, æ! hversu aumir hefðum vér

ecki vérid, ef vér hefdum alltaf verid sjálfrádir í þessu vali? Þegar vér ecki útveljum Jesúm, útveljum vér vora egin ólucku! Þegar hann burtvíkur frá oss, víkur undir eins burt frá oss oll nád og blessan. Í hversu óútmálanlega ánaud og eymd féll ecki fólk þetta er med þvílíkum mótþróa hafdi útskúfad Jesú? Þeir vildu hafa bølvunina, og hún kom yfir þá og børn þeirra. Allt frá því augnabliki, er þeir úttalad høfdu þau skélfilegu ord, veik Jesús frá þeim med nád sinni, og í hans stad komu byrdarar til þessa forherdta fólks, er leiddu þad á villustigu, mordíngjar, sem eydiløgdu þad, og táldragarar, er flýttu þess undirgángi. O Jesú! lengur viljum vér ecki haga oss svó óvinsamlega í gégn þér, né vorri egin velferd. Vort val er fast áqvardad: burt med heiminn, hans syndir og lystisemdir, vér viljum eignast Jesúm og himininn; vér viljum sáluhólpnir verda.

## 24. Fostu-Hugvekja.

Gydínga skélfilega ósk yfir sjálfa sig, Matth. 27.

Aldrei hefir nockur ósk gjørd verid med þvílíkri brambsemi, samdrætti og

ákéfd, sem þeßi Gydínganna, erkrafdi Jesú blód yfir sig og born sín; ecki var hún framfærd af brádrædi í reidum girmdarhuga, heldur af illgirnis hatri og vondsku. Þetta blindada fólk mátti þeckja Jesú persónu og sinnislag, þad var sjónar-vottur ad Jesú flecklausa líferni. Opt hafdi þad heyrt þá gud-dómlegu lærdóma, sem hann framflutt hafdi, og sjed þau kraptaverk, er hann hafdi gjørt. Pílatus vardi ollu ómaki til optar enn eitt sinn, ad fá Jesúm fríadann, en þeirra hefndar-gjørnu og blód-þyrstu hjørtu urdu ecki frid-stillt, þeir hrópudu því ákafara: kroßfestú! kroßfestú hann! og þegar hinn heidni Dómari sagdi sig síkn-saka af þeß Réttláta blódi, hrópudu þeir: hans blód komi yfir oß, og yfir børn vor! þetta blód kom og yfir þá, og yfir born þeirra. Þeßi óttalega bølvan, svo stór hún ordid gat, féll yfir þeirra høfud. Sá gjørvalli lýdur, sem sam-ankominn var í Jerúsalem til Páska hátídarinnar, drýgdi þeßa himinhróp-andi synd, og Guds hefnd féll yfir hann á annari Páska-hátíd, þegar all-ir Gydíngar vóru samansafnadir í Jerúsalem, svo ad enginn þeirra féck

umflúid Rómverjanna sverd; þeirra misgjørníngur var, ad þeir útskúfudu þeim sanna Messíasi, og sídan var þad uppsprettan og tilefnid til allra þeirra eptirfylgjandi þreyngínga, ad þeir hvurfu aptur ad þeim, er falsklega gáfu sig út fyrir ad vera Messías. Med Jesú lífláti vildu þeir hafa hindrad, ad Rómverjar kæmu, og tæki frá þeim lønd og lýdi; og þetta sama, er þeir hindra vildu, kom yfir þá; Rómverjar komu og gjørdu þá ad þrælum. En vid þetta beid þó ecki gudleg hefnd, heldur fylgir hún þeim sídan um vídar heimsálfur, og nú, eptir ad þeir þegar meir enn 1800 ár, hafa landflótta farid, eru þeir í sérhverrar þjódar augum, sem vidvarandi og audsjáanlegt minnis teikn guddómlegrar hefndar. Gat nockur røksemd uppá Jesú guddóm og saklevsi ljósari verid og órækari, enn þessarar bølvunar óskar uppfyllíng ámordíngjum hans? hverr fær adra álýktun hér af dreigid enn þessa: engin þjód hefir nockurntíma frá heimsins byrjun þvílíku straffi sætt, sem þessi, sé þad satt, ad þjóda straff fljóti af þeirra syndum, þá mun þessi þjód hafa drýgt

svo viðbjóðslegann misgjörníng, hvers líka engin þjóð önnur hefir drýgt, og hvert glæpa verk fáum vér stærra tilnefnt enn Jesú blóðs úthellíngu. Þetta blóð, hvers skuld þá offækir, hefir saklaust blóð verið en einkis sakamanns, Guðs Sonar blóð, en ecki almennilegrar manneskju. Hversu óransakanlega sjáum vér ecki hér í vegu guddómlegrar forsjónar! vegna krossins hneixlis og margskonar lítilfjörlegra atvika við hans niðurlægíngu, létu spekíngar heimsins, þéir háu og voldugu, sér halda frá því, að taka trúna, en þessi fordómur ámóti kristindóminum var honum nær því til ávinníngs; þegar menn sáu Jesú morðíngja heimsókta með svo markverðu og óvenjulegu straffi, tóku menn til að viðurkénna þess krossfesta Jesú verðugleika, og hans písla óendanlegu forþénustu. En hvílíkann viðbjóð má ecki Gyðínga ólucka hjá oss vekja við þvílíkum glæpum, sem leiða reiði Guðs bæði yfir einstakar persónur, og gjörvöll lönd og lýði? hafi sú þjóð, sem Guði var kjærust á jörðunni, Guðs útvalda fólk, misst rétt til Guðs náðar og verndar vegna synda sinna, hvaða

fullvissu høfum vér þá um það, að oss ecki hitta muni sá sami dómur, ef vér forøktum og vanbrúkum hans náðar-veitíngar? kann ecki Guðs ríki, hvers vér gjørum oss óverðuga, frá oss að takast, og géfast því fólki, sem færir betri ávøxt? æ! eínginn af oss afneiti sínum Drottni, sem hann hefir endurkeypt; enginn af oss hafi hans krossfestíngu eða lærdóma að háði. Hafi Gyðíngar mætt svo ógnarlegum hefndum, hversu miklu harðara straffi mundu þá þeir kristnu qvíða mega, þegar þeir, þvert á móti þeckíngu sinni, troða Guðs Son undir fótunum, og halda sáttmálans blóð almennilegt, fyrir hvert þeir eru helgaðir? þú, vor guðdómlegi Meðalgángari! vertú oss blessaður! þú skalt eilíflega vera vor hrósan, vor gleði og huggan! eckért er hjá oss að finna nema vanmátt, óverðugleika og ørbyrgð, en nú høfum vér það, af hverju vér megum hrósa oss, það, að vér erum endurleystir með Guðs Sonar blóði; komi þetta blóð yfir oss, til betrunar oss og miskunar, til styrkleika og huggunar, og þó allrahelst þegar vér framkomum fyrir þinn dómstól! ó Jesú! lát þá

þíns blóðs minníngu endurnæra oss og þá trú, að vér fyrir það séum útvaldir til ens eilífa lífs.

## 25. Föstu-Hugvekja.

Jesú húðstroka. Matth. 27.

Væri það mögulegt, að englar úthellt gætu sorgar-og meðaumkunar-tárum, mátti það hafa skeð, þegar Syni Guðs, þeim saklausasta allra mannanna barna, var svo grimdarlega misþyrmt af guðlausustu skálkum. Hvílíkt skoðunar-spil! við hvers sjón himininn sjálfur klæddi sig sorgar-klæði, og ekki nema helvíti sjálft kunni sigri að hrósa, ó! hvílíkt skoðuna-spil! syndarar! komið híngað og skoðið sár þau, benja garða og blóðundir, sem hylja hann heilagasta líkhama; skoðið hann, hans húðfletta og blóðuga líkhama, sem er sundurkraminn fyrir yðar misgjörða sakir, og ef þér hafið nockra mannlega tilfinníngu, þá berjið yður á brjóst og grátið! grátið yfir yður og yðar syndum! fáið þér talið hans sár, eða þá blóðdropa, sem af þeim útdundu? hvert eitt sárið, hverr einn blóð-dropinn vitnar yður á móti og fordæma yður, fyrir

ydar misgjørda sakir. Hér ættud hér ad standa í ydar saklausa Jesú stad; hér ættud hér ad bera alla þá vanvyrdu, alla þá bølvan og allt það straff, sem á honum lá, blæda átti ydur og deya áttud þér í ydar egin blódi. En hér stendur hann, þessi ydar synda borgunar madur, hans gódgjørandi høndur eru hér fjøtradar vid smánarlegann húdstróku-stólpa, sem svo opt ádur litast hafdi sakamanna-blódi; hér, þar sem hinir vestu mordíngjar og ræníngjar lidid høfdu sinna misgjørnínga hegníngu, hlýtur hinn allra saklausasti ad lída syndaranna vondsku. Med miskunarlausri grimd rífa þeir klædin af honum, sem var sú einasta eign hans á jørdunni. Grimmir stríds þrælar, sem vanir vóru ad sjá manna blód útrenna, og heyra hørmuleg vein, án allrar medaumkunar, flengja med ógurlegri grimd svipum á hans nakta líkhama. Sérhvert slag, opnar nýar og nýar blód uppsprettur, og þær flettudu svipureimar, grafa med hvossum endum djúpar rákir bædi á hans baki og brjósti, svo ad eckért er framar heilbrygdt á hans líkhama, í hverjum nú

mátti telja hvert beinid. Allir þér, sem hér framhjá gángid, skodid þó og sjáid, hvert nockurt qvalrædi er, sem hans qvalrædi! æ! þegar þér sjáid hans húdfletta særda líkama, svo sjáid þér ecki nema máské minnsta partinn hans písla. Hversu mun ecki hans hjarta skolfid hafa og titrad vid sérhvert svipu slagid? hvad margar sárar andvarpanir mun hann ecki í brjósti sínu hlotid hafa ad seckja, þá hann eckért ord taladi medan á þessari miskunarlausu medferd stód? Hann gat þagad; sérhvert sárid, sérhverr blóddropinn taladi nógu hátt, og andlits útlitid bar vitni um þá óbærilegu sorg, sem inntekid hafdi hans sálu. Einnig undir þessum sløgum var hann offur fyrir vorar og alls heimsins syndir. Med þessum lausnar-peníngum urdum vér fríkeyptir. Sárin, hverjum hann særdist, vóru afmálun vorra synda. Svo ófrída, svo vidbjódslega hafdi syndin gjørt oss; þvílík sløg høfdum vér af Guds réttlæti verdskuldad. Eilífar þackir séu þér fyrir þad, vor blessadi Frelsari! ad þú hefir keypt oss svo dýru verdi! eilífar þackir, ad þú svo nádarsamlega vildir taka

á þig refsínguna, er oss átti ad mæta! en—komid nær, ó syndarar! og komist vid í hjørtum, ad þér hafid ablad hinum Heilaga og Réttláta þvílíkrar mædu og erfidis med ydar syndum; þér sælkérar! sem fleckid ydur med øllum holdsins saurugleika, fáid þér til þess hugsad, hversu ydar Jesú heilaga líkhama er misþirmt, og þó haldid áfram ad þjóna ydar girndum og láta of dátt ad ydar líkhama, en nidurvarpid ydur sjálfum þar med í saurindanna vidurstygd? Þér miskunarlausu mann óvinir! sem plágid ydar brædur med grimmum typtunum, án minnstu medaumkunar, þér, sem erud svo miskunarlausir ad hlæja, þegar eckért annad enn andvarpanir og klaganir heyrast umkríng ydur, fáid þer af ydur ad vera sakleysisins bødlar, þá þér vyrdid fyrir ydur þann saklausa og pínda Jesúm? syndarar! þér, sem án tilfinníngar drýgid eitt íllverkid eptir annad, látid ydur þó í hug koma sløg þau, er ydar Jesús hlaut ad þola ydar vegna. Viljid þér drýgja syndir med ánægju, fyrst þær hafa ollad hinum allra saklausasta svo qvalafullrar hádúngar? viljid þér fagna í

ydar vitškola gledi, þegar hann hlýtur ad niðurbeygjast undir sínum píslum? æ! hans blóðuga mind, hans húdstrýkti líkhami, hans óteljandi undir og benjar mega sífeldt vera ydur fyrir augum; máské hans saklausu tár og píslir muni fá hrært ydar tilfinníngarlausu hjörtu. Og hvad kynni annars hræra ydur, ef þessi píslar mind fær ecki vakid hugar-ángur í ydar hjarta? ef þér skélfist ecki vid ad sjá hann qvalda Jesúm, þá fær sjálft helvíti ecki skélft ydur, þó þess botnlausa afgrunn opnadist fyrir ydar augum; nei, svo tilfinníngarlausir erum vér enn þá ecki, nú þá vér skodum vors Jesú píslir svo lángt frá álengdar, fáum vér ecki tára bundist, þegar vér á hann lítum. Æ! hversu hefdi ecki hjarta vort komist vid, hvílíku táraflódi hefdum vér ecki úthelt, ef verid hefdum sjónarvottar ad þessum Jesú píslum! æ! ad þessi tár fengju þannig hrært vort hjarta, ad vér af alvöru hötudum þær syndir, sem hafa ollad honum þvílíkra qvala! Æ! ad vér gætum sífeldt í umgengni med heiminum, midt í gledinnar háreysti, hugsad um Jesú pínu med réttu hugarfari, eins og vér vild-

um gióra þad í einrúmi! audveldt yrdi ofs þá ad fá ofs geymda fyrir þeim afbrotum, fem olludu ofs famvitſku nøgunar? hverſu miklu ógirnilegri mundi ecki ſyndin, ef vér athugudum hennar afleidíngar og þá ángiſt, er hún ollir hjarta voru eptirá, þá mundi einnig þeſsi partur Jeſú pínu verda ofs til mikillrar nytſemi og huggunar, vér findum þá vora lækníngu í hans pínu, vora hreinſun í hans blódi, og vort frelſi í hans ſtraffi! Máſké Drottni þóckniſt einnig ad typta ofs, og þá, þegar ofs vyrdiſt þad undarlegt, hverſu hans tyvtanir géti verid kénniteikn hans elſku; þegar ofs er þad óſkiljanlegt, ad hann fái ſitt hirtíngar-hrís í hendur þeim, ſem misþyrma ofs miſkunarlauſt, þá viljum vér til þín þeinkja, vor qvaldi Frelſari! þú varſt þíns fødurs elſkulegi Sonur, og þó hyrti hann þig ſvo þúnglega; því ſkyldum vér nú møgla yfir því, þó vor Fadir legdi uppá ofs nockrar þjáníngar? og látum nú ſvo vera, ad menn misþyrmdu ofs í grimd ſinni, þau høgg, ſem vér lída megum af vondſku þeirra, eru náqvæmlega áqvørdud, þeir géta ecki lengra farid enn Gud

leysir þeim. Fyrir Jesú sakir, munu allar vorar þjáníngar verda oss ad blessun. Á þessu augnabliki kémur oss í hug vor daudastund; margir deyandi verda af sjúkdómsins plágum svo afmindadir, ad á þeim sjest ecki mannleg mind, og hvad mun þá af oss verda, þegar ad því kémur, ad vér einnig loksins leggjast skulum í vora banasæng, máské vor líkhami verdi á þeim tíma af sárum sundurflakandi, vidlíkur sjónum Jesú særda líkama; en vér munum þó betur staddir þá, enn Jesús í qvøl sinni. Máské vér egum þá vini, sem aumki oss, sem leit-ist vid ad hughreysta og endurnæra oss. Óvinir vorir jafnvel, munu þá gleyma hatri sínu, þegar þeir sjá hvad vér tokum út, og syrgjandi aumka oss, og þó ad þessi hugsvølun ecki hlotnist oss, mun vor Jesús hafa oss í minni. Trúarinnar sjón á honum mun styrk-ja og endurnæra vora von med himn-eskri huggun. Vonin um vora kom-andi forklárun mun gledja oss, þó vor aumi líkhami leggist í grøfina, því eins og Jesús er upphafinn yfir all-ar þjáníngar og misþyrmíngu, svo munum vér líka eitt sinn komast þáng-

ad, hvar eckért íllt framar mætir oſs; þar munum vér eilíflega príſa þína elſku, ó Jeſú! ſem leidſt daudann fyri vora ſkuld.

## 26. Föſtu-Hugvekja.

Stríðsmanna hædnis medferd á Jeſú, Matth. 27.

Því leingra, ſem vér áfram leſum Jeſú Píſlar-ſögu, því meiri harmqvæla verdum vér várir; því nær vér komum hans dauda, því óbærilegri verdur hans qvøl. Meir enn 8 klukkuſtundir vóru þegar lidnar, á hverjum hann leid hinar ſáruſtu qvalir. Án þeſs ad hann njóta fengi eins augnabliks værdar, til ad ſafna ſér nýum kroptum, yfirféllu hann nýar píſlir. Af høggunum og húdſtrokunni var nú allur hans líkhami ſárum og benjum hladinn, allir limir hans vóru ſundur.kramdir, og eckért var heilbrygdt meir á hans líkhama, og þó finnur helvíti enn þá upp nýar qvalir honum til píntíngar. Híngad til hafdi áſjána hans ad meſtu leiti frí verid fyri misþyrmíngu, þó hún enn væri litud blódſveita frá Grasgardinum og vanvyrdt med hrákunum. Nú er einnig ſú helga áſjána hans ad,

blódgast. Þeir settu krans af þyrnum um høfud hans, og til ad þrickja þessum hvøssu þyrni-broddum djúpt inn í ennid, tóku þeir reyr stafinn, er þeir høfdu fengid honum í hendina í stad veldis-spíru, og slóu hans þyrnumkrýnda høfud med honum; þeir beygja, med hædnis vyrdíngu, kné fyrir honum; þeir nálgast hann, hrækja í andlit hans og slá hann med knefum. Hvert sýnist oss nú undrunarverdara: þessara þræla dæmalausa grimd ellegar sú þolinmædi, med hverri Jesús lídur þessa miskunarlausu medferd? þad stód í hans valdi ad drepa skálka þessa samstundis, og gjøra hendur þeirra máttvana, en hann þolir þeirra miskunarlausu medferd med hógværd. Þegar hann píndur var og sleginn, líkur hann ecki upp sínum munni, heldur enn lamb, sem leidt er til slátrunar-beckfins, eda sem saudur, er þegir undir þess hønd, sem klippir hann, og ecki upplætur sinn munn. Hvers hjarta mundi ecki af reidi upptendrast hafa, ef hann mætt hefdi þvílíkri hádúngar misþyrmíngu saklaus? ef vér álykta vildum af vorri adferd, þegar vér mætum smá mótgjordum,

til hinna, sem eru lángtum stærri, sjáum vér hversu lítid støduglyndi vér mundum hafa gétad sýnt. Æ! ad vér mættum þó læra þad af þer, vor Jesú! ad vera þolinmódir og hógværir. Þó ad vort ástand væri eitthvert þad mædusamasta, sem ordid gæti, þá kynnu þó vorar þrautir og þjáníngar ecki ad metast meira á móti þeirri qvøl, sem Jesús leid, enn sem einn vatnsdropi á móti øllu sjáfarhafinu. Sú synd, sem oss ángrar, særdi Jesúm lángtum framar; sú eymd, sem á oss liggur, lá á honum miklu þýngri. Í vorum eymdum høfum vér þó ad minnsta kosti þá hugarhægd, ad vinir vorir hafa medaumkun med eymdum vorum, en þú, ó Jesú! hafdir engann, sem med þér bæri medaumkun. Í vorum eymdum høfum vér þó þá huggun, ad þær muni eitt sinn enda taka, en þad, sem gjørdi þína pínu bitrasta, mátti þad vera, ad þú fyrirsáist þær mótsagnir og misþyrmíngar, sem þú mundir sífeldt þola mega af syndurunum, því þad sama, sem þeir fordum gjørdu vid persónu þína, þad sama gjøra þeir enn þá í dag vid þitt Evangelíum; en vér, sem tilbidjum þig, vor

píndi Jesú! vér viljum af þeim qvöl-
um, sem þú þoldir, draga oss huggun-
arrík not, sem styrki oss í þolinmædi.
Þín pína skal gjöra oss hæfa til ad
lída, med því meira stöduglyndi; því
skyldum vér æskja oss ad bada í rósum,
fyrst þú gánga hlautst þyrnilagdann
veg? þegar vér lída megum undirokun,
órétt, öfund og ofsóknir óforskuldad,
því skyldum vér möglandi yfir því
klaga, þared þú, hinn saklausasti!
hlautst ad lída allt þetta lángtum frek-
ar? þó vér verdum ránglega baktaladir
og megum forakti mæta, því skyldi oss
vid þad bregda, þegar vér hugleidum
þína forsmán og þinna písla stærd, og
hverr mætti vænta sér ad lifa mædufrí,
þar líf hins allrabesta var fullt pínu og
þjáníngar? vér erum þessa himneska
Kóngs þegnar, mundi þad heita mega
tilhlydilegt, ad vér væntum oss edur
nædum meiri gledi og vyrdíngum, enn
hann féck nád? en þad er ecki nema ad
nockru leiti, sem vér enn þá vyrdt höf-
um fyrir oss þessar Jesú píslir. En
skodum Jesúm nú einnig lídandi þess-
ar qvalir, sem mannanna Medalgáng-
ara; ecki er þad líklegt, ad Jesús skyldi
endilega hafa hlotid ad lída þessar en

ecki adrár píslir, einúngis til ad géfa oss dæmi hvernig vér skyldum breyta í vidlíkum naudum; því ecki útkrafdist til þess þvílík forsmánarfull medferd, þar fæstir verda fyrir þeim qvölum sem Jesús nú leid. Tilgángur þessara sérlegu písla var annar lángtum ædri; vér blygdumst ecki vid ad játa þad, þvert á móti vorra tída þánkahætti, ad vér í Jesú þyrnikrýníngu og allri þeirri grimdar medferd, er hann lída hlaut, finnum rök fyrir því, ad hann þar med hefir fullnægju gjört fyrir sérlegar stórsyndir. Allra Konúnga Konúngur krýnist med þyrnum; mundu ecki þar med á honum straffadar vera syndir þær, sem strafffríar álítast undir vernd jardneskrar kórónu? persónur, sem Forsjónin hefir af duptinu hafid, og tignad jardneskri kórónu og veldis-sprota, misbrúka ósjaldan makt sína og metord.— Grimd, óréttur, hardýdgi og blóds-úthellíng eru þær syndir, sem ódegndar látast optast á þeim, sem vegna veldis síns fríir eru fyrir öllu tiltali. Hér straffar hinn Alvaldi á sínum konúnglega Syni, syndir hinna Miklu, og hans þyrni-krýníngar pína forlíkar fyrir

þær ránglætíngar, sem af þeim straff-laust drygjast. Þá vér vyrdum fyrir oss Endurlausnarann undir þyrni-kórónunni og sinna óvina margføldu vanvyrdu, hugsum vér til enna dramb-látu og ærugyrugu; hversu margfold medøl brúka þeir ecki til ad hefjast í met-ord og vyrdíngar? hvad spara þeir, til ad metta sína drambsemi? þeir troda lítilmagnann í duptid, til ad fá þess audveldar upphrokad sjálfum sér; þeir forakta og lasta adra til ad koma sjálf-um sér fram; þeir spilla rétti ens mun-adarlausa til ad fá sinn eginn aukid. Þegar Jesús stód nú krýndur hádug-legri þyrni-kórónu, forlíkadi hann fyr-ir þessar og þvílíkar íllgjørdir. O! þú, vor foraktadi Konúngur! lof og dýrd sé þér um eilífar aldir fyrir þessa þína qvøl! sjá! vér leggjum vort hof-móduga hjarta fyrir þínar fætur. Um þær hádúngar, sem þú leidst, viljum vér þenkja svo opt, sem drambsemi og stærilæti hreyfir sér í voru hjarta. Þessi þín hádúng, ó Jesú! sé oss dýr-mætari enn allt hvad heimurinn held-ur fyrir heidur og vegsemd. Látum heimsins børn keppast eptir jardneskri kórónu, eptir tímanlegum metordum,

hrósi og smjadri, en vér viljum ecki keppast eptir ødru enn þeirri vegsemd, sem þú hefir afrekad oss med þinni vanvyrdu.

## 27. Føstu-Hugvekja.

Sú aumkunarverda sjón á Jesú útleiddum af Pílatusi, Matth. 27.

Sjáid hér manneskjuna, þér syndarar! horfid á hann, sem útleidist, og látid hans forsmán gánga ydur til hjarta; máské þér hafid nú ásett ydur ad hæda Gud med nýjum misgjørníngum? en ádur enn þér framqvæmid ydar ásetníng, þá lítid til ydar pínda Jesú, og sjáid hvernig ydar syndir hafa skammarlega útleikid hann. Ef þessi sjón hrærir alls ecki hjørtu ydar, hvad mundi þá géta hrært ydur? ecki daudans sjón, ecki grøfin, ecki Dómurinn, jafnvel ecki sjálf eilífdin. Látid ydur þad nægja, ad þér híngad til hafid verid tilfinníngarlausir. Marga hluti þá, hefir Gud ydur fyrir augu leidt, sem vekja máttu ydur af dofinskap. Tídum hafid þér sied hans dóma á jørdunni. Svo margann sakamann, sem med syndum sínum hefir varpad sér í þá stærstu fordjørfun, hefir sá al-

valdi sett ydur fyrir sjónir, sém minnis-teikn hans hegníngar. Svo marga deyjandi hafid þér máské sjed í dauð-ans ángist og svita, undir dómsins ógnunum, og vid allar þessar svo ógn-arlegu sjónir, vorud þér tilfinníngar-lausir; látid þó hins pínda Jesú skod-un hafa nockra verkun í ydar hjört-um. Æ! viljid þér enn þá leitast vid ad metta ydar ærugirnd og drambsemi; horfid á Jesúm hversu hann er aud-mýktur fyrir ydar drambsemis sakir! þér viljid leita heimsins gledi, og synd-arinnar vidvarandi lystisemda; æ! sjá-id manninn! hann kunni ad hafa gledi, en hann tók sér fríviljuglega uppá allar píslir, til ad betala fyrir ydar gálausu lystisemdir; viljid þér halda á-fram ad elska heimsins góts med máta-lausum kjærleika? sjáid manninn! hvernig ydar stærilæti hefir rænt hann öllum klædum. Hverr getur litid hans fátækt og alla eymd hans, án þess ad fordæma sína ágirni, sitt státs og sæl-lífi! sjáid! ef þér vita viljid hvílíkar sképnur þér erud af náttúrunni til, og hvílík vidurstygd í ydar sálu bygg-ir, sjáid þann pínda Jesúm! hverjir erud þér? vidlíka sinnadir og Pílatus,

stríds þrælarnir og Gydíngarnir, sem píndu Jesúm, og fundu sína lystíngu í qvølum hans; þér hafid sømu vondu girndir, sem hina drifu til þess gud= leysis, svo grimdarlega ad misþyrma Guds Syni; þér hafid sømu ómiskun= semi til ad bera, sem þessir stríds þræl= ar, þegar þér getid verid tilfinníngar= lausir vid allar þær þreyngíngar, sem þér ollid hinum saklausa, þegar þér med helvítis frekju getid hlegid, þegar sá misþyrmdi saklausi grætur; þegar þér fáid af ydur ad æfa allann grimmleika til ad metta ydar hofmód, ydar hefnd= argirni, ydar vellyst, þá mundud þér víst høndlad hafa rétt eins og þessir miskunarlausu, ef ydar Frelsari hefdi birtst ydur á ný í þjóns mind. Hverr sá, sem hata kann, pína og offækja hinn saklausa, hann mundi ecki skirr= ast vid ad hata, pína og offækja Jes= úm sjálfann. Syndarar! æ! ad þér þó renna vildud þaunkunum til sjálf= ra ydar, þegar þér sjáid þann pínda Jesúm ydur þannig fyrir augum af= máladann í hans píslum. Æ! ad þér þó mættud vidurkénna þá miklu for= djørfun, sém syndin hefir ollad hinni mannlegu náttúru. Skodid og sjáid

hvílíkrar qvalar og hjartasorgar þad ollad hefir ydar guddómlega Borgunar manni, ad þer hafid syndgad. Allar píslir hans afmála ydur þad straff, sem ydar syndir hafa verdskuldad. Hans pína setur ydur fyrir sjónir þá pínu, sem á sídan eilíflega skal qvelja ydur, ef þér haldid áfram í því, ad akta lítils hans fridþægíngu. Ó! hversu ütskúfadar, ólukkulegar mannskepnur munud þér ecki á sídan verda, ef þér viljid ecki taka Jesú mikiu hádúng ydur til hjarta. Sjáid manninn! þannig hrópum vér til ydar, syndarar! hverra samvitska er uppvøknud, þér, sem rétt lifandi finnid stærd ydar eymda; nú vidurkénnid þér ydur ad vera í því auma ástandi, sem gjørir ydur ad vidurstygd fyrir Gudi. Híngad til álitud þér ydur heppna, á medan þér héldud áfram í ydar syndum; en nú — þøck sé Jesú nád! — nú hafid þér lært ad þeckja, hversu syndin hefir ydur vanskapad. Nú vidurkénnid þér stærd ydar fordjørfunar og þá vanvyrdu, sem syndin hefir varpad ydur í. Hvílík manneskja er eg? — segir nú hverr ydar — hversu afskaplegann hafa mínar misgjørdir ecki gjørt mig? hversu

em eg ecki ordinn ad afhraki fyrir Gudi, hans Englum og útvsldum? hvernig má eg mínum augum upplyfta, eg vesæl, útskúfud og fortopud manneskja! ó! þú efasama hjarta, sem nærri ert vid orvýlnun! líttu til hans, fyrir hvers sakir allt mannkyn er til nádar tekid! í hvílíkt forsmánar, eymda- og píslađjúp hlaut hinn saklausasti allra manna ad nidursøckvast, til ad fá þér uppryckt úr hádúngarinnar afgrunni. Á honum fjerdu þad, hvad þú áttir ad vera, hvad þú hafdir verdskuldad. Þú áttir eilíflega ad vera vidbjódur Guds, og allra hans útvaldra, eilíflega útskúfast frá honum; en nú ertu af þessum pínda Jesú fridþægd vid Gud, og mátt nú hafa þá miklu von, loksins ad odlast dýrdarinnar kórónu fyrir hans þoldu forsmánar sakir. Sjáid manninn! horfid á hann, þér gudelskandi sálir! og látid ydur vekja vid hans píslar-sjón, til ad elska hann enn þá innilegar, hann, sem af elsku til ydar, er svo djúpt nidurlæckadur, og svo grimmilega medhøndladur; hvad mundud þér gjora, ef þér ættud vin, sem í ydar stad tæki uppá sig allskyns mædu og píslir? mundi ecki hjarta

ydar upptendraſt af enum innilegaſta kjærleika til hans aptur á móti? og um hvad erud þér þá ſkyldugir þeſs-um ydar beſta, ydar allratrúfaſtaſta áſtvin, ſem meira hefir gjört fyrir ydar ſakir enn þér vænta máttud af hinum allrabeſta vini ydar á jördunni? hvad ſegir ydur hans húdfletti, alblódugi líkhami, hans blódriſa andlit, hans marda, margpínda hjarta? æ! allt krefur elſku af ydur, og þér fáid ecki, án hardýdgi, neitad honum þeſsa off-urs. Þó hann krefdi, ad þér þola ſkyldud alla heimſins forſmán og van-virdu, þó ad þér þola ættud hans vegna hegg og ſlög og hverskyns grimdar medferd, já, þó þer bera mætt-ud nockurn hluta píſla hans, hvert kynnúd þér ad ſegja ydur undan þeirri ſkyldu? allt hvad þér jafnvel þolad gætud, væri ſvo ſem eckért ad reikna á móti því, ſem ydar Frelſari líða mátti; þó krefur hann ecki ſvo ördugt eda ſvo blódugt offur af ydur; allt hvad hann heimtar af ydur, er: ad þér elſkid hann og óumbreytanlega ſéud honum trúir, ſakir hans pínu. Takid nú fyrir ydur nýann áſetníng, og vakid yfir þeſsari ydar ſkyldu;

heitid ydar Frelsara: ad prísa hann af allri sálu, og aldrei láta ydur úr minni lída, hvad hann med sinni pínu hefir ydur afrekad. Sjáid manninn! skodid þér hann og, mótlættu kristnu! vér gjørum oss í grun, ad margir þeir ed lesa þessar hugvekjur edur heyra, muni þvílikir vera, sem vegna sjúkdóms, fátæktar edur annara mótdrægra lucku tilfella, vera kunni vesælir og aumkunarverdir. Hvad fáum vér annad sagt ydur til huggunar í hørmum ydar enn þetta: Sjáid manninn Jesúm! ecki viljum vér gjøra lítid úr ydar neyd, vér viljum trúa ad þér séud plágadir og píndir. En þótt neyd ydar væri nú lángtum stærri, ydar sjúkdóms-pína lángtum tilfinnanlegri, enn hún í raun og veru er, meinid þér ydar mæda jafnist vid Jesú pínu? séud þér foraktadir, er þó þad forakt lítid ad reikna á móti því, sem Jesús þoldi; séud þér fullir sára og kauna, egid þér þó máské vin, sem bindi um kaun ydar, og smyrji ydar sár; þér liggid máské í korinni og lítid út eins og píslar mind, en þér finnid þó máské eitt hvert medlídandi hjarta, sem huggar ydur, og leitast vid, ad

lina ydar qvøl. Þér erud þó ad minnsta kosti ecki hæddir í ydar þjáníngum, þér finnid þó máské lítinn stad, á hverjum þér fáid hvílt ydur. Enga þessá endurnæríngu hafdi Jesús í sinni miklu pinu, og hafid þér þó ecki med ydar misgjordum verdskuldad hvad þér lídid? en Jesús hlaut saklaus ad þola allar sínar qvalir. Æ! styrkid ydur, þér máttvana sundurkrømdu sálir! vid skodun Jesú kjærleika, safnid ydar særda hjarta huggun og endurnæríngu, af qvølum hans; takid viljugir á móti þeim beiska kaleik, sem ydar Fadir réttir ad ydur, og lærid af ydar pínda Jesú þá ment, einnig ad vera ánægdir í mótlætinu. Sjáid manninn! þannig megum vér til ydar hrópa, sem daudans forbodi svipt hefir nær því allri mannlíkíngu; um lángt edur skammt munum vér einnig svo staddir, ad sérhverr, sem lítur oss má segja: sjáid manninn! hversu bleikur og máttfarinn hann er og litverptur ordinn! sjáid hans uppþrútnu augu, hans umbreytta andlit, þessa nákøldu limi! æ! hversu ílla útlítandi mannsképna! ó! ad sjónin á þeim pínda Jesú mætti þá upplífga oss, og af hans

þínu fljóta huggan inn í hjarta vort! Ecki er þó með þessum síðustu sjúkdóms atvikum lokið øllu því óvyrdulega, er við oss mun frankoma: þá vér niðurgrafnir erum í jørdina, hversu viðbjóðslegt mun þá ecki að sjá vorn hálf- og al-rotnaða líkhama. Hverr einn hinna lifendu, sem sjer á þessar leifar vorar, sjer vor rotnuðu bein, má segja: sjáið manninn! en hvílíkt gleði efni fyrir oss, mitt í þessari jarðnesku eymda skoðun, að renna þaunkunum til ens komanda dags, þá vor mannlega náttúra mun forklárast! þá munu allir Englar, allir útvaldir segja; sjáið manninn! hversu mikill og dýrðlegur- og sæll er hann nú, eptir útstaðnar lífsins eymdir!

## 28. Føstu-Hugvekja.

Jesú útgángá úr Borginni. Jóh. 19.

Jerúsalem! bifast ecki þínir múrar, þegar sá útgengur um þeirra port, sem blessun færði inn fyrir þá og sáluhjálp? Vesæli staður! hvað mun verða af þínum høllum, þínum helgidómum, þínum herbergjum, þegar sá er nú útleiddur, sem þú átt að þacka, að þú enn þá varst ecki orðinn að

øsku-brúgu? þér fátæku, veiku og voludu! til hverra getid þér nú flúid, þegar ydar læknir, ydar naudhjálpari er frá ydur tekinn? hverr á nú ad predika fyrir ydur, syndarar! nád og sáluhjálp, fyrst sá víkur frá ydur, sem eyddi öllu lífi í þessari velgjørdasömu ydju? vei þér, Jerúsalem! vei þínum børnum! vei þínum høllum! æ! hugleidir þú ecki hvad til þíns fridar heyrir? þinn velgjørari gengur út af þínum portum, en hann mun ecki koma svo blódugur, svo foraktadur til þín aptur, sem hann géck nú út. Hann mun ecki koma med svo mikilli blessun og nád, sem í fyrra sinni, er hann géck útaf þínum portum, þegar hann kémur í annad sinn, ó! skélfstú þá fyrir þínum høllum, helgidómum og børnum þínum, þá mun bølvanin vera vid hans vinstri og fordjørfunin vid hans hægri hlid. Lengi muntu ecki gledja þig í þínu freka grimdar ædi, gráta muntú, formæla sjálfri þér og deyja undir formælíngunni. Jerúsalem! þú skalt vera oss til vidvørunar, ad vér aldrei med synd og vondsku sviptum oss, ó! Jesú! þinni nálægd og nád; hvad mun af oss verda ef ad þín nád

viki frá oss, og þú tækir þinn anda í burtu? æ! allir heims fjársjóðir, øll gledi lífs þessa og vegsemd fengju ecki bætt oss þann missir, því þá vér ecki høfum þig ad vin, hvad má himininn, hvad má þá jørdin nota oss? hvad fær oss end urnært, þegar sál vor og líkami vanmegnast? hvad fær gjørt oss skadlausa, ef vér sviptir verdum þeim dýrmætu gædum, sem þín nád heitir oss? já, þessi umskipti skulum vér nú hugleida. Á medan vér erum heilbrygdir og allt leikur í lyndi, ɵktum vér ecki nálægd þína svo mikils, sem vér ættum; en sá tími kémur, ad vér munum allt missa og mega án vera nema einúngis huggunar af þinni fridþægíngu. Hversu innilega mun oss þá lánga til þín? med hvílíkri ángist leita þinnar nádar? og—ef vér þá leitudum hennar forgéfins, ó Jesú! hversu aumir og vesælir værum vér þá! En—snúum þaunkum vorum aptur til Jesú. Þéssi útgánga hans var hin sídasta í hans nidurlægíngarstandi; hversu marga ørduga gaungu hafdi hann ecki uppá sig tekid medan hann umgéckst hér á jørdunni? hversu margar mædusamar

reisur høfdu ecki breytt hann, á medan hann í 30 ár lifdi sem madur hér í heimi? þessi gánga hans var þó sannarlega hin allra ørdugasta; hann var øldúngis ørmagna ordinn af svo mørgum útstødnum píslum, og vegurinn, er hann nú gánga hlaut, lá þángad, hvar hann útstanda átti hinn skammarlegasta og qvalafyllsta daudadaga. Hvilík gánga til daudans liggur og eitt sinn fyrir oss. Eptir marga mædusama vegu, sem vér høfum í heiminum farid, er einn gángurinn seinast eptir, sem yfrid ørdugur er holdi voru; vér hljótum ad gánga til rotnunar=stadarins, og hvad meira er, fram fyrir Dómstól vors Guds. Æ! ad vér mættum þá útgánga af heiminum med svo rósømu og fridstilltu hjarta, sem Jesús géck út af Jerúsalem. Fyri þinnar forþénustu sakir, ó Jesú! væntum vér þess. Trúin á þig mun á þessum vorum sídasta vegi styrkja oss svo vér ecki undirgaungum. Med þínum gángi til daudans hefur þú øllum þeim léttir afrekad, sem eins og þú hljóta ad gánga í gégnum daudans dal, vér viljum gledja oss vid þinn dauda gáng, vor Frels=

ari! Þú barst í fyrstunni sjálfur þinn kross, hversu óbærilega qvöl mun ecki byrdi sú gjört hafa þínu blóduga baki? máské einhverr kross leggist einnig oss á herdar, þá vér kalladir verdum til ad gánga daudans veg; því nær vér komum daudanum, þess þýngri verdur máské byrdin; en enginn kross mun nú fá oss jardvarpad, engin byrdi gjört oss vanmegna, því þú, vor Frelsari! hefir fundid til daudans gjörvalla byrdar-þúnga, svo þú léttir undir vora sídustu byrdi. Þöck sé þér einnig fyrir þessa røksemd, sem þú hefir gefid oss uppá þinn kjærleika. Loksins, þegar vér erum adkomnir dauda, mun vor sála, endurnærd vid tilhugsun þíns dauda, prísa þig í voru sídasta augnabliki, fyri þenna þinn gáng út í daudann.

## 29. Føstu-Hugvekja.

Jesú léttir í hans dauda-gángi, Matth. 27.

Mikid vegarins til Golgatha hafdi nú Jesús þegar farid, en hinn lengsti og ørdugasti partur var þó eptir; vanmegni líkhama hans jókst þá svo mjøg, ad honum lá vid! ad hníga nidur undir krossins þúngu byrdi;

hans óvinir tóku þá krosstréd af hans herdum, ecki af medaumkun, heldur af ótta ad hann deya kynni á vegin-um, og lögdu þad uppá ókunnann mann, sem kom af akri. Svo lítil-vægt, sem atvik þetta sýnist, er þad þó sérlega huggunarríkt fyrir oss. Svo veit Gud ætíd ad meddeila börnum sínum, ef ecki fullkomna fríun, þá þó, ad minnsta kosti, léttir í mædu þeirra; hann vegur med nærgætni þá byrdi, sem hann leggur oss á herdar, eptir mætti vorum edur vanmætti, og þegar ad því er rétt komid, ad vér magn-þrota verdum undir byrdinni, gétur hann látid þúsund tilfelli adbera, sem vér álítum af hendíngu einni ské, og med þeim géfur hann oss tídum rauna léttir. Af hendíngu sýndist þad ské, ad þessi Símon rett í því sama kom til stadarins, og Jesús byrjadi ferd sína til Golgatha, en þad skédi þó eptir Guds vísustu rádstöfun. Þessi madur var útsendur, ad veita Jesú þennann léttir, og hinn minnstu til-felli máttu sameina sig til þessa til-gangs. Hvörr veit, hvörn vin Gud muni til vor leida, sem endurnæri oss undir vorum þjáníngum? hverr

veit, hverr útsendast muni til ad hjálpa hinum munadarlausa í sinni eymd, edur oss í vorum sjúkdómi? hverr veit, hversu litid, já! jafnvel einkisverdt tilfelli sá Almáttugi láta kann adbera til vors frelsis? máské jafnvel óvinir vorir verdi oss hjálplegir þá oss áliggur, og hljóti ad studla sér óvitandi til lucku vorrar; þad er ad minnsta kosti víst, ad jafnvel þó vor neyd, sýnist vera svo stór, ad vér undir henni niðurbeygjumst til jardar, mun hún þó ecki ad øllu leiti yfirbuga oss. Drottinn, sem er mikill í rádum og mektugur í athøfnum, mun vita ad styrkja oss uppá margann máta. Símon, sem var þess vyrtdur, ad bera krossinn eptir Jesú, var fadir tveggja sona, sem sídan tóku krístni, og urdu, ad menn meina, Evangelii kénnendur. Þad er ecki ólíklegt ad Símon þessi hafi vid þetta tækifæri, fengid hina fyrstu þeckíngu á Jesú persónu og guddómi hans, og nú med sama verid hjá honum lagdur hinn fyrsti grundvøllur til móttøku krístnibodsins; þannig fær sá Almáttugi smiid tilfellum, sem oss í fyrstunni vyrdast ógédfeld, til vors sanna besta. Hversu naudugur

mun ecki Símon hafa ordid, til þessa ordduga og smánarlega erfidis ad bera eptir einum krossinn, sem var til dauda dæmdur, en hvad opt mun hann sídan á eptir hafa prísad gædsku Guds vega, þegar hann hugleiddi, ad þetta ordduga erfidi hafdi leidt hann til þeckíngar Krists og hans lærdóms sannleika. Vér einnig munum tækifæri hafa til vidlíkrar egin reynslu í þrautum vorum; þegar Gudi þócknast, ad útbýta oss mótlætíngum, þá finnast oss þær jafnan í fyrstu ofrid þúngar, en því lengur, sem vér berum þær, því betur fáum vér lært ad þeckja hversu nytsamlegar þær eru fyrir vora sönnu velferd; ordbyrgd sú, sem vér lída megum, mun gjøra oss nádarinnar ríkdóma ómetanlegri. Vid sjúkdóminn leidumst vér til ad þenkja um sálar vorrar ódaudlega frelsi. Þad forakt, sem vér kannské lída megum af heiminum, fær oss upphvatt til ad leita heidurs hjá Gudi. Missir þess, sem var oss hid kjærasta í heiminum, upphvetur oss til ad keppast því alvarlegar eptir vinfengi Guds; í einu ordi: øll tilfelli, sem mæta oss, mega þéna til eblíngar velferdar vorrar, ef vér

færum oss þau vel í nyt. Vér fáum þar við kreptugustu uppþvatníngu að prísa vors Guðs vísu og náðugu forsjón, jafnvel og fyrir vorar mótlætíngar, og með viljugu hjarta að taka á móti krossins kaleik af hans hendi. En hvílíkann mismun er ecki að finna í þessum kríngumstæðum á milli Jesú og Símons af Cyrene? báðir bera þeir krossinn, en hverr á sinn hátt. Vor Frelsari tók hann viljugur með glöðu hjarta sér á herðar, hann lét sig ecki neyða til þess; Símon gèckst undir hann nauðugur. Við þessa ólíku aðferð setst oss fyrir sjónir annara krossberara aðferð. Hinir sannkristnu bera sinn kross með gleði, heimsins börn með ólyst. Sérhverr sá, sem með óviljugu, möglandi hjarta ber krossins byrði og stynur undir hans þúnga, óánægður með eymdir sínar, hann er enn þá lángt frá að eptirfylgja Jesú; í stað þess að krossinn ætti að vera þvílíkum manneskjum til eflíngar og framgángs á þeirra sáluhjálpar vegi, er hann þeim miklu framar til hindrunar. Þar finnst þó eckert óhultara meðal til að sameinast sínum Lausnara, og til að öðlast eilífa sáluhjálp, enn

ad taka frivilljuglega krossinn á sig og bera hann með þolinmæði. Vér viljum, vor dýrmætasti Lausnari! einnig undir mótlætinu verða þér líkir. Leggðu þá byrði oss á herðar, sem oss er ætlud, vér viljum ecki skora oss undan að bera hana. Vér höfum þau heityrði í skírn vorri inngengið, er vér fyrst teknir vórum í þína þjónustu, að stríða með karlmennsku undir þínu merki, á móti syndinni, Sathan og heiminum, og sem eiðsvarnir stríðsmenn, vera þér trúir til æfiloka. En hversu laklega höfum vér híngað til haldið þennann eið? í stað þess að æfa oss í sjálfs-afneitun og kristinndómsins léttu skyldum, höfum vér valið oss girndanna lystisemdir. Í stað þess að láta oss lynda mótlætíngar þær, sem þín hönd lagði á oss, höfum vér möglað á móti þér, og hrundið frá oss hönd þinni þá hún typtaði oss. Í stað þess, að krossfesta vorar tilhneigíngar, höfum vér með stærstu laungun leitast við að metta þær; þannig höfum vér, því miður! hagað oss. En, ó vor Guð! þú, sem best þeckir vondsku vora og veikleik, styrktu oss í stríðinu, hjálpaðu

oss ad verda þér þócknanlegir, og gésdu oss nád til ad bera allt þad, er þú sendir oss, med viljugu hjarta. Drag oss med þínum kjærleika æ meir og meir frá heiminum til þín. Hví skyldum vér vilja skora oss undan øllum eymdum, þar vor Jesús hefir lída mátt bitrustu qvalir? vor fyrri synda vegur var einnig mørgum þyrnum lagdur, því skyldum ver þá vilja skora oss undan nockrum eymdum á gudhrædslunnar vegi? Jesús vill þó ecki láta ólaunada hina minnstu byrdi, sem vér berum hans vegna; fyrir vora litlu mædu á blessun af hans krossi ad koma yfir oss og born vor, og þó oss brygdist þessi umbun hér í lífi, mun þó eilífdin endurgjalda oss allt, sem vér hér missa megum, afneita edur út standa. Vorar þreyngíngar, sem eru stuttar og léttar, afreka oss eilífa, og yfir allann máta dýrdlega vegsemd. Þángad viljum vér snúa augum vorum, gledja oss í andanum vid þann komandi fognud, og med þolinmædi taka vorn kross uppá oss, þá mun loksins krossins vegur leida oss til himinsins.

# 30. Föstu-Hugvekja.

Fjallid Golgatha. Mark. 15.

Sérhver atvik vid Jesú pínu eru merkileg þeim, er sér til nota vill hugleida Jesú fridþægjandi dauda. Í rósemi viljum vér nú þenkja um þann stad, á hverjum vor Endurlausnari þoldi þá síðustu pínu, og hér munum vér einnig varir verda margra Guds vísdóms og gædsku leyndardóma. Jesús mátti lída þenna dauda utan Jerúsalems múra. Eptir fyrsta áliti var vid Jesúm hér ecki annad gjort, enn hvad almenn sidvenja var hjá flestum þjódum, ad láta sakamenn aftaka utanborgar. En þad gat skéd, ad Jesús lidi daudann eins og Zacharías, í forgardi musterisins. Hann kynni hafa deyddur verid í einhvérju samkunduhúsi, edur í Biskupshöllinni, svo ad allt upphlaup af lydnum hindrad yrdi, og máské oss vyrdist þad hefdi verid heidurlegra fyrir Jesú persónu heilagleika, ad hann endad hefdi líf sitt í Musterinu, enn á einhverjum ødrum nafnkénndum stad í Jerúsalem; ad Gud hefdi vegsamad síns Sonar dauda, ef hann ákvardad hefdi líflát

hans í Gydíngalands Höfudstad, og í því allrahelgasta Musterisins; en, Guds vegir eru ecki eins og manna vegir. Eptir Postulans Páls ávísun áttu þær fórnir, sem vóru frambornar á altarid í forgardinum, á enum mikla fridþægíngar degi, ad brennast til ösku utan herbúdanna. Med því átti ad gefast til kynna, ad Jesús, sem fyrirmindadur var med Gydínganna fórnfæríngum, skyldi útskúfast úr manna sambúdum; þetta skedi þegar hann var krossfestur utan Jerúsalems porta. Hér med verdur oss líka til kynna gefid, ad nú vóru allar fórnfæríngar í Musterinu a enda, og ad Gud þadanaf hefdi enga þóknun á nockru offri, þá hann móttekid hafdi offri síns Sonar. Med því ad hann gécк út af portinu, til ad lída daudann, verdum vér á þad minntir, ad velgjörníngar hans dauda nádu ecki ad eins til Jerúsalems barna, heldur líka til alls heimsins. Því erum vér skuldbundnir til ad gánga med honum út fyrir herbúdirnar, og bera hans vanvyrdu. Nú á þad levítiska Logmál ecki lengur ad skuldbinda oss, nú hlýtur sú ad vera vor sérlegasta

umhyggja, hvernig vér gétum ordid hluttakandi þess offurs, sem Jesús frambar. Nú má oss eckért frá því halda, ad þola þær þjáníngar, sem oss mæta kunna, ef vér eptirfylgjum Jesú. Hér hofum vér engann blífanlegann samastad, heldur leitum hins komanda, hvar allir þeir vidtoku fá, sem Krísti hafa eptirfylgt. Jesús hlaut ad deyja á Golgatha; fjall þetta er ad ollu leiti merkilegt, þad var partur af Moría fjalli, á hverju Isak átti ad offrast; þad var hid foraktanlegasta pláts vegna þess, þad var brúkad til aftokustadar sakamonnum. Af Guds vísa rádi var þad sjáanlega áqvardad, ad Jesús deya skyldi á þessum opna og almenna stad; þvíad á því reid ollu framar, ad menn nædu um þad órækri fullvissu, ad Jesús sannarlega dáid hefdi; en hvad margfaldar efasemdir hefdu ecki vera mátt um Jesú dauda, ef hann dáid hefdi á heimuglegum stad? vér viljum nú taka til dæmis: ad Jesús hefdi verid í helsleginn í musterinu, ellegar á þeim stad, hvar hans vinir edur óvinir hefdu einir verid sjónar-vitni ad dauda hans, hvernig vard þá hinum vantrúada

móti mælt? hvernig veiktrúadir styrkjast? þad hefdi segja mátt, ad Jesú vinir hefdu fengid adra til ad bera út dauda hans, en hann hefdi aldrei fullkomlega dáid. Máské ad Jesús hefdi ad eins fallid í ómeginn, er menn héldu ad hann daudur væri. Jesú óvinir hefdu þá tækifæri fundid til ad álíta dauda hans, sem eitthvert snotúrt vélrædi, og upprisu hans, sem ósannindi. Allar þessar vantrúarinnar mótsagnir, verda vid þad ad enda, ad Jesús dó á opinberum aftöku-stad, og øll efunar-mál um dauda hans verda þar vid ad engu. Gydíngar sjálfir sáu hann útleiddann; þeir sáu, ad sá madur, sem qvøldinu fyrir var til fánga tekinn, var hinn sami, sem á krossinum héck; þeir sáu hvernig hans kraptar meir og meir þverrudu, og þannig urdu þess varir, hversu hann nálgadist dauda sinn; þeir heyrdu hans sídustu ord, med hverjum hann fól sálu sína í Fødursins hendur. Þeir sáu, til enn frekari vissu um dauda hans, ad spjóti var stúngid í hans sídu, sem víst hefdi svipt hann lífinu, ef enn þá hefdi verid líf í honum; sjálfir sáu þeir allar adgjørdir vid hans

jardarfør og greftrun. Allt þetta mátti ad fullu sannfæra sérhvern um þad, ad Jesús væri sannarlega daudur, og því hagadi Gud því svo, ad hans Sonar líflát skédi opinberlega á almennum sakamanna aftøkustad. Og gat þá Jesús sjáanlegar opinberad hlýdni sína vid sinn Fødur, og dýpt sinnar nidurlægingar, enn med því ad líða daudann a svo skammarlegum stad; hans aftøkustadur hlaut ad auka hans dauda biturleika; hann var þar med gjørdur jafn hinum vidbjódsleguftu sakamønnum, og allir spádómar, sem þartil vísudu, urdu med því uppfylltir. Þegar þad heitir: ad Jesús skyldi reiknast á medal íllgjørdamanna, ad menn jafnvel og mundu hylja sitt andlit fyrir honum; þegar Móses spáir: ad Ísrael mundi sáluhjálparinnar bjarg svo lítils meta, ad þeir mundu upphengja hann, svo sem daudt hræ, þá verda allir þessir Spádómar á Jesú uppfylltir vid þessi tækifæri; máské þetta megi ennþá telja til, ad hann med þessum daud-daga, vildi uppfylla þá fyrirmindun, sem Ísraels børnum var fordum géfin med eyrorminum. Þessi eyrórmur var upp-

reistur midt á mørkinni, hvar svo margir Ísraels barna drepnir voru af eitrudu høggormabiti. Jesús vildi því deyja á hausaskéljastadnum, og líka sem yfir beinum hinna daudu; hann vildi vid daudann stríða á þeim stad, hvar daudinn uppreist hafdi sitt sigur-teikn, og øllu því samansafnad, sem gjøra mátti áfall hans ógnarlegt og biturt. Á daudans leikvelli uppreisti hér lífsins Fursti sitt sigurmerki, og uppfyllti þar med spámannanna fyrirsagnir: daudi! eg vil vera þér ólífjan! grøf! eg vil vera þér drepsótt! en hversu megum vér ecki hér af læra ad þeckja stærd vorra misgjørda, og Jesú yfirgnæfanlega kjærleika? hversu mega ecki syndir vorar vera vidbjódslegar, þared Jesús fyrir þeirra sakir hlýtur ad deya í hinni stærstu, forsmán, og undir bitrustu píslum á íllvirkjanna aftøku stad? hversu innilegt má ecki vera þacklæti þad, sem vér erum vorum Frelsara skyldugir um, fyri þenna part písla hans? nú megum vér deya hvar sem vill, vor daudi mun þó verda ofs sáluhjálplegur; hvert sem vér verdum af daudanum yfirfallnir undir vorra óvina høndum, edur í fadmi vorra

kjærustu vina, munum vér þó, hvert sem verdur, aldrei orsök hafa til huglausrar efasemdar; á hverjum helst stad, sem daudinn hittir oss, mun hann verda fyri oss vegur til himinsins, þegar vér deyum í sameiníngu vid Jesúm.

## 51. Föstu-Hugvekja.

Jesús á Krossinum. Jóh. 19.

Þeir krossfestu hann; þrjú ord, sem í sér innibinda allt það, er uppfylla má hverja sálu ógnun og gledi. Jóhannes segir oss í þessum eptirtakanlegu fáu ordum allt það, er uppvekja má medaumkunar, kjærleika og þacklætis tilfinníngu. Hverr annar, er um svo mikilvægt efni ritad hefdi, mundi hér brúkad hafa valin málsnilldar ord, til ad fá, sem vidqvæmast, afmálad það, er Jesús hlaut nú ad lída; en honum er það nóg, ad nefna einúngis þá hádúng, sem Jesús þoldi, en gefur hitt lesaranum til egin íhugunar. Já, hér finnur þú, kristni madur! efni það, í hverju þú fær æft alla þína þánka, og fridstillt þíns hjarta saklausu tilhnegíngar; vid umþenkíngu þessa efnis máttu leidast til undrunar og lotníngarfullrar

tilbeidslu. Ó! yfirvega þú þá, med heilagri lotníngu, þann mikilvægasta atburd, sem á jördunni nockurntíma hefir skéd: þeir krossfestu hann. Stattu hér vid, sála mín! Golgatha! hvers blód var þad, þú drackst? hvers kross var þad, sem nidurgrafinn var í þína jord? hverr er hann, um hvern þad heitir: þeir krossfestu hann? sakamenn og illvirkja hefir þú víst fyrri borid, en aldrei þángad til dó nockur manneskja á hæd þessari svo stór, svo saklaus, sem hefdi svo guddómlega eginlegleika. Hann var á þessum tíma, svo djúpt nidurlæckadur, sem yfir himin og jörd svo hátt var upphafinn, hjá honum var guddómleg hátign sameinud hinni stærstu vanvyrdu; þessi var sá einasti, hvers daudi var heimsins fridþæging, þess vegna er vors Jesú krossins mind oss svo yndisleg; í Jehóvæ líkíngu fengjum vér ecki hans ásjónu sjena, og þó vér sæum hana, mætti hún vera oss óttaleg; í eins Höfud-engils líkíngu væri oss hans tilfelli óskiljanleg; í eins píslarvotts líkíngu væri oss hans pína til ásteytíngar. Svo sem Spámádur hefdi hann átt ad grýtast, sem hinir

adrir Spámennirnir, eptir Gydínganna sidvenju, þegar hann deya skyldi fyrir sannleikssins sakir. Hér hagadi sú guddómlega forsjón því svo, ad hann leid lángtum annann daudadaga, sem enga líkíngu hafdi þeirra písla, er menn lídu saklausir fyrir sannleikann. Hann var á krossinn hengdur, og leid þar þræla-og sakamanna-straff. Í þessum Jesú daudadaga láta sig í ljósi Guds vísdóms dýrdlegustu rádstafanir, sem þéna til eblíngar vorri trú. Af annara tilstofnun hlaut Frelsarinn ad svíptast lífinu, því daudans tilfelli, syndin, hafdi ekki hjá honum stad, sem var heilagur og flekklaus; en ad hann heldur leid krossins dauda enn hvern annann, þad skédi af Guds vísu rádstofun. Med engum daud-daga vard þad augljóslegar sýnt og sannad ad Jesús stædi undir Guds dómi, sem keyptur þræll, enn med krossfestíngunni, sem var þrælanna dauda straff. Krossfestíngar straffid teiknadi einnig, ad Jesús dó ekki naudugur, því ekki dó hann fyrri enn allt var af honum fúslega fullkomnad, eptir hans Födurs vilja. Hann átti ad framqvæma

margt á sínum cffta tíma mønnum til besta, og til fullkomnunar síns offurs, og þar til gafst honum tíminn bestur og tækifærid vid krossfestínguna, þared dauda-straff þetta olli lángsømum dauddaga, og hans sála feck á medan verkad undir þessu qvalrædi med óstérdtri skynsemi. Þegar hann þar á eptir verulega dó, mátti þad um hann heita, ad hann dæi viljandi; þá enginn sídan svipti hann lífinu, en hann mátti, eptir náttúrlegum hætti, lángtum lengur lifad hafa á krossinum. Loksins heyrir þad og til Jess kross-vísdóms, ad allir spádómar og fyrirmyndanir eru fyrir þad uppfylltar ordnar. Hvílíkur vísdómur og nád eru þá ecki sameinud í vors Jesú krossins dauda? hvílíka orsøk høfum vér ecki til ad láta hann vera vora einustu hrósun, vora dýrmætustu huggun og vora ædstu gledi? vér þurfum einúngis ad hugleida þá óútmálanlegu velgjorrnínga, sem oss eru afrekadir med Jesu krossi, vér þurfum einúngis ad renna augunum til eymda þeirra, sem vér med syndum vorum høfdum fallid í, ef Jesús hefdi ecki framborid fullgyldt forlíkunar off-

ur fyrir oss; þetta skal upphvetja oss til að heidra hans krossins dauða. Lángi oss eptir huggun, þá samvitskan áklagar oss, sjáum vér í hinum krossfesta Jesú forlíkunar-mann allra vorra synda; skelfi straffið oss, sem vér með vorum syndum hofum verðskuldað, þá segir Jesú kross oss: að hann borið hafi vora sjúkdóma, og tekið uppá sig vor kránkdæmi, að hann sé særður fyrir vorra synda sakir, og lemstraður vegna vorra misgjørnínga; skelfi oss løgmálsins bølvan, þá megum vér í trúnni upp til hans líta, sem á krossinum er orðin bølvan fyrir oss, og hefir, þar með afrekað oss þá dyrðlegustu blessun. Jesú kross er því hið krøptugasta meðal vorrar sáluhjálpar, grundvøllur vorrar friðþægíngar og vorrar vonar, uppspretta til vors réttlætis, vorrar rósemi, vors frelsis og huggunar, og orsøk vorrar eilífu sáluhjálpar. En því erum vér þá svo kaldgeðja og tilfinníngarlausir, þegar vér vyrðum fyrir oss hinn krossfesta Jesúm? Æ! vegna þess, að vor kjærleiki er enn þá lángtum ofkaldur, og vor guðræknis ástundan svo yfrið treg, þegar vér berum

þau saman vid vors Jesú ástúdlegasta kjærleika; ef vér elskudum hinn krossfesta Jesúm af gjørvollu sinni, þá mundum vér ljúflega segja oss úr syndarinnar og heimsins þjónustu, en sverja vorum Endurlausnara eilífar trygdir. Væri Jesú kross oss dýrmætari enn allt annad, þá leitudum vér ecki lucku vorrar og gledi einúngis í jardneskum hlutum. Ef vér kjæmumst vid í hjarta voru, þegar vér þenktum um hinn krossfesta Jesúm, þá mundum vér finna stærri vidbjód á þeim syndum, sem hann qvøldu, enn almennt skédur og taka oss því betur vara, ad flecka sálu vora med nýum misgjørníngum, og ef oss væri annt um frelsi vorrar sálar, mundum vér ecki halda á fram í þeirri fásinnu, ad álíta holdsins lystisemdir, sem vort ædsta góda; já! hefdi Jesú krossdaudi nockurn krapt í voru hjarta, þá mundum vér brádum verda ødruvísi sinnadir enn híngad til, vid vorn náúnga og sjálfa oss. Allt þetta vidurkénnir nú sála vor; þegar vér í rósemi hugleidum þinn kross-dauda, ó vor Jésú! ógnar oss kaldsinni vort og þánkaleysi um þinn mikla kjær-

leika, sem leiddi þig til að þola þvílíkann dauða fyrir vorar sakir. Ø! vér æskjum oss, að vera nú eins geði farnir og Postulinn Páll, að þvíngast af þinni pínu, til að lifa þér einúngis, sem fyrir oss ert dáinn. En vér gvíðum þó, að vort laus-sinni muni ónýta þessa ósk, strax sem vér komum út í heimsins gálausa soll. Hversu bráðum munu þá ecki þánkarnir um þinn kross, og kjærleiki til þín, vera í burt horfnir, er þeir hlutir koma oss fyrir sjónir, sem draga til sín alla þánka vora og kjærleika? þessvegna vyrdstú, ó! Jesú! að innprenta fastlega vorri sálu þína krossins ímind, og láttú hana æ vera oss fyrir augum, þá holdsins lyst og syndarinnar og heimsins lystisemdir vilja locka oss til þeirra athafna, sem styggja þig. Þessi trúgóða hugleiðing styrki oss til kroptugrar mótstöðu sérhverri synd, og gjöri oss stöðuga í þeirri trygð, sem vér höfum svarið þér. Þegar vér erum þannig sinnaðir, verður Jesú kross oss það lífsins tré, sem gefa mun oss ena æskilegustu ávexti. Í sérhverri ángist og neyð munum vér, á þessu lífsins tré,

finna allt, sem friðstilli hjarta vort, einkum á vorri dauðastundu. Gleðir munum vér þá umfaðma þig, vor Frelsari! og fyrir þinn saklausa dauða finna opinn inngáng í himnaríki.

## 52. Fostu-Hugvekja.

Jesú síðustu orð á Krossinum, Lúk. 23. Jóh. 19. Matth. 27.

Ó! hversu mild er ecki sú rødd, sem heyrist frá Golgatha! ógnarleg var rødd Guðs, þegar hann talaði, sem Lög-gjafari og Dómari í reiðarþrumum á Sínaí fjalli, og eldíngum leyptraði kríngum hann, en hér er allt rólegt; hér vogum vér að nálægjast, án alls ótta, fjallið Golgatha, á hverju Jesú blóð útrennur. Hér megum vér rødd hans heyra, án þess að skélfast við, því vor deyjandi Jesús sýnir sig hér øllum syndurum, øllum yfirgefnum, øllum deyandi-í því huggunar-ríkasta útliti; látum oss nú skoða hann, til eblíngar vorri trú. Vér sjáum nú í vorum Jesú, þann syndaranna vin, sem elskaði óvini sína til æfiloka, fyri syndaranna sakir tók hann uppá sig erfiði og armæðu á meðan hann umgeckst hér á jörðu, fyr-

ir þeirra sakir leid hann sína bitru pínu, fyrir syndurunum bar hann þá ástúdleguslu umhyggju fram í daudann, syndarar vóru hans fyrsta og sídasta umþenkíngar efni. Í kríngum kross hans stód mikill skari gudlausra skálka, hann horfdi á þá med medaumkunarsömum kjærleiks augum, og bad fyrir þeim med þessum hjartnæmu ordum: Fadir! fyrirgéf þeim, þeir vita ecki hvad þeir gjöra. Vid sídu hans héck einn íllvirki, sem bad sér nádar af honum med audmjúkum anda, hversu fljótur var hann ecki til ad endurnæra þennann vesælíng, og géfa honum þad fyrirheit: í dag skaltu vera med mér í Paradís? hvílíka huggun finnur hér ecki þad hjarta, sem stóra ángist ber yfir sínum syndum? fyrir oss hefir Jesús einnig offrad bænum og þúngum audvörpunum, med gráti og tárafölluм, á þessum hans qvaladegi. Hvad hefdi af oss ordid, ef hann ecki hefdi innilukt oss í þeim fyrirbænum, er hann gjört hefir fyrir sínum mordíngjum? máské vér værum þá fyrir laungu tapadir vegna vorra synda. En — vegsamad sé hans nafn! hann hefir einnig bed-

id fyrir ofs, og snúid frá þöfdi voru þegníngu þeirri, sem ofs mundi hafa eydilagt. Tídum hefir hann med medaumkun til vor litid, þegar vér höfdum verdskulad ad siá hann eins og strángann Dómara. Tídum frelsadi hann sálu vora, þegar vér vildum varpa henni í fordjörfun; og hvad mun hann enn þá ecki vid ofs gjora, ef vér med sannri ydrun snúum ofs til hans? hversu reidubúinn mun hann ecki líta til vorra tára, og heyra vorar andvarpanir? Þá trú höfum vér til þín, vor Lausnari! ad þú sýna munir ofs þá sömu miskun og Ræníngjanum. Þú munt fyrir ofs himininn opna, þegar heimur apturlykst fyrir ofs, hjá þér munum vér finna nád, þegar ofs liggur mest á henni. Jesús sýnir sig enn á krofsinum, sem adstod hinna yfirgéfnu. Sjálfur var hann nú af vinum og óvinum yfirgéfinn, já — hvad mest var verdt — af sjálfum Gudi; á krofsinum hángandi fann hann til Guds reidi ógnana, en þanníg stöddum, géck honum þó til hjarta astand módur sinnar; hann renndi augum til hennar, og sá hversu hún umfadmadi hans krofs, og hans blód-

ugu fætur, hvernig hún studdi sig vid Jóhannes, þegar hún af þeim sára harmi, sem sundur-skar hennar vid-qvæma módur-hjarta, var ørmagna ordin. Hann leit til hennar og gjørdi rádstøfun fyrir høgum hennar. Nú var ad nockru leiti létt á hjarta hans, svo hann fengi því heldur stadist þad skélfilega augnablik, sem honum var áqvardad: ad verda nú yfirgéfinn af Gudi. Eitt sinn munum vér og máské í vidlíkt ástand koma, þegar daudinn nálægist, hverr veit þá vid hverjar efa-semdir sála vor ega muni ad strída. Máské vér megum þá og svo qvein-andi klaga: Drottinn hefir yfirgéfid mig! Drottinn hefir gleymt mér! þá, Frelsari vor! ef þad mæta skyldi, vil-jum vér renna vorum vonar augum upp til þín, sem vor vegna varst yfir-géfinn af Gudi; þú munt þá reynast voru ángistarfulla hjarta í þessari vorri sídustu neyd, vor sætasta endurnæring, já! í sérhverri ángist og efasemd, sem í hugann hvarflar, mun hjarta voru ad því léttir verda, ad þenkja til þín; máské umhyggja fyrir vorum elskudu ástvinum, sem þá harmandi umkríng-ja banasæng vora, og vér sjáum adstod-

arlausa eptirskilda í heiminum, auki ángist vora og örðsemi; þá viljum vér þenkja til þín, sem aðstoð gafst á krossinum þinni forsvarslausu Móður. Forsorgun þinni og umhyggju viljum vér þá á hendur fela þessa vóra ástkjæru, þú munt senda þeim einn Jóhannes, sem gángi þeim í vorn stað. Svo að ekkért skyldi vanta, er auka mætti þær qvalir, sem Jesús leið vor vegna og oss til huggunar á krossinum, heyrum vér hann þessu næst qvarta um þorsta; mig þyrstir! hrópar hann. Einhvern tíma mun álíkur þorsti vitja vor, þegar dauðann aðber, og allir vorir kraptar eru uppþornaðir eins og skél, þá skulum vér hugsa til þín, vor Frelsari! og hugga oss við þinn þorsta, þá munum vér þakka þér fyrir hvern svalandi vatnsdryck sem oss borinn verður, og fyrir það, að þú munt gefa oss meiri léttir á vorri sóttarsæng, enn þú sjálfur nautst á krossinum. Þú hrópaðir: það er fullkomnað! æ! að vér mættum þó eitt sinn taka eptir þér það orð í vorn munn með sama sigur-hrósi og þú talaðir það. Hversu rólegir megum vér ecki qvedja heim þenna, þegar vér vitum

oss hafa allt fullendad, sem oss var á-qvardad ad gjöra edur lída í þessu lífi? þá munum vér einnig um allar vorar mótlætíngar segja kunna, ad þær eilíflega séu á enda, og ad engin qvøl framar snerta muni sálu vora né líkhama. Lokfsins kémur endirinn; med hverju trúar-øruggu trausti afhendtir þú, deyandi Jesú! sálu þína í þins føðurs hendur? kénn þú oss þá ment, ad deya svo sáluhjálplega, sem þú dóst; en þó heldur kénndu oss þá ment, ad lifa svo dygdugu lífi, sem þú lifdir, þá mun vor daudi líkur verda þínum dauda.

## 53. Føstu-Hugvekja.

Jesú bæn fyrir qvølurum sínum. Lúk. 23.

Hvílíka hjarta gædsku sýnir hér ecki hinn krossfesti Jesús? jafnvel þó vér hefdum ecki sterkari roksemdir uppá hans guddóm og hans písla óendanlega verd, þá mætti þó þessi adferd hans sannfæra oss um þad, ad þessi krossfesti væri meiri hverri almennilegri manneskju, já, yfir sérhvern daudlegann upphafinn; ad sönnu mundum vér þeckt hafa veldi hans og makt, ef ad hann med sínum reidar-

þrumum hefdi í sundur marid óvini sína á því augnabliki, sem þeir vildu hafa hann á krossinn neglt, edur varpad þeim til jardar, edur med ødrum hætti gjørt þá óhæfa til framqvæmdar sínu fyrirtæki, en hans kjærleiki og elska til sinna óvina hefdi oss fyrir þad dulin verid, vér máttum þá framar óttast hann enn elska. En hér vottar hans gædska sig undrunarverda. Vér vitum, ad hann med einu almættis ordi, hefdi kunnad ad eydileggja óvini sína, hann gat bodid øllum høfudsképnunum ad sameina sig þeim á mót, hann gat audveldlega gengid úr høndum þeim. En kjærleiki hans vinnur hér sigur yfir allri tilfinníngu mannlegrar náttúru. Í hans hjarta bjó engin grimd, hatur né hefndargirni, heldur einber gædska og eptirlángan ad fyrirgéfa. Ecki er á honum ad sjá nockurn reidisvip, edur ad heyra nockur ógnunar ord, heldur einbera hógværd og kjærleika, hvar med hann svo tídum ádur hafdi endurnært hugdeig hjørtu. Hinn óútmálanlegi kjærleiki, sem þvíngadi hann til ad lída daudann fyrir syndarana, kom honum til þess ad bidja nú fyrir þeim.

Fadir! fyrirgéf þeim, þeir vita ecki hvad þeir gjöra; hvernig gat Jesús ástúdlegar bedid fyrir vinum sínum? hvernig gat hann mildilegar höndlad vid elskendur sína, ef þeir hefdu gjört honum lítilvæga mótgjörd, enn hann höndladi hér vid sína mordíngja: Fadir! fyrirgéf þeim, þeir vita ecki hvad þeir gjöra. Hversu má ecki hjarta vort komast vid, þá vér hugleidum þessa vors krossfesta Jesú ástríku bæn! svo margfaldar og ógnarlegar, sem píslir þær vóru, sem Gud hafdi yfir hann látid gánga, var hann honum þó óumbreytilega hlýdinn allt til daudans, og sýndi þad med ordum sínum og adferd, ad hann gjördi vilja Guds med gledi. Nú var þad einkum naudsynlegt, ad hann gæfi opinbert vitni síns kjærleika til fodursíns, og þad gjördi hann med ordunum, er hann brúkadi í fyrirbæninni fyrir sínum óvinum. Þann, sem straffadi hann, í sinni dóms reidi, og af hverjum hann syndist eldúngis yfirgéfinn, nefnir hann enn þá sinn fodur. Þetta mátti hafa géfid óvinum hans efalaust vissu um þad, ad hann, sem lagt hafdi sig viljugur undir síns fodurs hönd, væri

fullviſs um hans kjærleika, og þared hann áliti ſig, ſem Guds eginn Son, mætti hann ega ſér Guds adſtod viſa. Og vér megum nú einnig þolgódir ſtóla uppá hans nádar-ríku hjálp, í hverjum helſt mótlætíngum, ſem oſs mæta kunna. Þó ad vér lída hljót-um hatur, ámæli, forakt og offóknir í heimi þeſsum, þá egum vér nú þad hæli, ſem vér ávallt þorum ad flýja til, og aldrei bregdſt, hverju enginn madur fær oſs ſvipt; vér vitum ad himinſins og jardarinnar Herra er nú vor fadir, hverjum vér med trauſtri trú þorum efalauſt ad treyſta; þetta vitum vér ad ſønnu, en því erum vér þá ſvo efaſamir og hugkauſir, hverſu lítil bágindi, ſem ad koma? hafi Jes-ús mátt vera viſs um síns fødur kjær-leika, þá hann lá undir þeim bitruſtu píſlum, því viljum vér þá efaſt um gædſku hans vid oſs, þó oſs beri ad høndum lítilvægar mótlætíngar? því þó allskyns eymdir og þreyngíngar mættu oſs, hvad eru þær ad reikna á móti því, ſem Jeſús leid? hans dæmi má koma oſs til ad blygdaſt, þá vort hold vill leida oſs til óþolinmædi og ørvýlnunar. Med ánægdu hjarta ætt-

um vér ad kyssa hans ástríku fødur hønd, jafnvel þá hún typtar oss sem sárast. Því betur, sem vér vyrdum fyrir oss vorn krossfesta Lausnara, því audsjenar verdur oss, hversu mikils oss er ábótavant. Jesús rennir þaunkum sínum fyrst á krossinum til óvina sinna, áhyggjusamur um ad fá þá frelsta, frá því straffi, sem þeir høfdu nú verdskuldad. Ecki var þad undrunar verdt þó ad hann, staddur í þessum qvølum, gleymt hefdi øllu nema sjálfum sér, og síst þenkt til qvalara sinna; en, hvílík mannelska! hann gleymir sínum egin qvølum, og er einúngis hugsjúkur um óluckú óvina sinna. Sjálfs hans píslir finnast honum ecki óbærilegar, en sú pína er honum þýngst, ad sjá fyrir þá óhamíngju, sem mordíngjar hans bøkudu sér og áttu fyrir høndum. Hverki særdu hans hjarta svo sárt sárin, sem hann bar á sínum líkhama, né hádúngar, sem hann leid, svo sem hegníng sú, er hans óvinir øllu sér med hans lífláti, og þess vegna bidur hann fødur sinn svo ástúdlega: Fadir! fyrirgéf þeim. Hvad mundum vér hafa gjørt vidlíka staddir? edur, þar vér

traudlega fáum reynt þad, sem vor Jesús reyndi, hvad mundum vér gjøra, ef vér á líkhama edur sálu mætta mættum óverdskuldadri misþyrmíngu af óvinum vorum? mundum vér þá géta eptirfylgt vorum Lausnara, og þenkt til vorra óvina med vidlíkum kjærleika? mundum vér ecki ætla oss nóg hafa ad þenkja einúngis til þess, sem vér hefdum ad lída? mundum vér ecki ætla þad vorkunar-mál, þó vér í þvílíkum þjáníngu áføllum óskudum þeim íls, er þeirra ollu; en hvad þurfum vér ad nefna hér til stórar þjáníngar? vér finnum hversu vort blód og sinnislag kémur í hræríngu, hvernig vort hjarta verdur af reidi og hefndargirni upptendrad, þegar vér ad eins mætum smá mótgjørdum af vorum óvinum. Daglega finnum vér, hversu ørdugt þad veitir oss, ad sigra náttúrunnar tilhneigíngu, og venja vort hjarta til hógværdar og umburdarlyndis vid óvini vora. Æ! ad vér gætum þó í hvert sinn, sem vort blód kémur í hræríngu, vid sérhvern hefndargirnis þánka, sem oss í hugann kémur, til þín hugsad, vorkrossfesti mannelskari! og þannig

þenkt með sjálfum oss: vor sáluhjálpari, sá eingetni Sonur Guðs, hann, sem var hinn allra heilagasti, leið þó öldúngis saklaus; en vér, sem erum djúpt og aska, erum svo stór-syndugir, að vér höfum lángtum meira verðskuldað, enn vér nockurn-tíma líðum; það vóru morðíngjar hans, sem hann fyrirgaf, og vorir óvinir afgjöra við oss lángtum minna, því skyldum vér þá ecki reiðubúnir til að fyrirgéfa þeim þeirra litlu afbrot, þar Jesús var svo viljugur til að láta lángtum stærri óstroffuð. Vér viljum þá setja oss Jesúm sem munstur, fyrir sjónir, þá hjarta vort ætlar af reiði og hefndargirni að upptendrast; en vér viljum ecki þenkja til hans einúngis, heldur hjartanlega biðja, að hann vilji géfa oss sitt kjærleiksfulla hjartalag, og fyrirgéfa oss vorar misgjörðir; því vissari erum vér um það, að hann heyra muni vora bæn, sem vér erum þess fullvissari, að hann einnig hefir til vor þenkt í þeirri fyrirbón, er hann gjörði fyrir óvinum sínum, því hann bað þá undir eins, sem vor eilífi yppársti Prestur, fyrir öllu mannkyni, fyrir hvers sakir hann leið krossins

dauda; hann bad fyrir øllum manna óvinum, fyrir øllum hefndar-gjørnum, fyrir øllum mordíngjum, og lofadur veri Gud! vér megum því vidbæta: hann bad og fyrir oss, ad vér enn þá lifum, ad oss enn þá ecki er í reidi burtu kippt, og Dómarans hefnd ecki hefir hitt oss í hvert sinn, sem vér látid høfum í ljósi vora hefndargirni, ad vér nú á þessu augnabliki megum finna nád, allt þetta hefir Jesús med sinni fyrirbón afrekad oss. Hættu samt ecki, vor eilísi velgjørarl! ad bidja fyrir oss; lát þér ecki leidast ad leita vor, týndra sauda; máské vér séum eins nærri hegníngunni og það fólk, sem líflét þig; máské oss enn þá gésist frestur, og hefndin falli svo yfir oss? Bid þá, vor Frelsari! fyrir oss; bid um nádar-tíma handa oss, svo vér ecki deyum í syndunum. Þegar vér høldum áfram ad misbrúka þína gædsku, sem leida vill oss til betrunar; þegar vér drýgjum synd á synd ofan og fylgjum fýsnum vorum; þegar vér ad sídustu støndum vid grafarbarminn, og mænum til þinnar hjálpar, æ! bid þá fyrir oss, vor eilísi ypparsti Prestur, og lát oss finna líkn hjá

þér, vegna þinnar hjartnæmu fyri-
bónar á krossinum!

## 34. Föstu-Hugvekja.

Jesú elska til Móður sinnar, Jóh. 19.

Elskan er sterkari enn dauðinn; það lærum vér af þessari hjartnæmu frásögu, sem vér viljum nú í rósemi hugleiða. Undrum vyrðist það gegna, að á meðal svo margra, er Jesús sýnt hafði velgjörnínga, finnast varla nema ein persóna, sem ecki skammast sín við hans kross. Fæstir vóru svo hugprúðir, að þeir sýndu sig líklega til að taka málstað hins saklausa. Fjöldi fólks fylgdi Jesú eptir, þegar þeir voru mettaðir af honum, og hann gjört hafði kraptaverk nockur fyrir þeirra augum; en nú á hans dauða-stundu, vóru ecki nema þrjár konur og einn lærisveinn honum nálægir. Víst má þetta undra, hverr mundi hafa trúað því, að hinir veikustu mundu hugdjarfastir vera. Veikar konusképnur sigra þeirra kyni medfædt hugleysi, og þær yfirvinna alla hræðslu fyrir svo sorglegri sjón, þær gleyma hans háðúng og vanvyrðu, sem krossfestur var á millum tveggja íllvirkja. Þær sigra alla þá

hættu, sem þær óttast máttu af grimdar ædi þessa ólma fólks. Og hvad var það, sem gaf þeim svo óvenjulegann sigur yfir sjálfum sér? eckért annad enn hinn brennheitasti og trúfastasti kjærleiki til Jesúm; undrun þeirra yfir hans stóru þolinmædi, og hin ákafasta laungun eptir því ad læra nockud af hans dæmi, veita eptirtekt hans síðustu áminníngum. En á medal þeskara persóna, er ein sú, er framar hinum krefur vora adgætslu: María vid Jesú kross. Hversu ógnarleg má ecki sjón þessi verid hafa þesskarar dygdugu Maríu vidqvæma módur hjarta, ad sjá Son sinn, sem var dygdin og saklepsid sjálft, svo forsmánarlega medhöndladann, negldann á hádugleat tré, eins og bölvunar-efni fyrir alla, rétt eins og afhrak og vidbjód allra manna, og þó ecki géta hjálpad honum? já, ad sjá hann allødrandi í blódinu og sárum særdann, en þó hverki mega binda um sár hans né stilla blódid? ad sjá hann adfram kominn, án þess ad géta apturlukt hans brostnu augu; hvílík pína mun ecki hér uppfyllt hafa þad ástríka módur hjarta? ecki ad sídur verdskuld-

ar þó øllum framar hinn krossfesti alla vora adgætslu, því sterkari, sem hans kjærleiki var til sinnar módur, því þýngri og sárari mátti hans pína vera, þegar hann sá þessa sína elskulegu módur undir krossinum; þær gudhræddu sálir, sem stódu í kríngum krossinn, høfdu einúngis eina pínu ad sigra, en hann hafdi á þessu augnabliki margfaldar píslir vid ad strída. En svo óútmálanlega stór er kjærleiki hans, ad hann þó snýr þaunkunum til vina sinna, og gleymir ámedan sínum egin grølum, svo hann fái þá huggada. Þad var ecki af hendíngu, ad hann snéri augum til Módur sinnar, heldur af ásettu rádi. Hann leitadi hennar med augunum, og fann hana í mannfjøldanum. Hann gaf henni ad skilja, ad hann gæfi gætur ad trygd hennar, ad hennar dygd hrærdi hjarta sitt, og ad hann endurgjalda vildi medaumkun hennar aptur med medaumkun. Hann bar einnig umhyggju fyrir velferd hennar og varatekt, og fól hana því á hendur þeim Lærisveini sínum, sem af elsku til hans var reidubúinn ad gánga undir allskyns mædu hans vegna med

rósømu gédi. Hér sjáum vér þann ávinníng hjá Jesú, sem dygdugt lífærni heitir oss í sjálfum daudanum; þegar hinum deyanda manni bregdur svo vid daudans adkomu, ad hann, af ótta og skélfíngu, verdur rétt frá ser numinn, og varla má þenkja til sjálfs síns, því sídur ad hann fái um adra hugsad, já, jafnvel ecki um nákomnustu vini sína og vandamenn; þegar sá deyandi, sem eydt hefir gjørvallri æfi sinni í sífeldum tvístrandi heimsins sýslunum, engann tíma fær til annars enn ad búa sjálfann sig undir daudann, þá getur sá sannkristni, sem brúkadi hér sína heilbrygdu daga til daudans undirbúníngs, og sem fullviss er um sitt nádarstand og sáluhjálpar-von, brúkad nockrar sinna sídustu lífs stunda til uppbyggíngar børnum sínum, ættíngjum og vinum; hann getur þá íhugad sínar jardnesku sýslanir; hann getur meddeilt sínum harmandi vinum hugganir og góda lærdóma; ætíd getur hann verid stødugl yndur, ætíd sjálf síns herra; hann getur ádur enn hann deyr, allt fast áqvardad um sína eptirlátnu fjármuni, forsorgad ættíngja sína, ráð-

skafad barna sinna uppeldi, gjört opinberann sinn sídasta vilja, sendt öllum nálægum vinum hina sídustu qvedju, og inngengid sídan med rólegri gledi í réttlátra eilífu hýbýli. Já! þetta megnar hinn sannkristni, þegar jafnvel hinir sterkustu verda veikir, þá þeir slíta skulu sitt hjarta frá hjartkjærum ástvinum, og skilja vid þá, hugsunarlausir um þeirra komandi ástand. En hversu rólegur má ecki hinn réttkristni vera, þó hann eptirláti og skiljist fyrir daudann vid þá, sem missa í honum födur og forsorgara? vel fáum vér skilid, ad þad muni eckért lítid hjartans ángur og qvöl auka hinum deyjandi, ad sjá þá samansafnada um sína bana sæng, hverra eintóm tár, bera vitni þess, hversu yfrid stór sé sá missir, sem þeir þá qvída mega, en vér trúum því einnig, ad öruggt trúar-traust á Gudi, sem skapad hefir himin og jörd, og er allra forlátinna fadir, fái audveldlega fridstillt þad trúada harmþrúngna hjarta; yfrid mikilvægur er þessi lærdómur, og oss til óumrædilega stórrar huggunar, því eitt sinn mun og ad því koma, ad vér staddir verdum í vid-

líka ástandi og vor Frelsari í þetta sinn, þegar vér vid burtfor vora úr heiminum, sjá munum í kríngum oss þá, sem gjørdu oss hérvistina ánægjusama, máské þad sé vor ektamaki, sem megi þá harma voru vidskilnad, máské vor born, vor systkyni og adrir ástvinir samankomi þá ad vorri banasæng, þegar vér erum ad dauda komnir. Klárlega fyrisjáum vér þad, í hvílíku strídi vor sál muni þá eiga, en þá skal dæmi þitt, krossfesti Jesú! vera oss opid fyrir hugskots sjónum. Med eins vidqvæmu tilliti og þú leitst til þinna vina, viljum vér til þeirra líta, eins alvarlega viljum ver adgæta velferd þeirra, og afhenda þá þar med þinni forsjón á hendur. Eitt finnum vér enn þá athugaverdt í þessu efni, sem vér brúkad fáum oss til undirvísunar: María var stodd vid krossinn Jesú, en hún stód þar upprétt; audvitad er, hvílíka hjartasorg hún hafdi ad bera, en hún lét ecki sorgina yfirbuga sig; enginn heyrdi hana færa bitur klogumál á móti Gudi, né grimdarfull bríxlyrdi á móti mordíngjum sonar síns. Yfrid vel þeckti hún þá þolinmædi, med hverri madur

á ad láta sig leida viljugann í gégnum forsjónarinnar tídum ærdugu vegu. Hún vissi ad sonar síns daudi þéna átti heiminum til frelsis; hennar dæmi viljum vér fylgja; hverr veit, nema ad þeir muni einnig deyja fyrir vorum augum, sem eru nú vor stytta, vor gledi og vor huggan? svo járbiturt, sem þad tilfelli mætti verda oss, viljum vér þó med audsveipni taka á móti því af Guds hendi og segja: hann er Drottinn, hann gjöri hvad honum gott sýnist! Drottinn gaf. Drottinn burttók, lofad sé nafnid Drottins! í þvílíku hugarfari munum vér finna vissustu huggun hjá Gudi; hann mun med líkn líta nidur til vor, eins og til módur sinnar, og med sinni hjálp frida vort sorgbitna hjarta.

## 35. Föstu-Hugvekja.

Jesús hæddur á Krossinum, Matth. 27.

Ei finnast dæmi þess, ad mannvondskan hafi svo vídt komid, ad hun sé í frammi hofd vid þá, sem nærri vóru lífláti undir hinum bitrustu qvölum. Á þeim tíma, eru jafnvel hinir hefndargjörnustu fjandmenn

hins deyanda fridstilltir ordnir, og hatur þeirra plagar þá ad víkja fyrir einhverri ógnun, sem framar fær stad í sálum þeirra. Almennt er það, ad sorgblondud þögn útbreidi sig yfir hann samankomna mannfjölda, sem gèfur sjáanlega til kynna, mannlega tilfinníngu, er plagar, þegar hannig adber, ad hræra jafnvel hin grimmustu hjörtu. Sé nú sá, sem daudastraffid lídur þar hjá saklaus, svo er náttúrlegt, ad það auki medaumkunina med þeim, sem hegnínguna lídur. Hversu dæmalaus má þá ecki heita Gydínga adferd, sem svo vídt gengu í sinu grimdaræði, ad þeir hættu ecki ad misþyrma Jesú med allskyns vanvyrdu og spottyrdum, eptir það þeir sáu, ad þeir fá mundu sínum blódþyrsta tilgángi vid hann framkomid; eckért fèck til medaumkunar hrært þetta grimma fólk; ecki sjón hins saklausa, sem med einberum velgjörníngum vid þeirra þjód, hafdi ecki verdskuldad nema gott; ecki sjón hans písla, sem yfirtók allt það, er nockurr stórbrotamadur lidid hafdi; ecki sjón hans fáu vina, sem med sárustu sorg stódu undir Jesú krossi; ecki sjón hans

hugprúda umburdarlyndis og adferdar allrar undir hinum bitrustu píslum. Allt þetta féck svo litla verkun gjört á Gydínganna hjörtum, ad þeir miklu framar létu sér þar um annt, hverstu þeir fá mættu qvalir hans auknar, og þetta meintu þeir sig helst geta, þegar þeir, ecki einúngis píndu hans líkhama allskyns píslum, heldur og sálu hans sárum spottyrdum og hádi. Af þessari Jesú óvina adferd, sáum vér lært ad þeckja þau yfir-rád, tilhneigíngarnar ná yfir þeim, sem láta þær stjórnlausar, og hversu lángt menn komist geta í löstunum. Þegar drottnandi syndir eitt sinn nád hafa yfir-rádum yfir oss, þá er það oss þadan af um megn, ad láta af þeim strax, sem vér varir verdum þeirrar ólucku, er þær mega olla oss. Sá drottnandi vani, sem vér komnir erum í ad syndga, gjörir oss ad lyktum daufheyrda vid allar fortölur og allar eymdir, sem af syndinni fljóta; af lastanna volduga straumi látum vér oss draga, og loksins fyrr enn oss vardi erum vér máské fallnir í þann afgrunn, sem vér vildum hafa umflúid. Med mestu umhyggju hljótum

vér því, ad umflýa hina fyrstu fýsn til syndarinnar, og aldrei í blindni afhenda oss til nockurrar tilhnegíngar, sem í byrjuninni máské smjadri fyrir náttúru vorri, en verdi oss sídan óbætanlega skadvæn. Hér má sjá hversu skammarlegur sá løstur er, ad hafa aumа og harmandi ad hádi. Stíd sýnir þad íllann mann, ad hæda hann, sem á vid eymd einhverja eda mædu ad berjast, jafnvel þó armæda hans, ad nockru leiti, heita mætti af hans egin tilstofnun, en ad hæda og spotta sárpíndann saklausann, þad er þvílíkur glæpur, sem hvert manns hjarta má hrylla vid. Enginn er efi á því, ad þessi gudlausa adferd má ollad hafa vorum Frelsara mestu pínu, og því miklu framar, sem þær sakargiftir og áklaganir honum á móti framfærdar, vóru skammarlegri og þó allar upplognar. En hér í finnum vér þó einnig vissustu røk Jesú sakleysis. Hefdu Gydíngar vitad nockud, sem þeir fengid gætu lagt Jesú til lasts, mundu þeir síst forsómad hafa ad frambera þad. Gjørvøll sakargiftin vidvjek þeim titli, sem hann hafdi tekid sér, og honum þó med réttu bar. Hversu vand-

ad og heilagt má ecki verid hafa Jesú framferdi, þared hans óvinir sáu sig neydda ad grípa til lýgi þessarar? þess vegna þolir Jesús einnig øll þeirra hádyrdi med svo mikilli hógværd og sinnis rósemi, því þared hans egid hjarta fríkenndi hann, mátti hann rólegur vera yfir øllum haturs-fullum dómum, þolinmódur lídur hann sérhvers hádyrdi og kreinkíngar; hann þolir þær vor vegna, til þess hann fengi oss afrekada eilífa endurlausn. Hversu óútgrundanlegur er ecki vors Frelsara kjærleiki! eckert hefdi honum audveldara verid, enn láta sína óvini þegja. Med einu einasta ordi, sem hann af krossinum talad hefdi, gat hann varpad þessum vitstola mønnum til jardar, en þad gjørir hann ecki. Eckert framber hann á móti óhljódum þeirra, annad enn sína guddómlegu hógværd og sínar sárheitu fyrirbœnir fyrir þeim. Ætti ecki þetta dæmi ad vera oss til eptirtektar? skyldum vér ecki hér af læra, hvernig vér mundum hafa hegdad oss vid þá, sem vidlíka hefdu med oss farid? þó þannig hefdi ástadiv, ad sá óréttur, sem vér lída máttum, verid hefdi himinhrópandi, og oss óbæt-

anlegur, gétum vér þó neitað því, að sá dréttur var enn þá skélfilegri, sem Jesús fyrir vorar sakir í þetta sinn leið? og vér vildum ecki hafa fyrirgéfið; vér vildum traudlega hafa forlíkast við vorn bródur, vin edur náfrænda, þó hann hefdi bedið oss, fallið oss til fóta, leitað af oss forlíkunar og allra medala til að fá oss í sátt. Viljum vér þá ecki líkjast Jesú hógværd, hvers Lærisveinar vér óskum oss þó að álítast? vér viljum ega hlutdeild í Jesú kjærleika, en nálægjum oss honum þó med hjarta fullt reidi og hefndargirni. O! þú vor eilífi ypparsti Prestur! vort harða, ósáttgjarna hjarta viljum vér frambera að þínum krossi; af þér viljum vér læra, að gjalda ecki skammarord fyrir skammaryrdi, ecki að hóta, þegar_vér lídum, heldur fela það á hans vald, sem rétt dæmir. Heldur viljum vér eckért það aðhafast, hvar med vér valda kunnum oss vorra ó-vina hædnis og forakts; og ef það hendir, að vér án vorrar tilstudlunar hafdir yrdum að hádi, viljum vér líta til þín, saklausi Jesú! og fylgja þínu dæmi. Það skal ecki koma óvart, þó vér lídum baktal og hádyrdi af ógud=

légum. Hafir þú, Allraheilagasti! mátt hædni þola, skyldum vér þá undra vondt baktal, þared ætíd finnast brestir í voru fari, sem álofun verdskulda? hafir þú saklaus og heilagur hlotid ad lída slíkar qvalir, hversu naudsynlegt má oss þá ecki nockurt mótlæti vera, sem svo audveldlega hrøsum í synd og løstu, þá vér høfum einbera giedi, og allt gengur oss ad óskum í heiminum? vér lítum til Jesúm, hvad hann hefdi gjørt gétad, ef hann hefdi brúka viljad almætti sitt, sem óvinir hans med ofdyrfd krøfdu hann til. Í hans valdi stód, ad sýna sig Guds Son, ad stíga nidur af krossinum, og ad gjøra þarmed alla sinna óvina vondsku til skammar, en hann gjørdi þad ecki; vegna þess ad hann var Guds Sonur, vildi hann ecki stíga nidur af krossinum, því hann vildi vera hlýdinn inn til krossins dauda, og þarmed afreka mannanna endurlausn; ó! ad vér værum eins sinnadir og Jesús! ef ad vér sífeldt hefdum megn til ad æfa þá hefnd á óvinum vorum sem hjarta vort hvetur oss til, mundum vér útbreida bráda eymd og fordjørfun yfir allt í kríngum oss; allra medala mund-

um vér leita, til að fá umflúið óvina vorra vald og vòndsku. En hvað ólíkir yrðum vér þá Lausnara vorum, hjá hverjum hin æðsta makt var sameinuð óumræðilegasta kjærleika? sífellt veri sú vor ástundan, ætíð betur og betur að laga oss eptir hans dæmi í vinsemd, hógværð og mannkjærleika; vorrar æru viljum vér leita í því, með þolinmæði að sigra alla vora óvini.

# 56. Föstu-Hugvekja.

Ræníngjans ydran. Lúk. 23.

Hér fann nú vor ørþjáði Endurlausnari endurnæríngu, sem styrkti hans hjarta; vanvyrðan, er hans óvinir gjørðu honum, varð nú með því umbunuð, að íllvirkinn, sem hékk við hlið hans játaði hann að vera heimsins Lausnara. Hans gleði hafði það sífeldt verið, að sjá hjálparlausa syndara til sín koma, þá er þeir vóru í nauðum staddir; þetta gjørði honum sæta alla þá mæðu, ferðalög og næturvökur, sem hann hafa hlaut, og nú, þegar hans fjandmanna grimd neitaði honum endurnæríngar í sinni pínu, fann hann hjá þessum stórsyndara, sem ydrandi snérist til hans, þá hugsvölun, sem

styrkti hann framar hverri annari, og enginn nema hann, sem í gjørvøllu sínu lífi hafdi øllu ómaki þar til varid ad leita syndaranna og gjøra þá hólpna; hann, hverjum einn syndari var dýrmætari enn øll heims dýrd; hann, sem mat þad sína ædstu gledi, ad hann endurnæra kunni syndara hjarta, enginn nema hann gat notid þessarar endurnæríngar í sinni pínu. Þessi sakamadur, sem héck vid hans sídu, lét sjá hjartanlega laungun eptir sáluhjálp sinni; hann sá, ad hér í heimi, var nú einkis framar fyrir sig ad vænta, því leitadi hann hins betra heims, hverjum hans drýgdu misgjørdir sýnduzt hafa honum apturlokad; hann leit því med bitrasta ángri til baka, til síns umlidna lífs, og bar mestu áhyggju fyrir því, ad hann endad fengi sáluhjálplega sitt líf, hvers byrjun og framgáng hann hafdi svo ílla brúkad. Í þessu sálar ángri, snéri hann sér til Jesúm, sem ad útvortis áliti var honum ad øllu líkur, en af hverjum hann alls vænta þordi; fulltrúa bidur hann hann ad minnast sín, þegar hann komi í ríki sitt. Hverr má ecki í djúpa undrun falla yfir þessa manns trú? hann mátti

affaka, þó hann hefdi hneixlast á Jesú, eins og hann var nú staddur. Þad var ecki undrunarverdt, þó sú vanvyrda og háð-yrdi, sem hann heyrt hafdi af Jesú óvinum, hefdi svipt hann allri trú til Jesúm, og þó aldrei hefdi þad verid, mátti þad sýnast nær því ótrúlegt, ad madur, sem lifad hafdi í løstum og nidurþaggad sérhverja medlídunar tilfinníngu, sem náttúrlega flaut af hans líferni, sem Ræníngja, ad hann skyldi sýna þá hugprýdi, ad forsvara Jesúm í gégn hans óvina háðyrdum, og ecki þad einúngis, heldur sýna hjá sér þvílíkt trúnadar traust á Jesú, ad hann vænti þess af honum, sem sannar þad, ad hann áleit hinn krossfesta vid hlid sér, guddómlega persónu; hann bad Jesúm ad gefa sér hlutdeild í ríki sínu. Af engum mátti madur, eptir útvortis áliti, midur vænta þessa enn af Jesú, sem í þad sinn hafdi varla mannlegt, því sídur konúnglegt útlit. Jesús var nidursöcktur í hid stærsta eymdanna djúp; eckért átti hann framar hér í heimi; hann héck nakinn á krossinum; hann hafdi enga fylgis-menn né þénara; hann var ad dauda kominn, sem er

tíma-púnktur sá fyrir Konúngum og Furstum, þegar allur mikilleiki og hátign burthverfur, og enginn skeytir framar þeirra náð; í þessu ástandi bað Rænínginn sér þeirrar náðar af Jesú, sem tók út yfir nærveranda lífs takmörk. Hann bað hann minnast sín, þegar hann inngengi í ríki sitt. Þetta var þvílík trú, sem menn vart kunnu að vænta af Jesú trúfasta Lærisveini. Ecki viljum vér grennslast eptir því, hvert hjá oss finnist þvílík trú, en skoðum heldur þann ásetníng og sinnislag, er á undan má hafa gengið hjá þessum sakamanni; því nauðsynlegri er oss þessi aðgætsla, sem dauðinn grípur oss opt lángtum hastarlegar enn ræníngjann. Með vissu fyrisá hann, að skammt var eptir lífsstunda hans á krossinum, og því meir hann nálgaðist dauðann, þess rækilegar gat hann búið sig undir hann. Vér fáum alls ecki fyrissjeð, hversu lángt eður skammt vér eptir egum; óvíst er líka um það, hvert vér haldið fáum fullkominni brúkun skynsemi vorrar á hinni síðustu stundu, hverrar þó ecki má án vera til sannrar yðrunar, því hvert vér deya kynnum bráðum dauða

edur lángsomum, erum vér þó í hættu staddir ad tapa sálu vorri. Ef vér deyum snögglega, fáum vér enga umsorgun borid fyrir yfirbót vorri; en ef þad skédi, eins og vér, vegna ásigkomulags vors, mættum óska oss, ad vér fengjum ad skilja vid þenna heim eptir lángvaranda sjúkdóm, fáum vér audveldlega fyrisséd, ad þá géta þúsund atvik addorid, sem gjöri vorn alvarlegasta umvendunar ásetníng, ef ecki gjörsamlega ómögulegann, þó samt yfrid ördugann. Hversu naudsynlegt er ecki þess vegna, ad vér nú, á medan vér lifum og erum heilir heilsu, tökum fyri oss þetta allra mikilvægasta efni, hverju vér í daudanum mundum óska oss ad hafa aflokid, og ad vér nú leitumst vid ad leida gedslag vort í vidlíka rósamt ástand og sá ydrandi ræníngi, sem þess vegna sá gladur dauda sinn adkoma. Þessi madur lét sjá hjá sér alvarlegasta vidbjód á syndinni, og sterkustu laungun eptir því, ecki einúngis ad frelsa egin sálu, heldur og hins sálu, sem ásamt honum var sekur í sömu glæpum. Hann þoldi sína daudans qvöl med hógværd og rósemi, því hann áleit daud-daga sinn sam-

gvæmann misgjörðum sínum; hann flúdi til Jesú nádar, sem hann trúaröruggur ákalladi um fyrirgéfníngu og sáluhjálp, og þvílíkt sinnislag þarf og ad fylla vora sálu, ef vér deya viljum hins réttláta dauda; vér hljótum ad finna hjá oss vidbjód á drýgdum syndum, og vidurkénna oss stráffs seka fyrir þær. Þó ad samvitskan bríxli oss ecki eginlega um þvílíka glæpi, sem ræníngium hafdi drýgt, megum vér þó finna í voru umlidna lífi, þær misgjördir, sem í augum Guds eru eins fordæmanlegar, þó þær eptir heimsins dómi séu ecki svo vidbjódslegar. Til ad falla í örvýlnun, þarf ecki eginlega þess, ad hafa fleckad hendur sínar med manna-blódi, edur aukid sína audlegd med myrdtra gótsi. Af minna má ángur vekjast og tregi í vorri sálu, enn af þvílíkum skammarlegum athöfnum, sem vinna til þess, ad útilykjast frá mannlegum sambúdum. Sérhver synd kann ad qvelja oss, þá vér erum daudanum adkomnir, og leida til örvæntíngarinnar qvalræda; já, þegar svo lángt er komid, ad vér stöndum á grafar-backanum, munum vér lángtum ödruvísi dæma um vorra

misgjørda stærð og sekt, heldur enn vér dæmum nú í vorum heilbrygðu dögum. Það, sem oss sýnist nú eins og sandkorn, mun þá verða að stóru bjargi á samvitsku vorri, það sem vér áður héldum lítilfjörlega sök, mun oss þá vyrðast mikilsverðt, þegar þar er komið, að öll vor lucka er undir þessu dæmi komin að þeckja syndir vorar, svo viðbjóðslegar sem þær eru; þegar vorra synda tilfinníng skélfir oss, þegar vor sálar ángist tekur til að aukast, og vort ofþyngda hjarta finnur hvörgi hugsvolun, æ! verði þá þinn forþénandi dauði, ó vor Jesú! vor huggan og vort hjartans traust; minnstu vor, náðarríki Jesú! þegar vér stríðum við syndina, og láttu oss ecki af henni yfirbugast! minnstu vor, þegar vorar úngdóms syndir, og hinna fullorðnu áranna misgjørðir skélfa vort hjarta, svo að vér föllum þá ecki í örvylnun! minnstu vor á þeim ángistar-tímum, þegar enginn minnist vor, og vorra vina endurminníng ecki fær gétið oss nockurn hugfróa, hjálpa þú oss þá að stríða á móti öllum freistíngum! minnstu vor í vorri dauðans neyð, og styrktu oss þá með þinni

náð, svo að vér finna megum himininn opinn, þegar heimurinn aptur-lykst fyrir oss! minnstu allra þeirra, sem eru yfirgéfnir, allra líðandi, allra deyandi, þeim til besta! á meðal allra þessara aumu, mun víst á þessu augnabliki margur sá, sem leitar þín af öllu hjarta. Æ! líttu náðarsamlega til þeirra, og láttu þá finna náð vegna þinnar verðskuldunar.

## 37. Föstu-Hugvekja.

Jesú náð við hann ydrandi Ræníngja, Lúk. 23.

Af Jesú orðum þeckjum vér enn þá Jesú guðdóm, sem í hans djúpustu niðurlægíngu kunni þó ecki að skérðast. Auðvyrðilegleika og hátígn, vanvyrðu og heiður, fátækt og auðlegð, sjáum vér hér furðanlega sameinað í þessum krossfesta; það, sem enginn Konungur gétur gjört, þegar dauðinn sviptir hann jarðneskri hátign, gjörir hér hinn krossfesti, Jésús; hann heitir ydrandi Ræníngja hlutdeild í ríki sínu og þeirri dýrð, sem hann sjálfur átti í vændum eptir dauðann. Hafi það að undanförnu orðið vorri veiku skynsemi að ásteytíngu, þá vér sáum hann svo háðuglega útleikinn, hvörsu þetta hneixli þegar vér heyrum

hann deyandi gefa þvílíkt heityrdi, sem vitnar um hans Gudddóm; sannarlega! hinn krossfesti Jesús er Guds Sonur, hans er ríkid, mátturinn og dýrdin frá eilífd til eilífdar! Hvílík huggan er oss þad ecki syndugum, ad hann veitti þessum syndara þvílíka nád? vér egum einnig hans nád vísa, ef vér ydrandi leitum hennar. Fullvíssa um hans ríkis dýrd og eilífa varanlegleika, gaf oss engann hugfróa, fyrr enn vér vissum og, ad oss er hlutdeilt ætlud í þessu hans ríki. Ad sjá Guds Son í Jesú píndu persónu, mátti ad sönnu vekja hjá oss hina stærstu furdu, en jafnframt skélfa oss; en hversu huggunarrík hugsvalan fyrir oss! vér sjáum nú, ad Jesús Guds Sonur er syndaranna vinur, hann er vor Gud, vor Konúngur og vor Frelsari, og þessi trú var þad, sem fridstillti ydrandi Ræníngja hjarta. Í hans sálar ángist vid daudans adkomu, féck eckért framar gladt edur hughreyst hann, enn Jesu huggunar-ríka svar; hann hafdi látid Jesú í ljósi síns hjarta áliggjandi naudsyn, og Jesús var reidubúinn ad hjálpa honum, já, lofa honum meiru enn hann bad um: Ræníng-

inn bad hann einúngis: „ad minnast sín, þegar hann kjæmi í Ríki sitt.“ Hann hefir líklega gétid til, ad sín qvøl á krossinum mætti enn þá lengi vara, hann óskadi því ad eins, ad þegar hans lífs endi kæmi, hann mætti náð finna og ecki fortapast; en — Jesús lofadi honum meiru enn hann kunni ad óska sér: „Nú í dag skaltú vera med mér í Paradís!“ Hversu má oss nú ecki miklast Jesú kjærleiki til syndaranna! hángandi á krossinum, í djúpustu niðurlægíngu og ógnarlegustu qvøl, eru syndararnir allt hans umhugsunar efni. Eins og þad var alla æfi hans dagleg iðja, ad leita syndaranna og ad gjøra þá sáluhólpna, eins er þad enn hans lyst og lángan í daudanum ad géfa þeim töpudu frelsi. Ver ímindum oss hvílík gledi uppfyllt hafi hans pínda hjarta, þegar hann sá sína sídustu kappsmuni á jørdunni fyrir syndaranna frelsi svo veglega krýnda. Alltaf á medan hann umgéckst á jørdunni, leitadist hann vid ad locka syndarana til sín med velgjørníngum og lærdómum; nú luckadist honum, rétt vid andlátid, ad ávinna eins glæpamanns hjarta. Þetta

var hans kross fyrsti sigur, sú fyrsta verkan fyribónar þeirrar, sem hann gjört hafdi fyrir óvinum sínum, og þad vegsamlegasta herfáng, sem hann sjálfur tekid hafdi á daudans vallplátzi. Ö! ad vér gjördum og Lausnara vorum eins mikla gledi med vorri umvendun, og vér høfum honum hrygdar ollad med sífeldu ydrunarleysi! Svo lengi hefir Jesús ad oss leitad á afvegum, svo opt leitast vid ad frelsa oss, svo innilega lángad eptir vorri betrun. Ystrid mørg útvortis tækifæri hefir hann þau látid adbera, sem oss vekja skyldu af voru andvaraleysi. Sérhverr tími, sérhverr stadur, sérhver tækifæri vóru þanninn af honum niðurrødud, ad allt mætti draga oss til hans. Svo mørg ydrunarlausra og til nádar tekinna syndara dæmi, sem hann hefir oss fyrir sjónir sett; svo margar mótlætingar, sem hann hefir látid mæta oss, allt þetta má sannfæra oss um laungun hans til ad uppleita þá villtu, og gjøra þá tøpudu hólpna. Og hvad gjørir hann ecki á þessu augnabliki vid oss? þad tækifærid, sem hann gefur oss til ad hugleida sína pínu, ad skoda þessa nádada syndara

dæmi, er þetta ecki kroptug áminníng til vor, ad snúa oss frá syndunum til hans? já! vér viljum, ó! þú elskulegasti syndaranna vin! ecki láta þína kappsömu vidburdi vid oss, verda ávaxtarlausa; vér sjáum hversu þú útréttir þína hönd til vor, og vér viljum flýta oss til þín. Án undandráttar viljum vér ala önn fyrir frelsi vorrar sálar. Eitt augnablik eins luckulegt og þetta nálæga er, adkémur máské aldrei optar; svo audveld, sem ydran er oss nú, verdur hún oss máské aldrei hédanaf. Hvern dag fordjörfunust vér meir, venjumist framar til syndarinnar og forhertumst því frekar; þær kríngumstædur mega mæta oss, ad þad nær því verdi oss ómögulegt med alvöru ad verka vora sáluhjálp; því viljum vér færa oss þetta augnablik í nyt, brúka þad til ad hugleida þetta mikilvæga efni, og gjöra þann undirbúnínginn, af hverjum vér væntaborum sáluhjálplegrar endalyktar. Því fyrr, sem vér byrjum þetta heilla verk, því gladari fáum vér gengid daudanum ámóti, því vissari megum vér vera um ad ná hlutdeild í eilífri sáluhjálp; þá megum vér med

öruggu trúar trausti vænta himinsins, og deya með þeirri huggunarríku fullvissu, að vér á vorum viðskilnaðar degi héðan, skulum vera í Paradís; seinasta augnablikið sem aðskilur sálu vora frá líkhamanum, mun þá verða hið fyrsta í dýrðinni. Engin efasemd skal þá fá gjört sálu vora órólega. Látum þetta jarðneska hreysi forrotna; vor önd, sem í því bjó, mun þó yfir grøf og forrotnun upphafin verða. Látum og þekkínguna um vorrar sálar ásigkomulag eptir líkhamans dauða, og um þess komanda lífs ástand, vera svo óljósa og svo ófullkomna, sem vera vill, það er oss nóg, að vér vitum sálu vorri muni vel vegna; það er oss nóg, að vér megum vera þess fulltrúa, að sá staður, til hvers vér fluttir verðum, mun æskilegur verða, og óendanlega farsæll samastaður fyrir oss. Já, þetta vitum vér, og án allrar sorgar viljum vér nú vænta vors síðasta augnabliks; vér høfum lyst að fara héðan og vera með Kristi.

# 38. Føstu-Hugvekja.

Jesú qvala-hróp af Krossinum. Matth. 27.

Þetta Jesu qvala-hróp má vekja hjá oss mestu undrun, en þar hjá styrkja vora trú og hvetja oss til guðhræðslu. Auðsætt er nú, að hér leið ecki dauðans qvalir einúngis saklaus dánumaður eða Foðurlánds elskari, ellegar píslarvottur; þessir pløgudu að sýna óbifanlegt støduglyndi midt í dauðans qvølum; enga kløgun heyrdu menn af þeirra munni; píslarvottarnir møttu sig því þeldur sæla, að mega líða fyrir Jesú nafns sakir. Þeir sýndu sig, undir enum bitrustu píslum, rólega og ánægða, og þoldu þær án allrar umqvørtunar; já, gengu jafnvel eins og með sigurhrósi dauðanum ámóti. En hvørnig er þessu varið? þessir píslarvottar, sem þó ecki vóru nema menn og énn þótt saklausir, vóru þó syndugir, þeir gátu foraktað dauðann og bitrustu píslir, gengið glaðir út á bálið, og midt í loganum súngið lofsaungva? En— Jesús, sá eilífi Sonur Guðs, sá allra saklausasti, sem óskelfdur mátti vera fyrir dauðanum og þoldi hann einúngis, af því að hann vildi þola hann; Jesús sýnir minna støduglyndi

lyndi, minni hreysti heldur enn þessir píslar-vottar, hann klagar: „Gud minn! Gud minn! hvíhefur þú yfirgéfid mig?" hvílík kløgun af honum, sem vænta mátti ad med sigur-hrósi gengi daudanum á móti! af hverju kémur þessi mismunur? efalaust af því, ad daudi Jesú var heimsins syndafórn; hans dauda fylgdi hvílíkur biturleiki, sem enginn deyjandi, enginn píslarvottur hefur nockurntíma jafnbeiskann smackad; á þessu augnabliki boldi hann allt þad, er hann, svo sem offur fyrir vorar syndir, líða átti. Þetta er útskíríngin þessa vors krossfesta Jesú qvala-hróps, sem ad ødrum kosti mátti vera oss óskiljanlegur leyndardómur. En hvílíka verkun hefir nú þetta vors deyjanda Jesú qvala-hróp hjá oss? fáum vér neitad honum sárrar medlídunar? þessa skyldu ætlum vér ad sýna sérhverjum saklausum, þó hann væri ecki nema madur einn. Víst mættum vér komast vid af því, ad sjá einhvern dygdugann undirþrycktann af hefnd eintómri og hatri ógudlegra; en hvad miklu framar þá nú, nær vér íhugum Jesú dauda, sem vors ástvinar, vors bródurs, vors Frelsara dauda, og þennann dauda fyrir vor-

ar ſakir? hverſu óbærilega mun ecki vörs Jeſú daudans ángiſt verid hafa, þegar hann hrópadi: „Gud minn! Gud minn! því hefir þú yfirgéfid mig?„ ad ſønnu var hann negldur á kroſsinum, og þar hángandi hjálparlaus, en hann var viſs um ſína brádu frelſun, allskyns qvalir hafdi hann þolad án þeſs ad mögla yfir hinni miſkunarlauſu medferd qvalara ſinna. Þad augnablik ſá hann nálægjaſt, ſem enda mundi eymdir hans; viſs var hann um ſíns Fødurs ſtøduga kjærleika, og ſinna píſla vegslegu endalykt. Ecki ad ſídur, þó ad Jeſús ſtyrktur væri af øllum þeſsum kroptugu huggunum, ofþýngdi honum þó hørmúnganna ſtærd; og gétum vér þá tilfinníngarlauſt hugſad um þeſsar hans píſlir? æ! nei! ſá yfirgéfni Jeſú krefur af oſs vidqvæmuſtu medaumkunar tára; en hvad er þetta offur til umbunar þeim óendanlega kjærleika, ſem Jeſús hefir oſs audſýnt; þó ad vér úthelltum ſáruſtu medaumkunar táraflódi, þó vér offrudum oſs honum med lífi og ſálu, já! þó ad vort gjørvalla líf á jørdunni, og hitt, ſem vér væntum oſs í eilífdinni, væri honum einúngis helgad, til ad vegſama hann og ſýngja

honum lof, þá hefðum vér þó engann-veginn fullnægt þeirri þacklætis skyldu, sem vér áttum honum ad audsýna; þvi miklu sidur fáum vér þar med endurgoldid hans mikla kjærleika, þó vér vidurkénnum hann med munninum, en afneitum honum í hjartanu. Nei, med þetta kalda þacklæti kann ecki Jesús ad láta sér nægja. Hann krefur allt vort hjarta, og vill ad vor elska til sín hafi fyri-rúmid fyrir allri annari elsku; hann krefur vor hjørtu sem þad einasta þacklæti, er hann af oss væntir, eins og þá gáfu, sem honum þægari er enn øll offur. Fyrir þess blóds sakir, sem hann fyrir oss úthellt hefir, sakir hans bitru písla, þá hann var yfirgéfinn af Gudi, hvad aldrei hefdi adkomid, ef þad ecki skéd hefdi fyri vora skuld, fyrir allt þetta bidur hann einúngis um vort hjarta, og hversu mættum vér láta þessa bón hans óuppfyllta? hversu kynnum vér nú halda áfram ad offra hjarta vort heiminum, syndinni og táldragandi heimsins glisi? Nei, guddómlegi Frelsari! hjarta vort skal vera þín eign, þér einum viljum vér lifa, þér einum viljum vér leitast vid ad þócknast, þér einum viljum vér

képpast ad eptirfylgja. Því skyldum vér nú láta syndina ráda fyrir oss, hvílíkt ódacklæti! hvílík vondska væri þad ecki! kynnum vér þá ad þenkja án ótta og ógnunar til Jesú qvala-þróps á krossinum? ógnarlegt er þad straff sem Gud hótad hefir syndurunum, en lángtum ógnarlegra er þad straff, sem lagt var á Jesúm. Skélfilegt er ad falla í hendur lifanda Guds, en þetta yfirgengur allt hvad ógnarlegt er, þegar vér sjáum Jesúm, þann saklausa Jesúm þannig qvalinn undir guddómlegri hegníngu; tídum erum vér svo blindadir, ad vér álítum syndina fyrir smámuni; ágirni, vellyst, ránglætíngar og mátalaus heims elska eru í vorum augum lítilsverdar yfirsjónir, fyrir hverjar vér ecki þurfum straffi ad qvída; en sýnist oss þetta rétt metid, þá vér hugleidum, ad þad voru þessar syndir, fyrir hverra skuld vor Frelsari qveina mátti svo sárlega undir Guds hegnandi hönd á krossinum? ó! líttú til Golgatha, blindadi syndari! viljir þú vita hvernig Gud álítur þínar yfirtrodslur; viljir þú þeckja þinna synda vidbjód; viljir þú vita, hverju þú eitt sinn mátt

qvída af réttlæti Guds, þá renndu augunum til Golgatha! sjáðu þinn yfirgéfna Jesúm, og fylltu skélfíngar! en þú, náðþyrsta sál! nálægðu þig þínum yfirgéfna Frelsara, og hugga þú þig við hans píslir! safna þú kroptum við hans kross, er styrki þig undir mótlætíngunum, huggunar fyrir þinnar samvitsku áklögunum, og endurnæríngar í dauðans ángist. Máské þú verðir örvæntin, þegar þér sýnist þú í hættu stödd vera, en sjer þér hjálp enga, og Gud undandregur hjálpína, eptir bæn þinni, svo að þú í hörmum, sem að þér þreyngja, qveinandi klagar: Drottinn hefir yfirgéfið mig! Herrann hefir gleymt mér! sorgbitna sál! líttu þá til Jesúm! var hann miður af sínum föður elskaður, þegar Gud lagði hann undir bitrustu píslir? og sjáðu þá, þegar Drottinn hefir hulið sitt andlit fyrir þér, þegar það sýnist, að sála þín sé allri huggun svipt, hughreystu þig þá við þíns föðurs kjærleika, og væntu hugsvölunar og hjálpar af honum á þeim tíma, sem hann ákvarðað hefir til hjálpar þér. Loksins mun þó koma sú gledilega frelsis stund; hugsaðu til Jesúm! stærri gat

neyð hans ecki orðið, þegar hann qveinaði með þessu hrópi: „Guð minn! Guð minn! því hefir þú yfirgefið mig?" en varla hafði hann þessi orð útfalað, fyrr enn hans neyð var á enda; eins mun fyrir þér fara, þegar hörmúngarnar og neyðin er vorðin þér hvað óbærilegust, þá er það augnablikið í nánd, sem umbreytir þínum hörmum í sigurhrós. Efalaust mun þetta ské, þegar þitt örþreytta höfuð legst loksins niður til dauðans svefnhöfga. Þessi umskipti munu jafnvel og uppfylla hjarta þitt rósemi og huggun. Trúarsjón þess, undir dauðann yfirgéfna Jesú, mun þá endurnæra þig; þegar þú minnist synda þinna, setur þér fyrir sjónir Dómarann og skoðar jafnframt það fullkomna offur, sem hann framfært hefir fyrir þínar syndir, þá mun hans sjón vernda þig á móti dauðans, grafarinnar og eilífðarinnar ógnunum. Frá sínum uppreista krossi sýnir hann þér þá Guðs forlíkaða réttlæti, dauðann í sigur uppsvelgdann, þínar syndir afmáðar, allar mæður á enda, en himininn opinn, hvar þér er búin ævarandi sæla.

# 59. Føstu-Hugvekja.

Jesú Þorsti á Krossinum. Jóh. 19.

Nær því hafdi nú Jesús 6 tíma þolad á krossinum bitrustu qvalir, med undrunarverdustu þolinmædi, en þó var enn þá ein pína geymd honum eptir Guds ásettu rádi, fyrr enn hann fengi hann áskenkta qvalara bikar ad øllu út tæmdann; hann átti enn þá ad pínast af þeim sárasta þorsta, og sér til píslar-auka láta sér nægja hina beiskustu svølun. Þetta var þad augnablik, þá þau ord uppfylltust á honum ad øllu leiti: eg em sem vatn útausinn, øll min bein adskilja sig, mitt hjarta í mínu lífi er smelt sem vax; mínir kraptar eru uppþornadir sem skurn, og mín túnga lódir vid minn góm. Meir enn í 12 tíma hafdi nú Jesús lidid þær píslir, sem tæmt høfdu krapta hans og pressad mesta blódid af líkhamanum; þad var því ecki furda, þó hans magnþrota munn og túngu lángadi eptir svølun. En lángtum sterkari eptirlaungun hafdi þó sála hans eptir ædri endurnæríngu, hann þyrsti eptir sælunni í síns Fødurs skauti, hann lángadi eptir fullkomnun syndaranna frelsis, fyrir hverja hann

hafdi nú útſtadid óſegjanlegar píſlir. Hér finnum vér afmálun áſigkomulags þeſs, ſem vér í daudanum megum búaſt vid. Þó ad vér deyum ecki á kroſsinum, en pínumſt ſvo ſem Jeſús til ørmegnis, þá mun oſs þó ad vonum, eptir ſvølun þyrſta, þegar oſs finnſt innvortis ſjúkdómur, ſem brennandi eldur ſæki ad hjartanu, og blódid tekur ad ſtorkna í ædunum en kalda ſvita ad ſtøckva út af líkhamanum, æ! hverſu ſár þorſti mun oſs þá ecki ſækja og laungun eptir ſvølun nockurri, og lofadur veri Gud! vér munum þá, þannig ſtaddir, þó betur farnir enn vor Jeſús var nú. Vinir vorir og kunníngjar, jafnvel vorir óvinir, munu þá ſýna oſs þá medaumkun, ad rétta oſs einn þorſta dryck. Ad minnſta koſti munum vér fá einn vatns dryck til ſvølunar, og þad án þeſs, ad mæta hádyrdum, eins og Jeſús, í vorri neyd. Æ! þegar ad því kémur ad þeſsi ſídaſti þorſti pínir oſs, lát þá, ó Jeſú! endurminníngu þíns þorſta á kroſsinum ſvala ſálu vorri! ſvo opt, ſem vér njótum nockurrar hugſvølunar og endurnæríngar á medan vér lifum í heiminum, þá láttu oſs þad aldrei úr minni lída, ad vér egum þad þér ad þacka; þú

munt einnig svala oss i daudanum, en vér gjörum ráð fyrir, ad annar enn sterkari heldur enn líkhamlegur þorsti muni sækja oss í daudanum. Þó ad vér í heilbrygdu døgunum høfum fram-anad í gjálífi, hyrdulaustr um velferd sálar vorrar; þá munu þó efalaust vid daudans adkomu alvarlegri þánkar vakna í sálu vorri. Þegar þannig er varid høgum vorum, ad engin jardnesk svølun fær oss framar endurnært og vér í daudanum þeckjum hversu hégómleg og fánýt øll jardnesk ánægja er; þegar vér reynum hversu gjørvallur heimurinn med øllum sínum gædum er ónógur til svølunar og hressíngar sálu vorri, lát þú þá, vor Frelsari! sálu vora sárþyrsta eptir nádarinnar og eilífdarinnar endurnæríngu, svølun finna! láttu þá ecki óbænheyrt vort hjartans andvarp! svaladu þá vorri ørmæddu sálu med fullvissu um þá sáluhjálp, sem þú hefir henni geymda í himninum; já, þángad skal ønd vora lánga, og hún í þeirri eptirlaungun leita sér hugfróa, þegar heimsins órósemi er horfin. Þángad skulu vor trúar augu mæna, þegar hid jardneska allt hverfur oss; þá óskum vér oss ad

vera þar, hvar vér um allá eilífð fáum að skoða Guðs andlit. Máské, þegar vér erum dauða aðkomnir, að áhyggja fyrir eptirlifandi ástvinum, ektamaka og börnum, gjöri oss hugsjúka, æ! vyrðstú einnig að létta af oss þessum hættulega qvíða, með því að styrkja hjá oss þá von og trú til þín, að þú viljir taka undir þína vernd alla þá, sem vér elskum, og innleiða þá á síðan í þann sama sæluftað, sem vér gaungum inn í á undan! ó! hvílíka endurnæríngu mun eckí þessi huggan géfa voru örmagna deyanda hjarta! en svo lengi, sem vér enn þá lifum í heiminum, þá láttu þann þorsta, sem píndi þig á krossinum, sífellt vera oss í minni! láttu oss til hans hugsa, þegar lyst til óleyfilegrar endurnæríngar, og þinna gáfna misbrúkunar locka vill vort hjarta! láttu oss til hans hugsa, þegar leyfileg nautn Guðs gáfna gleður oss í lífinu! láttu oss til hans hugsa, þegar þjánínganna hiti og ángur yfir vorum syndum ofþjakar oss! Loksins, þegar vor síðasti þorsti aðkémur, og vér engri svölun fáum lengur á móti tekið, láttu oss þá til þín þenkja og endurnærast

af þinni náð, vegna þess þorsta, sem þú, fyrir vora skuld, leidst á krossinum!

## 40. Föstu-Hugvekja.

Fullkomnan Jesú pínu, Jóh. 19.

Nú var loksins komið það augnablik, þá Jesús fann, eptir bitrustu ángistir og pínur eilífa endurnæríngu. Hans grimmu óvinir höfðu alltaf neitað honum um minnstu endurnæríngu, en þeirri huggun gátu þeir þó ecki svipt hann, sem hann naut nú, af því að hafa fullkomnað sitt meðalgaungu embætti á jörðunni. Í þeim bitru ángistar- og qvala-tímum, sem hann híngað til útstaðið hafði, var honum það ecki lítill hugar-styrkur, að líta fram yfir pínur sínar og fyrirsjá fullkomnun þess verks, sem hann hafði sér uppátekið, og sæla endalykt qvala sinna. Sá þánki, að hann til þess væri í heiminn kominn, að endurleysa aumstadda syndara, hvarf honum aldrei úr huga, og þessi þánki gjörði hann viljugann til að þola dauðans grimmustu qvalir. Viss um sigur yfir dauðanum, kunni hann nú sigri hrósandi aðfram kominn að hrópa: það er fullkomnað! fullendað var gjörvallt augnamið sendíngar

hans í heiminn. Á medan hann dvaldi hér á jördunni, hafdi hann og gjört síns Födurs vilja trúlega, án þess ad forsóma minnstu skyldu, er efla mætti lucku mannanna. Hann var sendur til ad predika Evangelium þeim aumu og fátæku, ad opinbera Guds rád um mannanna sáluhjálp, og vísa þeim fridarins og lífsins veg, hvílíkt kapp lagdi hann ecki á allt þetta fram í daudann! Þad var kjærasta ydja hans alla æfi, ad leida menn til yfirbótar og betrunar, ad leita þeirra fortöpudu, ad frelsa þá aumu og afreka gjörvöllum heiminum nád. Í þessu starfi hafdi hann eydt kröptum sínum, án þess ad láta nockra mædu, jafnvel ecki krossins qvalir letja sig, nú hafdi hann þetta starf fullendad, svo ad allt var nú framqvæmt, sem hann gjöra átti, þvi gat hann sagt: „Þad er fullkomnad!" Fullkomnad var þad mikla offur, sem hann frambera skyldi til fridþægíngar mannlegu kyni, og hvar ad allar fyrirmindanir og spádómar lotid höfdu; allt hafdi hann þad uppá sig tekid, sem á nockurn hátt tilheyra mátti hans forþénandi hlýdni, ecki hafdi hann sig undanþegid ad lída allt syndaranna straff, sér hafdi

þann tilreiknað alla þeirra skuld. Fyrr vildi hann ecki hnegja sitt höfuð, enn hann deya kynni med þeirri fullvissu, að hann forlíkað hefði fyrir allt mannkyn, og fullnægt Föður síns réttlæti. Því gat hann sagt á sínu síðasta lífsstunda augnabliki: „það er fullkomnað!" Fullkomnuð var oll sú pína, er hann líða hlaut til vorra synda forlíkunar, og sem hann svo margfaldlega og með svo miklum píslum leið, bædi á líkhama og sálu. Lengra skyldi nú ecki gánga hans lífs armæða, né hans óvina grimmleiki, því kunni hann einnig í þessu tilliti að hrópa: það er fullkomnað! þannig mátti vor Jesús að orði qveða á sinni síðustu lífsstundu; en ef vér værum nú vorum dauða eins nálægir, mundum vér þá sagt géta með sama trúartrausti: það er fullkomnað? mundum vér með sömu rósemi fá litið til baka til vorra umliðnu daga á vorri dauða stundu? þú hefir og, vor faðir! sett oss fyrir eitt dags-verk að vinna, til þess áttum vér að brúka krapta vora og allann vorn lífs-aldur. Þegar þú leiddir oss inn í heiminn, var það þinn tilgángur, að vér skyldum hegða oss

samsvarandi voru himneska og jarðneska kalli. En með blygðun og ángri megum vér líta til þeirra liðnir daganna, og játa: æ! hversu lítið er gjørt af því, sem vér gjøra áttum. Hvílíku kappi megum vér þá ekki verja til að bæta það, sem forsómað er, ef vér óskum oss þeirrar gleði í dauðanum, er Jesús naut, og máské vér séum hónum nú jafn nálægir og Jesús var, þegar hann hrópaði: það er fullkomnað! æ! vér viljum flýta oss, og brúka hvert-augnablikið, sem oss enn þá unnt verður til að fullnægja skyldu vorri. Híngað til höfum vér umhyggjulausir verið fyrir sálu vorri, nú skal sú vera vor ákafasta áhyggja, að ala ønn fyrir hennar frelsi, híngað til høfum vér ødrum hneixli gefið með voru framferði; nú viljum vér leitast við að vera ødrum til uppbyggíngar með voru líferni; ó! Drottinn! þú sjér vorn góða ásetníng, géfðu oss krapta til að framqvæma hann; af øllu hjarta óskum vér oss að mega verða svo ánægðir og hughraustir í dauðanum, sem þú varst; en til þess vér gétum orðið það, þá vyrðstu að hjálpa oss til að fullenda vort áqvarðaða

verk; hjálpadu oss til ad bera umhygg-
ju fyrir sáluhjálpar vorrar mikilvægu
naudsynjum; ecki mun brixlyrdi vanta,
sem samvitskan þó megi gjøra oss,
þegar endirinn kémur; þó ad vér ald-
rei høfum svo trúir verid, munum
vér þó ecki ad sídur, mega medkénna,
ad enn þá séu yfrid margar ávyrd-
íngar og margur ófullkomlegleikinn
hjá oss eptir, fyrir hver vér bidja hljót-
um oss vægdar hjá Gudi; þá mun oss
reynast sú huggunin dýrmætust, sem
géfur oss bad einúngis uppá ad stóla,
ad Jesús hafi allt í vorn stad full-
komnad, og ad hans forþénusta muni
hylja allann vors lífs ófullkomlegleika.
Fullvissa sú, ad vor fridþægíng er af
Jesú fullkomnud, mun þá vardveita
oss frá ørvhlnun; og þó vér í daud-
anum verdum þá varir nockurs ófull-
komlegleika og ýmislegs, sem oss var
áfátt, þá skal bad ecki gjøra oss hug-
lausa. Vér væntum oss af vors Jesú
nád þeirrar sæluslu endalyktar; vér
høfum þá trú til hans, ad allt hvad
til vorrar sáluhjálpar kann ad útheimt-
ast, muni í krapti hans fridþægíngar
vid oss fullkomnast. Þad er full-
komnad! þetta skal vera qvedja sú, sem

vér viljum enda med vora daga. Allt þad, sem er ordugt og biturt í lífinu, mun eitt sinn enda taka. Sérhver mæda, sérhvert ordugt stríd á móti vidlodandi syndum, sérhver undirþrycking af órétti og vondsku, sérhverr biturleiki, sem þetta reynslu-stand útvortis og innvortis var blandad med, er þá eilíflega á enda; og allt þetta egum vér þá þér ad þacka, vor sálu-hjálpar Fullkomnari!

## 41. Fostu-Hugvekja.

Jésú tilreidsla undir daudann. Lúk. 23.

Hingad til hafdi Jesús ecki nema einsrokum sinnum rennt þaunkunum til sinna písla, alla áhyggjuna hafdi hann borid fyrir odrum, en nú lyptir hann gjorvollu hjarta sínu upp til hans, sem hann var kominn frá, og til hvers hann nú aptur fara vildi. Hver'u lærdómsrík er ecki þessi Jesú adferd fyrir oss. Einn tími er oss sá fyrir hondum, þegar vér burtslítast munum frá sameiníngu allra daudlegra einnig vorra áffólgnustu vina, þegar heimur þessi, med ollu því í honum er, tapa mun í augum vorum ollu því, er oss finnst nú girni=

legt, á þessu skilnadar augnabliki viljum vér gæta, svo framt vér fáum vidkomid, mannkjærleiks og vinskapar skyldu, vér viljum sorga fyrir velgengni þeirra, sem oss eru áhángandi, og leitast vid ad stytta þeirra harma, en öllu framar viljum vér snúa hjörtum vorum til Guds. Fyrir þann kristinn, sem ferdbúinn er inn í þad betra líf, er allt hvad heimur þessi hefir inni ad halda nærsta lítilfjörlegt, til ad frídstilla og styrkja í daudanum hans hjarta, ecki nema Gud og eilífdin er þad, þem í daudanum gefid getur hjartanu sannann hugfróa; med hvílíku sinnislagi géck Jesús med hugdyrfd og rósemi á móti sínum dauda. Hann vissi ad sinn daudi vera mundi endir allrar sinnar mædu og vegurinn í þá eilífu rósemi; viss var hann um þá vegsemd, sem hann fá mundi hjá sínum födur, ad útstödnum píslunum. Gladir munum vér einnig sjá daudann adkoma, ef vér getum verid eins gédi farnir; sá sem þannig er sinnadur, qvedur vid hans adkomu med Skáldinu: kom þú sæll þegar þú vilt! eptirtektaverd má oss vera umhyggja sú, sem Jesús bar fyrir sálu

sinni, hann afhendti sinn anda í Föd-
ursins hendur, þegar hann var ad and-
láti kominn. Hvad mætti af oss krefja
alvarlegri umhyggju, enn þessi vor ó-
daudlega sála? en þad er ecki fyrst
þegar daudinn er fyrir dyrunum ad
byrja skal þessa umhyggju; í gjörvöllu
voru lífi, egum vér ad hugsa fyrir
henni; þessi umhyggja fyrir sálu vorri,
fær allvel stadist med hverskyns sýslun-
um og erfidi, sem vér hafa hljótum
fyrir höndum daglega í lífinu; fyrir
þverri annari umhyggju má þó all-
jafnt umsorgun fyrir sálunni hafa
fyrirúmid hjá oss; munnmæli þau,
sem menn svo tídum heyra: eg hefi nú
svo lítinn tíma til umhugsunar sálu
minni, sídan vil eg rífa mig lausann
frá heimsins umsvifum, sóma engann-
veginn kristnum. Lucka er þad, þeg-
ar ein manneskja fundid getur milli-
tíd á milli heimsins hávada og daud-
ans þagnar í sínum aldurdómi, ell-
egar á sóttarsænginni til ad losa sig
frá heiminum, ad hann brúkad geti þá
tídina einúngis til umsorgunar sálu
sinn', og til undirbúníngs eilífdinni;
en hvad fáir eru þeir, sem verka kunna
sína sáluhjálp, ef þeir vilja undan-

draga verk þetta, þángad til daudans tími kémur. Sé sál vor nockurs verd í augum vorum, þá ætti umsorgunin fyrir henni ad vera vor sérlegasta ydja, er undangánga skyldi hverri annari. Upplyptu þó, sál mín! eitt sinn þaunkum þínum frá þessu jardarinnar dupti, og vogadu eitt sinn ad fljúga í þaunkunum upp til himinsins, hvar þinn eilífi bústadur vera skal; lærdu í dag ad óska þér þess, ad ásetja þér þad og útrétta, sem þér sómir; lærdu ad þenkja, ad þinn mikilleiki er þar í fólginn, ad þú sért stór í himnaríki, stór í trú og audmýkt; þinn ríkdómur sé sá, ad þú sért í Gudi rík, og hafir safnad þér audlegdar í himninum; þín lucka þad, ad þú sért sæl fyrir Jesúm og í nád hjá honum, og megir hugga þig vid hans velþóknun. Keppstu eptir þessu! brúkadu hér til alla eptirlaungun þína og kappsmuni. Vaknadu upp, mín sál! og sjádu þig um kríng, láttu þenna heim, sem blindar þig, ecki draga þig á tálar, láttu þér í hug koma þinn ódaudlegleika! sjá þinn Gud! hversu hann med vidqvæmri miskun hefir til þín þenkt, hversu hann frá eilífd

hefir elskad þig, og ályktad ad gjøra þig hólpna, sjádu þinn Jesúm! hversu hann hefir erfidad, og barist fyrir þig! og vildir þú þá ecki sjálf gæta þinnar sarsældar! vildir þú þá viljandi varpa þér í gløtunina! vildir þú gjøra ad engu þíns himneska Fødurs elskuríka tilgáng og ávøxtinn af þíns Frelsara dauda! nei! af þér, deyjandi Jesú! viljum vér læra þá skyldu øllu framar ad efla vorrar sálar velferd; vér viljum birja þetta naudsynja verk, ecki þá fyrst, þegar daudans ótti, og grafarinnar ógnan yfirfellur oss, ecki þá fyrst, þegar heimurinn med sínum lystisemdum er ordinn oss vidbjóds-legur. Nú þegar, á medan vér enn þá notid getum líssins og jardarinnar ánægju, viljum vér befala Gudi vorn anda, og þá munum ver loksins fá ad deyja svo rólegir og sælir, sem vor Jesús.

## 42. Føstu-Hugvekja.

Teiknin vid Jesú Dauda. Matth. 27.

Uppá allann hátt finnum vér þad samavæmt vísdómi Guds, ad hann vegsamadi síns Sonar dauda med þvílíkum teiknum, sem sannfæra mættu

gjörvallann heiminn um það, að sá, sem Gydíngar höfðu hér aflífað, væri enginn sakamaður, heldur Guðs Sonur, í hverjum hann hafði sína velþóknun. Þessir atburðir og teikn höfðu og þegar svo mikla verkun á þeim, sem nærstaddir vóru, að þeir urðu að fullu sannfærðir um Jesú sakleysi og heilagleika; en látum oss nú skoða atburði þessa: Fortjaldið í Musterinu, sem aðskildi það heilaga frá því allraheilagasta, rifnaði niður í gégn. Þetta fortjald var til þess, að varna inngángs inn í það allraheilagasta. Nú vildi Guð auglýsa sína náð fyrir Endurlausnarann öllu fólki; að fortjaldið rifnaði í sundur við Jesú dauða, var þar að auki merki þess, að sú gjörvalla levítiska Guðs þjónusta væri nú að öllu leiti upphafin, en ný ætti að taka sína byrjun. Héðanaf áttu ekki Prestarnir lengur að framkoma einir, með bæn og þjónkun fyrir Guð, þá fólkið, sem ekki mátti nærri koma, skyldi bidjast fyrir álengdar, heldur átti nú Guð að dýrkast af einum og sérhverjum Guðs tilbiðjara í anda og sannleika án alls ótta, og hans helgidómur öllum opinn standa.

Med hvílíkri gledi megum vér ecki móttaka þessari Guds stjórnunar umbreytíngu í sinni kirkju. Nú hofum vér, fyrir trúna á Krist, fríann adgáng til nádarstólsins; vér hofum opinn inngáng í þad allrahelgasta vegna Jesú dauda. Ecki þurfum vér ad óttast fyrir því, burtskúfadir ad verda frá hans augliti, þá vér med hreinskilnu hjarta í trúnni, nálægjum oss hans tróni, því þegar vér ástundum ad þjóna Drottni í helgun og réttlæti alla vora lífdaga, þá megum vér hafa þá sælu von á sídan, ad taka hlutdeild í hans dýrd. Sérhvert fortjald, sem oss hefir hér í lífi varnad nágvæmrar sameiníngar vid Gud, mun í daudanum sundur-rífast, og þá munum vér forklárадir, Englunum samlíkir ordnir, eilíflega þjóna Gudi og ásamt þeim vegsama hans nafn. Vid Jesú andlát skalf jordin; med þessum jardskjálfta sýndi Gud, hvílíkur sá madur var, sem dó hér á krossinum, og hvad hans mordíngjar hefdu verdskuldad, ef hann hefdi hondlad vid þá eptir sínu réttlæti. Til þess hefdu þeir unnid, ad jordin svelgdi þá, því þeir hofdu aflífad hinn heilaga og réttláta lífsins

Hertoga. En ad jardskjálfti þessi, vard þeim ecki ad skada, það áttu þeir ad þacka hins krossfesta Jesú fyrirbón, hann hafdi bedid nádar-og um-vendunar-tídar mordíngjum sínum. O! hvad opt höfum vér ecki med vorum misgjördum til þess unnid, ad vera af jördunni afmádir. En þíns dauda höfum vér adnotid, Frelsari vor! ad það ecki er skéd, þín gæðska hefir þyrmt oss, og haft umburdarlyndi med oss óhlýdnum sképnum þínum, og géfid oss betrunar-tíd; æ! ad vér gefa vildum gætúr ad þinni røddu, sém stundum med straffi, stundum med velgjörníngum leitast vid ad vekja oss, fyrr enn það augnablikid kom, þegar þar framar einkis frelsis er von. Vid jardskjálfta þennann klofnudu björgin, og grafirnar, sem í steini voru úthöggnar, opnudu sig; margir framlidinna heilagra líkhamir risu upp, eptir Jesú uppRisu, gengu út af grøfunum, og létu sig sjá í Jerúsalem. Þessa atburdi lét Gud ské af vísdómsfullum tilgángi; ad fortjaldid rifnadi, en einkum ad jördin skalf, og ad björgin klofnudu í því Jesús deydi, þess máttu allir varir verda, Gydíngar høfdu það

nú fyrir angunum, er vekja mátti athygli þeirra og hræra þá til ad renna þaunkunum til ens krossfesta Jesú. Þeir kristnu, er sáu svo marga heilaga, og máské á medal þeirra kunníngja sína endurlífgada, styrktust þar vid í trúnni um Jesú upprisu; því svo marga heilagra upprisa á þeim tíma, kunni ad álítast eins og sigurteikn Jesú almætti, hvar vid hans upprisa vegsamadist; en þaradauki voru teikn þessi ljós vottur, ad Jesús hefdi nád fullkomnum sigri yfir daudanum. Af þessum atburdum máttu þeir kristnu géta nærri, hversu voldugur þeirra Frelsari væri, og hversu audveldt ad sigra sína og þeirra óvini. Þessi teikn vóru lifandi afmálan þess, sem ské mun í hinni almennilegu upprisu á efsta degi, vid alla þá, er sofa í jardarinnar skauti; þá mun Jesús nidurfara af himni med miklum krapti og dýrd, umkringdur almættinu og ískrýddur fegurd þvílíkri, sem enginn fær í gégn séd. Med sterkum jardskjálfta mun hann gjörvallann heiminn hrista, kljúfa bjørgin og opna grafir allra Adams nidja. Ecki ad eins grafirnar í Jerúsalem, heldur einnig allra Stada

grafir munu þá í skyndíngu opnast, og þeirra líkhamir, sem sváfu í þeim, vekjast af sínum lánga svefni. Þá mun-um vér, eptir upprisuna, inngánga í þá nýu Jerúsalem í Guðs Stað, sem kemur frá himnum, og samansafnast-með þeim, sem ásamt oss sófið höfðu í jörðunni, þá munum vér þeckja hverjir aðra, og mæta hver öðrum, sem vinir; þá munum vér fá að sjá og þeckja gjörr Guðs miklu og vegsamlegu gjörnínga, sem hér í heimi vóru oss ofháir að útgrunda; þar munum vér sjá vorn Jesúm eins og hann er, ecki eins og hann var í sinni niðurlægíngu hér á jörðunni, heldur í sinni forkláruðu mind, sem allsherjar Guð. Hvílík rósemi, huggan og von má því ecki vera hjarta voru hér í heiminum, að hugsa til upprisunnar! þér þöckum vér það, vors lífs Hertogi! að þú sviptir dauðann sinni makt og gröfina sínu herfángi; þér þöckum vér þá sælu von, sem gleður sífellt vort hjarta, að eigum í vændum fagnaðar-sæla sameiníngu með þér og öllum vorum bræðrum í himninum.

43. Hug.

# 43. Föstu-Hugvekja.

Veikanir þessa teikna á þeim nálægu, Matth. 27.

Hverr skyldi hafa sied gétad, án þess ad vikna vid þvílíka atburdi, sem skédu vid Jesú andlát; ef vér hefdum til stadar verid vid þessa saklausa Jesú dauda, og horft uppá þau teikn, sem skédu vid hans andlát, mundi oss hafa brugdid vid. Hvad hefdi þá mátt aptra oss frá ad játa oss opinberlega þessa Jesú Lærisveina og leida adra til ad verda þad? en þeckjum vér oss rétt? margsháttar fólk heyrum vér stadid hafa vid Jésu kross; nockrir stódu þar med grimdar huga, en fleiri máské fyrir forvitnis sakir; færri voru hinir, sem af elsku til hans og af medlídun med honum bidu þar hans andláts, og varla nockurr einn, sem gjördi sér rétta þánka um dauda hans. Í hverjum hópnum mundum vér hafa stadar numid? víst ecki á medal Jesú grimdarfullu qvalara, né hinna Skriftlærdu og Öldúnga lýdsins, sem söddu nú hefndargirni sína hjá hans krossi; en hvert vér hefdum ecki leitad hins hópsins, sem var vid hans líflát af forvitni; hvert

vér vid hans kross fundid hefdum meir enn einhera medlídun í hjarta voru, frá hverri madur jafnvel ecki fær haldid sér vid aftöku hinna stærstu íllgjørda manna, þad er spursmálid, sem vér traudlega munum géta leyst úr. Vér þurfum einúngis ad grenslast eptir, hvada sinnis hræríngar vakna í sálu vorri þá vér í einrúmi hugleidum Jesú pínu og dauda, þá fáum vér þar af gétid oss til þeirrar tilfinníngar, sem vér mundum haft hafa, hefdum vér í egin persónu nálægir verid hans líflátí. Hefir Jesú pína øbluga og ávaxtarsama verkun í hjarta voru í hvert sinn, vér hugsum um hana? vidurkennum vér verd hans kjærleika, og mikilvægi alls þess, er hann hefir fyrir oss gjørt og lidid? þenkjum vér med ángri og vidbjód til synda vorra, sem ollad hafa Lausnara vorum svo mikillrar mædu? metum vér þad frelsi sem hann hefir oss afrekad þess, er þad verdskuldar? vildum vér viljugir af kjærleika til Jesúm, og af þacklæti fyrir hans pínu, þola þær þjáníngar, er hann vildi oss á herdar leggja? er þad vor kjærasta ydja og yndi ad hugsa um píslir hans? metum vér ávøxtinn

hans pínu meir enn alls heims audæfi og alla jardneska muni? med einlægri hreinskilni viljum vér prófa hjarta vort. Ecki erum vér ad øllu leiti svo tilfinníngarlausir, ad vér eckért komumst vid, þá vér hugleidum Jesú pínu, þá vér lesum hans píslarsøgu, edur heyrum um hana talad. Svo mørg tár, sem oss renna af augunum, svo margar andvarpanir, sem uppstíga af voru brjósti, sannfæra oss um þad, ad enn þá sé ecki sál vorri horfin øll rádvendnis tilfinníng. En vér høfum híngad til merkt, ad þessi tár audveldléga afþurkast, ad þessar andvarpanir snarlega hverfa svo fljótt, sem vér gaungum út úr Guds húsi, edur úr einrúmi úti heimsins soll og umgáng. Vér vidurkénnum Jesú kjærleika, hversu mikils hann er verdur, og vér sjáum, hversu mikid hann gjørt hefir fyrir vora skuld, ad hann fengi oss frelsada frá vorum eymdum; en hvad lítid høfum vér fyrir hann gjørt? vér vitum, ad syndir vorar hafa ollad honum erfidis og vorar misgjørdir mædu, og þó høfum vér svo litinn vidbjód á þeim haft; sú drottnandi tilhnegíng til forgengilegra lysti-

semda giørir oss þá hrygd ógédfelda, sem Jesú pínu verdug umþenkíng vekja skal í því hjarta, sem vill elska hann. Vor umsvif og margfoldu sýslanir olla því, ad þær hugleidíngar Jesú písla, um stærd þeirra og fjølda, er hvad helzt ættu ad hræra oss, gjøra enga, edur ecki nema mjøg litla verkun á hjarta voru. O vor Gud! þú sem ert vor Fadir í Kristi Jesú! líttú til vor aumra manna, sem hugleida viljum þíns Sonar pínu! hrærdu vor hjørtu svo opt, sem vér íhugum þann sannleika, sem inniheldur alla vora huggun! O þú nádarríki Jesú! snú þú øllum vorum þaunkum, tilhnegíngum og eptirlaungunum til þín og þíns kross ávaxtar! veri þad vor vísdómur, vor ánægja, vor huggan, ad vera þess fulltrúa ad þú sért fyrir oss dáinn!

## 44. Føstu-Hugvekja.

Vísdómsfull rádstafan Guds vid Jesú greftrun, Matth. 27.

Jesú gjørvallt líf hér á jørdunni, má med réttu heita vidvarandi mædu- og mótlætínga-stríd; jafnskjótt og hann kom í heiminn, byrjudust þjáníngar hans og jukust smámsaman því meir,

sem honum jókst aldur, uns þær nádu lóksins sínum fulla mælir í Gethsemane Aldíngardi og á fjallinu Golgatha, enda skyldu þær þá og, eptir Guds alvísa rádi, enda taka, þegar hann hafdi lifandi, lídandi og deyjandi allt þad fullkomnad, er hann, svo sem Kénnari, Fyrirmyndan og Frelsari mannkynsins útrétta átti í heiminum, þvíhrópadi hann sjálfur af krossinum: þad er fullkomnad! rétt ádur enn hann afhendti sinn anda í födursins hönd, og hneigdi sitt andvana höfud; grøfin, sem hann var nú lagdur í, átti, eptir Guds alvísa rádi, ad verda honum til vegs og vyrdíngar. Eptir Jesú óvina vondskufulla tilgángi, átti þessi, í lífinu, svo ofjókti og til dauda qvaldi mannvinur, einnig hádúngum ad mæta í grøfinni. Hjá Rómverjum var sú sidvenja, ad líkhamir hinna krossfestu skyldu á krossinum hánga, þar til þeir uppetnir væru af fuglum og villidýrum, en þessi Heidíngjanna grimdarfulli sidur, var Gydíngum bannadur í Løgmálinu, sem baud: ad líkhamir þeirra upphéingdu, skyldu innan sólarlags nidurtakast og jardast. Eptir þessum løgum hlaut því

Jesú andvana líkhami, somt spillvirkjanna, er með honum vóru krossfestir, að takast niður að krossinum samdægurs og grafast, en smánarleg grøf, hefir honum, eins og hinum krossfestu, efalaust af hans óvinum ætlað verið, því vanalega var þvílíkum sakamønnum kastað í grifju eina, sem gjørð var þar þeir vóru krossfestir, og hvernig mundu þeir fáu Jesú vinir, sem enn þá biðu við krossinn, vogað hafa að vænta þessum sínum andaða ástvin heiðurlegri greftrunar, enn þeir fengu, sem með sama háðuglegum dauð-daga vóru af lífi teknir? en forsjón Guðs, sem svo auðsjáanlega stjórnað hafði, jafnvel sérhverju hinu minnsta tilfelli lífs hans, feck auðveldlega afstýrt þessari vanvyrðu frá hans andvana líkhama. Gyðingar høfðu ætlað honum sakamanna háðuglegann greftrunar stað, en Guð hafði ályktað og látið einn sinn Spámann það laungu áður fyrirsegja, að hann hvíla skyldi í vyrðuglegri grøf eins ríkismanns; og hversu dýrðlega sjáum vér ní Guðs forsjón framqvæma þetta sitt ráð? einn af sjálfra Gyðinganna ríku og mektugu Ráðherrum,

Jóseph af Arematthía, er þeckt hefir Jesú dýrmætu kenníngar og hans voldugu gjorðnínga, og sjed, þó hann fengi ecki varnad því, hversu Jesús öldúngis saklaus var ránglega til dauda dæmdur; hann vill nú sýna þann heidur á hans andvana líkhama, sem hann héfir ecki gétad sýnt honum sjálfum lifandi. Hann vogar ad láta sjálfann Landsdómarann, sem yfir Jesú hafdi uppsagt þann rángláta dauda dóm, sjá þéssa þánka sína, med því sjálfur ad gánga til Landsdómarans og beidast af honum, ad Jesú líkhami mætti adskiljast frá sakamanna líkhomunum og þeirra legstad, en afhendast sér til heiduglegrar greftrunar, og þegar hann hefir loford fengid fyrir því, ad sér skyldi hans líkhami afhendast, fer hann sjálfur og tekur vid honum og veitir þéssum af sinni þjód svo hatada, misþyrmda og fram í daudann foraktada manns líkhama í allra augsýn svo vyrduglegann umbúnad, sem vid mikilsháttar menn var brúkadur, leggur þennann sídan, sem hverki eptir Gydínga né Rómverja lögum njóta mátti ærlegrar greftrunar, í sína egin í steini ný út-

hoggnâ grøf, hvar hann ætladi sjálfum sér og ættfólki sínu legstad. Þessi Jósephs ástúdlega umhyggja fyri líkhama Jesú sýnir, hversu viss hann verid hefir um Jesú sakleysi. Af því ad Landsdómarinn Pílatus leyfdi, ad Jóseph fá mætti líkhama Jesú, er audsætt, ad hann var enn þá sømu meiníngar um Jesú sakleysi, og hann hafdi margsinnis játad, ádur enn hann dæmdi hann til dauda, því annars hefdi hann ecki géfid leyfi til, ad líkhami hans andvana mætti annarar greftrunar njóta, enn sakamønnum var, eptir løgunum, áqvørdud. Óvinir Jesú, sem heyrt høfdu hans fyrirsegn um upprísu sína, létust bera ótta fyri því, ad hans lærisveinar kynnu einhver brøgd í frammi hafa til ad ná líkhamanum, og innbyrla sídan fólkinu, ad hann væri upprisinn, en til ad taka, í því efni, øll tvímæli af, og hindra alla þretta vidburdi lærisveinanna, beidast þeir strídsmanna vardhalds yfir grøfinni. Stórum steini var velt ad grafar-munnanum, fyrir hvern þeir settu innsigli sín, og yfir grøfinni, þannig geymdri, voktu sídan vopnadir strídsmenn. Nú var svo viturlega

fyrir því sjed, sem mögulegt var, ad nockur brögd yrdu hér vid í frammi höfd; þjódin sá og víssi, ad Jesú líkhami var andvana í grøfina lagdur, og ad yfir henni voktu rómverskir strídsmenn, án hverra vitundar líkhami Jesú med engu móti gat á burt horfid; enda hlutu nú og þessir heidnu strídsmenn, Jesú óvina áhángendur, sjálfir ad verda sjónar-vottar og fyrstu vitni ad Jesú upprisu, á móti sínum eginn vilja og hans óvina tilgángi, eins og øll sú umhyggja, sem þeir báru fyrir því, ad vardveita svo varlega hans líkhama, vard sterkasti vottur hans upprisu, og allar mótsagnir gégn henni ad engu gjordar. Vér sjáum hér af, hversu Guds vísa rád veit, ecki einúngis ad gjøra ad engu rádabrugg hinna ógudlegu, heldur og, hversu vísdómslega hann stjórnar þeirra vondu fyrirtækjum, þvert á móti tilgángi þeirra og vilja, til framqvæmdar sínu ásetta rádi. Hvad óhultur máttu nú ecki vera, trúadi, rádvandi kristni! þó þú mætir ofsóknum og ágángi ógudlegra, þó gjørvallur heimurinn gjøri samtøk á móti þér, og hafi ályktad þinn undirgáng,

með þeim slóttugustu vélabrøgðum, Guð þinn, sem þú trúir fyrir þér og þínu ráði, géfur gætur að þér, ecki jafnvel fá þeir skérdt eitt hár á høfði þínu án hans vilja, lengra enn hann leyfir þeim, komast þeir ecki, af þeim velabrøgðum, sem þeir samantvinnuðu þér til falls, veit hann að skapa þér uppreisn, og þvert á móti vilja sínum og vitund, hljóta þeir loksins, sem ætluðu þér íllt, að verða verkfæri til lucku þinnar. Eilíflega vegsamað sé þitt vísa ráð og stjórnan, alvísi Guð! þú, sem gjørir að heimsku svo tíðum ráð hinna vísu, og verndar fyrir þeimsins hreckja tálsnørum þá frómu og einføldu, styrktu oss í þeirri trú, að þégar vér treystum þér, elskum þig og óttumst, þurfum vér ecki að óttast menninà, að allt vort ráð og efni séu þannig undir þinni dásamlegu stjórnun innilukt, að oss eckert megi granda, þú munir leiða oss þannig eptir þínu alvísa ráði, að vér loksins berum úr býtum himinsins eilífu farsæld.

45. Hug.

# 45. Fjóstu-Hugvekja.

Jesú Gröf. Lúk. 24.

Lokſins naut þá Jesú ſárpíndi og ør-
þreytti líkhami rólegrar hvíldar í
grøfinni, eptir lángt og ſtrángt ſtríd á
jordunni. Líkfylgdin, ſem tignadi hans
jardarfør, voru fáar konur, ſem hörm-
udu af heilum huga miſsir ſíns beſta
áſtvinar og velgjörara. Látum oſs nú
fylgjaſt med þeſsum gódu konum og
ſtadnæmaſt hjá þeim eitt augnablik
vid Jesú legſtad. Ef ad ſérhvers and-
vana grøf má vera oſs athugaverd,
hverſu miklu framar ſkyldi þá ecki vors
Endurlauſnara legſtadur vekja oſs til
eptirþánka? hvad er náttúrlegra, enn
oſs hvarfli ſá þánki í hug, þegar vér
ſjáum eins framlidins grøf: eptir fá
ein ár edur máſké daga, verdur þinn
líkhami einnig nidurlagdur í þvílíka
grøf, þar mun þetta ſtyrdnada hold og
þetta ſtorknada blód, ſem þú elur nú
ſvo umhyggjuſamlega og fóſtrar,
verda ormanna fæda, þar mun þeſsi
meiſtaralega líkamans bygging lid
fyrir lid og bein fyrir bein ſundurleys-
aſt, lokſins verdur þar eckert framar
meir ſjáanlegt af þeſsum líkhama,

beinin jafnvel for-rotnud verda aptur ad moldu og dupti, og samblandast jørdunni, þessi fyrir høndum verandi sjáanlegu kjør þess mannlega líkhama, sem reynslan sannar ad enginn fær umflúid, vekur ecki litla hrylling fyrir þeirri dymmu grøf í voru hjarta. Þó ad vér vitum þad víst, ad sérhver manneskja fædist í heim þennann med þeim skildaga einusinni ad deyja, og ad enginn fái sig frá daudanum frí-keyptann, þá er þó elskan til lífsins svo djúpt innrætt því mannlega hjarta, ad náttúra vor ber sífellt nockurn ótta fyrir daudanum, og strídir á móti honum í lengstu løg; og þennann ótta auka ecki lítid umskipti þau og afdrif, er vér fyrisjáum ad þessum kjæra líkhama vorum mæta ega í þeirri viðbjódslegu grøf, þvíad til hins, ad þessi for-rotnadi og fyrir vorum sjónum fortærdi líkhami, skuli aptur endurlifna, grillir alls ecki mannlega skynsemi, jafnvel margir hinir vísustu, sem af náttúruspekinnar røksemdum gátu sér til, ad í þessum líkhama byggi skynsemdarfull sála, vóru efablandnir um þad, hvert hún mundi lifa eptir þad líkhaminn var daudur, og løgdust sjálf-

ir í grøf sína í þessari óvissu. En, lofadur veri Gud! sem fyrir sinn Son Jesúm, er í Jósephs úthøggnu steinþró lagdur var lidinn, hefir lífid og ódaudlegleikann í ljós leidt. Hans dýrmæta lærdómi egum vér ad þacka þad, ad vér vitum nú ljósar, heldur enn þeir vitrustu heimsspekíngar nockurntíma fengu sér í hug leidt, hvad um hagi vora lída mun eptir þad vér erum í grøfina niderlagdir. Jesús hefir kénnt oss, ad í líkhama vorum búi sú sál, sem ódaudleg sé, og þó líkhaminn deyi, rotni og verdi ad dupti, muni sálarinnar líf þó aldrei þrjóta, ad þessu nálæga stutta lífi á jørdunni endudu, sé fyrir høndum endalaus eilífd, í hverri sálin taka skuli umbun athafna þeirra, sem hún í þessu lífi framid hafdi, hún skuli þar uppskéra eins og hún sádi hér, þad er: hreppa þar eilíft endurgjald dygda sinna, en hegníngu lastanna. Líkhaminn jafnvel, kennir Frelsarinn oss, ad egi fyrir høndum, fyrir hans almættis krapt, ad lifna aptur og standa upp af grøf sinni, og skuli sídan endurlífnadur og úr því óforgengilegur taka eilíflega hlutdeild í þeim kjørum, sem sálin hafdi hlotid. Þenna gledi-

ríka lærdóm stadfesti Jesús á sínum hérvistar dögum med guddómlegum kraptaverkum, þá hann medeinu ordi læknadi bædi nálægur og fjærverandi þá hættulegustu sjúkdóma, sem sönnudu hans guddómlegu sendíngu. Hann sýndi, med því ad kalla sjálfur þá framlidnu til lífsins aptur, jafnvel hann, sem tekinn var til ad rotna í grøfinni, med þessu sýndi hann, ad gudlegum krapti var þad ecki um megn, ad uppvekja á sínum ákvardada tíma, þá daudu af grøfununi. Loksins innsigladi hann hennann og allann sinn guddómlega lærdóm med sinni eigin upprísu. Þessi vor Jesús, hvers andvana líkhami lagdur var nú í grøfina, tók á þridja degi avtur sitt líf, eins og hann fyrisagt hafdi, ádur enn hann var til fánga tekinn, og uppreis, sem voldugur daudans Sigrari, af grøf sinni. Nú má oss hverfa allur qvídi, fyrir ollu því, sem ádur mátti náttúrlega skélfa oss. Ovaranlegleiki og óvissa lífs þessa þarf nú ecki ad auka oss minnstu órósemi, hvenær sem líf vort endast, vitum vér nú ad vidtekur betra líf, ef ad vér ástundum ad gjøra oss þess verduga á medan hér

lifum; daudann, sem oss var svo ótta-legur, álitum vér nú, sem inngáng til betra lífs og grøfina svo sem svefn-hús, í hverju líkhami vor skal um stund hvíld taka eptir útstadid mædu-samt dags erfidi, og þadann ad upp-risu dags morgninum aptur uppvakna til stærri gledi og vegsemdar, enn vér ádur þeckt høfdum; hversu sem lík-hami vor fortærist jørdunni, trúum vér ad almætti hans, sem af grøfinni uppvakti Jesú andvana líkhama, muni ecki um megn ad sameina verú-lega parta vors for-rotnada líkhama og gefa þeim líf. Í þessari trú gaung-um vér óhræddir daudanum á móti, og undirtøkum vid hans adkomu trú-ar-øruggir med Postulanum Páli: Daudi! hvar er þinn broddur? Grøf! hvar er þinn sigur? Gudi séu þackir, sem oss hefir sigurinn gefid fyrir Dróttinn vorn Jesúm Krist!